Evangelisk kristileg

# Sálma-bók,

til brúkunar i

## kirkjum og heima-húsum.

---

XI. útgáfa.

Kostar óinnbundin 72 sk.

---

**Reykjavík, 1856.**
Prentud i prentsmidju Islands, á kostnad hennar, hjá E. Þórdarsyni.



## Til adgæzlu
### vid
# Messu-gjørd.

Eptir ad samhringt er til messu, eiga prestar ad láta í kór-dyrum lesa á øllum messudøgum þessa bæn og Fadir vor á eptir:

Drottinn, eg er inn kominn í þetta þitt heilaga hús, ad heyra, hvad þú, gud fadir, minn skapari, þú drottinn Jesú, minn frelsari, þú verdugi heilagi andi, minn huggari, í þínu ordi vilt vid mig tala. Drottinn, opna þú svo med þínum heilaga anda, fyrir Jesú Krists skuld, mitt hjarta, ad

og kunni af prédikuninni læra, ad bera ángur fyrir mínar syndir, í lífi og dauda trúa á Jesúm, og daglega betra mig í dyggdugu liferni og framferdi. Þad heyri og bænheyri gud, fyrir Jesúm Krist, amen.

**Fadir vor,** o. s. frv.

Strax ad því búnu byrjar saungurinn, og framhelzt tvo fyrstu sálmana út. Þegar þeir eru á enda, snýr presturinn sér ad fólkinu og tónar:

**Drottinn sé med ydur.**

Forsaungvarinn og fólkid annsar:

**Og med þínum anda.**

Presturinn snýr sér aptur ad altarinu og tónar:

**Látum oss bidja,**

og sídan þá kollektu, sem í hvert skipti á vid, eptir handbókinni. Forsaungvarinn og fólkid annsar: **amen.**

Þá snýr presturinn sér fram ad fólkinu og tónar: **Pistilinn skrifadi postulinn** (sá

sem handbókin sýnir). En sé lektian annarstadar ad finna, en i pistlum postulanna, þagar presturinn sér þar eptir og segir: **Þessi heilaga lektía stendur skrifud í N. N. spádómsbók, (eda) postulanna gjørníngum, (eda) opinb. bókinni,** eda eptir sem vel hlýdir, þessu ad umbreyta; tónar hann svo pistilinn skýrt og seint.

Eptir pistilinn skal sýngja þann sálm, sem presturinn hefur þar til valid i bókinni, en ad honum búnum snýr presturinn sér fram og tónar:

**Drottinn sé med ydur.**

Forsaungvarinn og fólkid annsar:

**Og med þínum anda.**

Presturinn tónar svo:

**Eptirfylgjandi heilagt gudspjall skrifadi gudspjallamadurinn N. N.**

Forsaungvarinn og fólkid annsar:

**Gudi sé lof og dýrd fyrir sinn gledilegan bodskap.**

Sídan tónar presturinn gudspjallid seint og greinilega til enda. Ad þvi búnu er súnginn sá sálmur, sem presturinn hefur valid til

og fundid ad hlýda upp á sitt rædueſni; vid hans lok stigur presturinn í stól og heldur þar rædu sína. Á hátídum er súngid þad vers, eda sá sálmur, ádur en gudspjall er lesid í prédikunarstól, sem presturinn hefur þar til valid samkvæmt efni hans og tímunum, en ella ekkert. Eptir prédikun syngist þad vers, eda sá sálmur, er presturinn hefur þar til ætlad; en eigi børn ad skíra, eda konfirmera, byrjast þá strax, sem prestur stígur úr stól, þeir sálmar, eda þau vers, sem þar eiga vid eptir þessari sálmabók og fyrirmælum prestsins, og aflýkur hann þar eptir sérhverju af þessu. Séu nokkrir til altaris þann dag, er súngid versid No. 212; sídan snýr presturinn sér fram og les eptirfylgjandi áminníngu til þeirra, er gánga til altaris:

Sakir þess, mínir kærustu Krists vinir, ad þér réttilega og maklega mættud medtaka þad háleita sakrament kvøldmáltídar vors drottins, þá ber ydur einkum þessa tvo hluti ad vita og skilja, sem er: hvad þér skul-

ud trúa og gjøra; því þessum ord-
um, sem Kristur sagdi: **það er minn
líkami, sem fyrir ydur verdur gefinn,
og það er mitt blód, sem fyrir ydur
úthellist til fyrirgefníngar syndanna,**
skulud þér fullkomlega trúa, ad svo í
sannleika er; því Jesús Kristur er
þar sannarlega sjálfur hjá, med sín-
um líkama og blódi í sakramentinu,
eptir ordanna hljódum. Þar næst
skulud þér og svo trúa Krists ordum:
**til syndanna fyrirgefníngar,** það:
ad Jesús Kristur skeinkti ydur sinn
líkama og blód til innsiglis og stad-
festíngar upp á allra ydar synda fyrir-
gefníngu. Ad sídustu skulud þér fylli-
lega gjøra Krists skipun, þar hann
svo býdur ydur segjandi: **medtakid
og etid,** sømuleidis: **drekkid hér af
allir,** og: **gjørid það í mína minn-
íngu;** því hann hefur gefid oss sinn
líkama og blód ad eta og drekka til

fyrirgefningar syndanna, og þar med ad minnast hans heilaga dauda og pinu. Þar fyrir, þegar þér svo trúid þessum Krists ordum, og breytid eptir hans skipun, þá erud þér réttprófadir og reyndir, sem postulinn Páll segir, og megid svo maklega eta Krists líkama og drekka hans blód til fyrirgefningar syndanna. Þar til gefi ydur gud himneskur fadir sins heilaga anda nád, fyrir þann sama Jesúm Krist vorn herra; og þar um viljum vér allir gud bidja af hjarta og segja:

Þegar sú áminning er útlesin, snýr presturinn sér ad altarinu og tónar skýrt og seint eptirfylgjandi bæn:

**Látum oss bidja.**

**Fadir vor, þú, sem ert á himnum. Helgist þitt nafn. Tilkomi þitt ríki. Verdi þinn vilji, svo á jørdu sem**

á himni. Gef oss í dag vort daglegt brauð. Og fyrirgef oss vorar skuldir, svo sem vér og fyrirgefum vorum skuldunautum. Og eigi leið þú oss í freistni. Heldur frelsa oss frá illu.

Forsaungvarinn og fólkið annsar: amen.

Svo tekur presturinn patinuna með brauðinu sér í hønd, á meðan hann tónar eptirfylgjandi innsetningar-orð:

Vor herra Jesús Kristur, á þeirri nátt, sem hann svikinn var, tók hann brauðið, gjørði þakkir og braut það, og gaf sínum lærisveinum og sagði: takið og etið; það er minn líkami, sem fyrir yður verður gefinn. Gjørið það í mína minningu.

Því næst tekur presturinn kaleikinn sér í hönd, og tónar hin testamentis-orðin, segjandi:

**Sömuleiðis eptir kvöldmáltíðina, tók hann kaleikinn, gjörði þakkir, gaf þeim hann og sagði: drekkið allir hér af; það er kaleikur hins nýja testamentis í mínu blóði, sem fyrir yður úthellist til fyrirgefningar syndanna. Gjörið þetta, svo opt sem þér það drekkið, í mína minningu.**

Séu fleiri til altaris í einu, en að kaleikurinn ásteinktur endist þeim, leggur hann höndina, á meðan hann þetta tónar, til stiptis á kaleikinn og á þær vínflöskur, sem á altarinu standa, ellegar les sömu orð lágt upp aptur, í hvert sinn brauð eða vín þrýtur á patínu eða kaleik, meðsömu aðferð.

Á medan presturinn þar eptir útdeilir, segir hann vid sérhvern, sem sakramentid medtekur: **Þetta er Jesú sannur líkami; þetta er Jesú sannarlegt blód.** Um útdeilinguna syngur søfnudurinn þá altarisgaungusálma, sem presturinn hefur fyrirlagt, þó ekki leingra af þeim, en versid, sem á stendur, þegar útdeilingin er búin. Þar eptir skal syngja versid No. 218; ad því endudu snýr presturinn sér fram og tónar:

**Drottinn sé med ydur.**

Forsaungvarinn og fólkid annsar:

**Og med þínum anda.**

Því næst snýr hann sér ad altarinu og tónar eptirfylgjandi bæn:

**Látum oss bidja.**

Vér þøkkum þér, drottinn, almáttugi og eilífi gud, ad þú med þessari heilsusamlegri gjøf hefur oss alla nært; vér bidjum þína miskunsemi, ad þú látir nú þessa þína gáfu koma oss til alls gagns og góda, og til vorr-

ar sannrar trúarstyrkingar á þér, og til brennandi kærleika og elsku á medal vor innbyrdis, fyrir sakir nafns þíns elskulegasta sonar, Jesú Krists, vors drottins og herra.

Forsaungvarinn og fólkid annsar: amen.

Þegar einginn er til altaris, tónar prest-urinn í stad þeirrar bænar eptirfylgjandi bæn:

**Látum oss bidja.**

O herra gud, himneski fadir, vér þökkum þér fyrir þenna þinn födurlegan velgjörning, ad þú af þinni miklu nád og miskunsemi hefur gefid oss þitt heilaga og sáluhjálplega ord, med hverju þú einnig hér hjá oss safnar þinni kristilegri kirkju. Vér bidjum þig audmjúklega: gef oss þinn heilaga anda, ad vér med þakklátu hjarta mættum taka vid því, og hegda oss þar eptir, og ætíd og iduglega

fara varandi í kristilegri trú og kærleikanum, og svo loksins sáluhólpnir verða, fyrir þinn elskulegan son, Jesúm Krist, vorn drottinn, sem með þér lifir og ríkir í einingu heilags anda, sannur guð, frá eilífð til eilífðar.

Forsaungvarinn og fólkið annsar: amen.

En um alla lángaföstu skal í þessarar bænar stað, á sunnu- og bæna-dögum, tóna þessa bæn:

**Látum oss biðja.**

Vér þökkum þér, guð faðir, að þú hefur gefið oss þinn 'eingetinn son, Jesúm Krist, upp á það að allir þeir, sem á hann trúa, ekki fyrirfarist, heldur hafi eilíft líf. Vér þökkum þér, Jesú Kristi, að þú hefur borið vorar syndir á þínum líkama, og með þinni pínu afmáð vorar yfirtroðslur. Vér

þøkkum þér, þú verdugi heilagi andi, ad þú hefur gefid oss þá trú í vor hjørtu, ad vér ekkert vitum annad til sáluhjálpar, en þann krossfesta Jesúm Krist. Gef oss, ó gud, þína nád, ad vér fullkomlega trúum, ad allar vorar syndir séu, fyrir Jesú pínu og dauda krapt, oss fyrirgefnar. Upplýs oss med þínum heilaga anda, ad vér, fyrir Jesú dauda daglega afleggjum syndina, og aldrei sleppum Jesú úr vorum hjørtum, þángad til vér sjáum hann berlega í eilífu lífi. Þessa bidjum vér þig allir í nafni Jesú Krists, vors herra.

Forsaungvarinn og fólkid annsar: amen.

Þá snýr presturinn sér fram og tónar:

**Drottinn sé med ydur.**

Forsaungvarinn og fólkid annsar:

**Og med þínum anda.**

Síðan blessar hann yfir fólkið og tónar:

**Drottinn blessi þig, og varðveiti þig, Drottinn láti sína ásjónu lýsa yfir þig og sé þér náðugur, Drottinn upplypti sínu augliti yfir þig, og gefi þér frið.**

Forsaungvarinn og fólkið annsar: amen.

Þegar konfirmerað er, tónar presturinn ekki þessi blessunarorð, fyr en konfirmatiónin er búin.

Síðan er sá útgaungusálmur súnginn, sem presturinn hefur valið, hlýðandi upp á ræðuefni hans. Á undan katekisatión er súngið No. 312, eða 313, og eptir katekisatión No. 130, eða 314. Endast svo embættisgjörðin með eptirfylgjandi bæn, sem lesin er í kórdyrum, og Faðir vor:

Drottinn, eg þakka þér af øllu minu hjarta, ad þú hefur nú kennt mér, hvad þú vilt ad eg skuli gjøra. Hjálpa mér nú, minn gud, med þinum heilaga anda, fyrir sakir Jesú Krists, ad eg megi vardveita þitt ord í hreinu hjarta, þar af styrkjast í trúnni, í gudrækilegu framferdi betrast, og mig þar vid í lifi og dauda hugga, amen.

**Fadir vor,** o. s. frv.

---

# Efni sálmanna.

## I. Lofgjørdar og þakklætis sálmar.

## II. Bænarsálmar.

## III. Sálmar til vissra tíma.



# I. Lofgjørdar og þakklætis sálmar.

## 1. Guds vera og eiginlegleikar.

Lagid: Vér trúum allir á einn gud, skapara.

Vér trúum allir á einn gud; Er hans verk himinn og jørdin; Astrikur fadir er vor gud; Ætt hans mannesskjan er ordin. Hann vill oss vort uppheldi veita, Vel ad sál' og lifi gæta; Ei lætur ólukku rata, Eingum voda megum því mæta. A hann vér setjum von og traust, Því vís hann er, máttugur, gódur endalaust.

2. Vér trúum og á Jesúm Krist, Eingetinn guds son, vorn herra; A heims-frelsarann herrann Krist, Hvers

dýrd aldrei kann ad þverra. Madur ordinn hann er, hafinn Hart á kross-tré, daudur grafinn. En hann ríkir æ lifandi Upp hjá drottins hægri hendi; Þadan med krapti kemur hann, Kemur ad dæma jardríkid og sérhvern mann.

3. Vér trúum á anda heilagan, Af födur og syni sendan. Oss frædir, styrkir, huggar hann, Helga bæn til guds fær kennda; Krists um heim-inn kenning' breidir, Kær til aptur-hvarfs menn leidir; Einnig trúna eflir rétta, Og von betra lífs en þetta, Hvar ödlast munum fögnud, frid Og fullsælu þá, er um eilífd varir vid.

## No. 2.

### Te Deum.

Lagid: Kom skapari heilagi andi.

Þér, mikli gud, sé mesti pris, Vor mildi gud! vér þökkum þér; Hver er

svo sem þú hár og vís? Hver svo sem þú frá eilífd er?

2. Kerúbim hátt þitt heidra nafn, Hátt þér Serafím róma dýrd; Utvaldra líka sálna safn, Samhljómar þinni eingla-hird.

3. Heilagur ertu, herra klár, Heiløgust vera sílofud, Heilagur gud um eilíf ár, Allsherjar drottinn og vor gud.

4. Lof þitt frá hæstum himna-kór Hljómar um alla vída jørd, Spámanna-hópur hefur stór Heidrad þitt nafn med þakkargjørd.

5. Postular hafa prísad þad, Og píslarvotta mergdin flest, A dauda-stundu dádust ad Dásemdarverkum þínum bezt.

6. Þig heiløg kristnin, herra gud, Heidra um tíd og eilífd má, Þig, fadir, sem ert sannur gud, Son, er í dýrd þér lifir hjá.

7. Og góđan, helgan anda þinn, Oss sem viđ rétta heldur trú, Heiđri þig jörđ og himininn, Hljómi lofgjörđ um eilífđ sú.

8. O Jesú, guđs son eingetinn! Er lærdóm sannan kenndir oss, Ljósiđ og friđinn leiddir inn, Og lífsins betra vonar-hnoss.

9. Frá dauđans leystur dróma nú, Viđ drottins hægri situr hönd, Aptur munt skođast af oss þú, Öll þegar dæmir jarđar lönd.

10. Hjálp oss, hjálp oss, vor huggun vert, Hefur þú sjálfur keypt oss dýrt; Međ orđi sannleiks æ þú sért Óbrigđult ljós, er fái' oss stýrt.

11. Blessa þú líf og sál í senn, Síđar arf himna lát oss fá, Krýn blessun alla kristna menn Og kyniđ sérhvert jörđu á.

12. Svo friđinn, réttinn, sannleik,

trú, Sérhver vel geymi heimsins þjóð, Allir þér þjóni æ og nú, Eindrægni haldi skynsemd góð.

13. O, mikli guð! vér þökkum þér, Þér, mildi guð, vér syngjum prís. Hver svo sem þú að hátign er? Hver er, sem þú, í öllu vís?

14. Til þín, til þín vort traust er allt, Um tíma' og eilífð svo sem nú, Heyr þú vorn saung, bænheyr á-vallt, Huga vorn styrk í von og trú.

No. 3.

Með sínu lagi.

Heiður sé guði himnum á, Og hæst lof fyrir náð sína, Allt vel tilbjó hans vizkan há, Verkin dásamleg skína; Syndugri jörð frið senda vann, Sitt hlýðið fólk æ lætur hann Sína miskun sjá og reyna.

2. Vér lofum, dýrkum og þökkum þér, Þig tilbiðjum alleina; Vald þitt,

guð faðir, eilíft er, Aldrei kann það að réna; Svo er þín makt ómælileg, Algjørt er allt, hvað þér er í hug; Vel er þeim í trú þér þéna.

3. O Jesú, guðs eingetinn son, Athvarf og líknin manna! Þú bættir allt vort andartjón, Eymd vora virtist kanna. Lausnari', er dauðann leiðst á kross, Líknsamur sért þú øllum oss, Leið oss veg til lífsins sanna.

4. Heilagi andi, hjálpin trú, Huggarinn allra bezti, Frá heimsins svikum forða þú Fólki, sem Jesús leysti Með sárum dauða' og dapri pín. Drottinn, varðveit þú kristni þín', Sem af hjarta á þig treystir.

## No. 4.

Lagið: Upp, upp statt í nafni Jesú.

Um guð eg sýng, því sýng eg frór, Sá er vor mikli guð og herra hár;

Hans heiti' er drottinn, hans verk stór, Himna gjørvallra' um vidd hans veldi går; Alvaldur vill, Verøld hver fær sinn stad, Til verdur full Med fjøri, sem hann kvad.

2. Hann býdur, aptur hverfa þá Himnar vid bending' hans sitt ekkert i; Ljós er hans skrúdi; skýrt kann sjá Skepnuna', hid bezta veit ad velja því; Gud stjórna réd, Stóls hans er hátign byggd, Rokfamri med Réttvisi' og sannleiks tryggd.

3. Fullríkur einn auds-gnóttum af Óþverranlegum, gud án upphafs einn; Gud um eilífdir, grunnlaust haf Gæda, farsældar, lifs, án enda, hreinn; Alvaldi gud Alheims, hver finnst þér jafn? Hver líkist vid Dýrd þína' og dásamt nafn?

4. Um himna, fold og haf hvad er Og hefur verid, allt, gud, þekkir

þú; Gud, þinna visdóms verka her Frá eilifd augljós var þér æ og nú; Mér ertu nær, Mig vefur umsjá þín, Þú verkad fær, Hvíld ad óhult sé mín.

5. Guds forsjá stýrir furdanlig Því, hvad fyr edur síd eg framkvæmt fæ; Hann reynir, þekkir þig og mig; Hvort situr eda gár, nær er hann æ; Hvort yzt hafs á Eda skaut himins flýr, Hans er þér hjá Hvervetna kraptur nýr.

6. Hann vóg allt út med vissum skamt', Er vildi' hann skipta mér, og skrádi þar A sína bók, hve feingi eg framt Fjørs notid, þá eg enn nú ekkert var; Ekkert er mitt, Alls ekkert, drottinn minn, Allt er þad þitt, I og hjá mér sem finn.

7. Jafnan skal nafns þíns, drottinn, dýrd, Dásemda þinna hrós, i munni mín. Hver má þín undur út

fá skýrd, Ordu og fegurd þá, þeim skært á skin? Í vidum geim Allt sem til verda lézt, Hrósar um heim Høfunds almætti mest.

8. Spegill er þinnar speki skær Hvert minnsta hálmstrá eitt; þú lopt og lá, Þér hædir, dalir, grund, sem grær, Guds hróss þér leikid ljód lifleg og há; Þin nádarlind Landid æ vøkvar ný, Fædir mannkind Fridsemd og heillum í.

9. Atvinnu nægtir nótt og dag, Nákvæmri þiggjum vér af þinni hønd; Skyldi ei sú hugsan hjartalag, Herra, fridstilla mitt vid efnin vønd; Þin hønd ad míns Heill, gud, er lifs og hlif, Fyrst vilja' án þins Ferst einkis titlings lif.

10. Ef gud mitt athvarf er og skjól, Ef gud frelsari' og hlif vill vera minn, Lifs þó umbiltist hrad-

fært hjól, Hvorki' um jord hird' eg þar, né himininn; Umhælist þá I trausti hans vid hel; Ein hans forsjá Allt gjørir til min vel.

## No. 5.

Lagid: A þig alleina, Jesú Krist!

Eg þá stjarna útbreiddan her, Augum sé fyrir minum, Upplyptir þánkinn allur sér, O gud! ad hástól þinum; Þin eilif maktin aldrei þreytt Allt þetta stóra gat tilreitt, Og nær þér þóknast einnig greitt Þitt ordid eitt Getur af eingu lif framleitt.

2. Mikli, dýrdlegi drottinn minn, Drottinn lifinu yfir, A þig treysti eg æ hvert sinn, Allt blessar þú, sem lifir. Frá augnabliki fyrsta hér, Ad fékk eg lif til gæfu mér, Hver stundin min þess minning ber, Ad merkt hún er Nýjum velgjørdum, gud, af þér.

3. Lika sýna mér löndin, sjór Og loptsins hvelfing vída, Ad þinn máttur er yfrid stór, Eingu þarf eg ad kvída; Þvi aldrei mér sú þraut fær bægt, Þín bending sem ei geti lægt, Og ef vild þinni þad er þægt, Þér veitir hægt, Sumar skapa úr vetri vægt.

4. Hver þjáning sem mig hittir þá, Herra, eg til þín leita; Þvi vill og megnar hönd þin há, Hjálp og frelsi mér veita. Hvad þú ei byggir, hrapa fer, Hvad þú blessar, er stödugt hér; Æ, gef þvi blessun mildur mér, Þín makt ei þver, Þitt vald á himnum háleitt er.

## No. 6.

Lagid: Ovinnanleg borg er vor gud.

Allt skedur, gud, sem einn þú vilt, Allt verdur þér ad hlýda; Veru eingr-

ar svo vald er gilt, Ad vinnist gegn þér strída; Sem fisi feykir burt, Fellir, sem laufblad þurt, Dára fífl-djarfa, er Dirfast mótrísa þér, Stjórn þína' ei þekkjast blída.

2. Voldugir, gefid gudi dýrd, Gætid þess hann er nærri; Vitnid þér, menn, guds makt á jørd Mannlegri tign er hærri; Hann dapurt hressir þel, Heyrir kvein allra vel. Eg reidi' í øllu mig, O drottinn gud! á þig, Aldrei þú ert mér fjærri.

3. Allt, hvad mér gagnar, gløggt þú sér, Gefur nægt þeim er snaudur; Svik né ofbeldi' ei bløskra mér, Bid eg í von ótraudur; Mikli, máttugi gud, Mig þú frelsar úr naud; Eg þínu skauti í, Ohultur jafnan bý; Þér sé lof, þøkk og heidur.

## No. 7.

Lagid: Sólin upprunnin er.

Fylgsn' eingin fyrir þér Mig fela mega, O gud, sem allar sér, Upp fyr en stiga, Hugsanir hér Hjartans illar og gódar; Eymdirnar ásamt sér, Opt sem þúngbærar mér Aumum ofbjóda.

2. Öll veit alvizka þín, Ormæddra vinur, Andvørp, þeim øndin mín Upp til þín stynur; Sannfær mig, gud, Synd mig svo aldrei blekki, Ad hugsun, ordid hvert, Athøfn og girndir bert, Þú allar þekkir.

3. Fyrst girndir, gjørdir, mál, Og gjørvallt þekkir, Skal mína syndin sál' Svívirda ekki; En med varúd, Æ betri' og lastvarari, Framgeing eg fyrir þér, Fadir, sem til mín sér, Í fridi' ad fari.

4. Ef bregdast allir mér, Og vid mér stugga, Ad þú mig sjálfur sér

Samt skal vel hugga, Og nær mann-legt Mig heyrir ekkert eyra, Þú kannt, víst veit eg það, Og vilt mér gæta að, Raust hjartans heyra.

## No. 8.

Lagið: Náttúran øll og edli manns.

Sál, dupti klædd, ei sómir þér Sveyma um straum lastanna; Dóm-arinn, sem í upphæd er, Allar sér gjørdir manna; Øll augum hans Eru hjartans Opin fylgsni hvert sinni; Ønd saurug má Ei búa hjá Alskæru hátigninni.

2. Drottins alskygnu augum frá Einginn kann fylgsnis leita, Vinds og eldinga vængjum á Þó vildi flótta þreyta; Ekki neinn þann Umflýa kann Eingill skaparann mæta, Sem tilbjó heim, Og í þeim geim Að øllu vel nam gæta.

3. Farir þú leingst, sem felur sýn, Fjær en himinljós skarta, Og þó bólfesta yrdi þín Undirdjúps myrkrid svarta, Ei stadur sá, Þú flúdir frá, Fjær en hinn, sem þú nádir, Guds hátign er, Sem gætin sér, Gjørla hvar finnast bádir.

4. Eilifi gud, þig einginn hér Umflýr glæpugur madur; Mun þad ørvænting auka mér, Eg svo deyi glatadur? O nei, þín nád Ædra gaf rád, Drugg svo trúin standi; Fyrir þinn son, J fullri von, Fæ eg miskun bidjandi.

5. Nú flý eg því á nádir þín, Naudstaddur, vesall madur; Eg finn og játa afbrot mín, Er fyrir þér skelkadur; Heims biltingar Mig hræda' ei par, Hjá þér ef blídu mæti; En hirtir hú, Allt fellur nú J grunn mannsins dramblæti.

6. Fyr en upp komu fjøll á jørd, Og flódu lækir dala, Adur en ljósin urdu gjørd, Og mønnum gafst ad tala, Fyr en andar Sætt súngu þar, Sem þeim var feinginn stadur, Gud sá þad þú, Þar sem ert nú, Þeinkir og talar, madur.

7. Uppi býr gud med eingla her, Er þó hjá þrælum synda, Dýrd heima undir eins hann sér Og skuggann smákvikinda; Sem sólu hann Sjá stærstu kann, Svo litur duptid valla; Minnst eins hvad er, Þess afdrif sér, Eins og heimsins gjørvalla.

8. Blygdast því, glæpa vesall vin, Vef þig ei bøndum syndar; Aflegg hræsninnar yfirskyn, Augu mannleg sem blindar; Meina ei, ad Þann megir stad, Hvar mátt einn heita, finna; Eilíft i þér Ætíd þú ber Athafna vitni þinna.

9. Ending timanna er oss nær, Adstedjar daudans nóttin, Ekkert hæli lifs frekjan fær, Flóttann þó reki ótt-inn; Aumur er sá, Ei fyr en þá Audmjúkur vildi sanna: Guds augad er, Sem gjørla sér Gáng og athafnir manna.

## No. 9.

Lagid: Ovinnanleg borg er vor gud.

Alstadar vidverandi gud, Vér þig i øllu sjáum; A hátign þina' i hverj-um stad Horfum i stóru' og smáu; Eins lifi' og ønd' i hag, Ollu stjórn-ar hvern dag; Gud, þinn i gledi' og neyd, Gud, þinn i lifi' og deyd Krapt med oss fundid fáum.

2. O dásøm heill! ad ert oss hjá, Ædri en hugsast kynni; Ad blitt og stritt ástgjafir frá Allt eru speki þinni; Þú vora velferd vilt, Vegsama þig er skylt; Gløggt munum sidar sjá,

Sonn nád og speki há Var stjórn þín sérhvert sinni.

3. Gef, ad eg lastvar vandi vel Verk min og hegdun ætíd; Því hjartans líka hulid þel, Herra, þú vel adgætir, Sú hugsan hjálpi mér, Ad hlýda þér, sem ber; Hér svo mér hegda þá, Hugrór ad birtast má, Fyrir þér þá eg mæti.

## No. 10.

Lagid: Heidrum vér gud af hug' og sál.

Gud, í ollu, sem eg lít ske, Med undrun þína speki' eg sé; Hond þín ádur en heim tilbjó, Hann sástu víst frá eilífd þó; Þín vizka gloggt hvern þánka sá, Þann feril allt skal gánga á, Afdrifin líka', er allt skal fá.

2. Allt, vottar þad, ad þér ber prís, Þú sem ert furdanlega vís; Alheimur fagur, undra-stór, Allt hrópar:

vitur guð er vor; Hvert strá og höf-
uð-hár, ögn hver, Ef hugleidd er,
af öllu ber, Veraldar- meunt sem
vinna fer.

3. Allt, allt til samans hrópar
hátt, Um herrans speki, gæzku, mátt;
Eg skal því, faðir, upp á þig Ör-
uggur jafnan reiða mig; Einn þú
hið bezta ávallt sér, Afskamtar, bezt
sem líkar þér, Hverjum það veiztu
hentast er.

4. Drottinn, lát speki þína þá Prótt
og huggun mér ætíð ljá; Hérvistar þá
um hættan veg Hvorki upp gefst né
mögla eg; Hvað ætti ske eður ekki
um sinn, Ei megnar skynja hugur minn;
Verði því, faðir, vilji þinn.

## No. 11.

Með sínu lagi.

Lofið guð, Lofið hann hver, sem

kann; Gjørvøll þjóð, Já, gjarnan heidrid hann; Allir menn um allan heim Ætíd hann prísi, Dýrd allsherjar drottni þeim Dag hvern auglýsi; Af því hans Ædst miskunsemi Kyni manns Kunn er í heimi, Ei vors lands Innbúum gleymir, Føst og traust í ást á oss. Allt, hvad hræra anda kann, Æ hann vegsami! Allt, hvad bærist, heidri hann Og hátt lofi. Amen!

## No. 12.

Lagid: Jesús Kristur ad Jórdan kom.

Gud, mikill ert, þig eingla her, Otølulegur prísar, Vegsemd og dýrd æ votta þér, Veldinu guddóms lýsa. Þú, sem býr ofar hæstu hæd Himna, sjá, þess ber vottinn Vorsins inndæli' og skruggan skæd, Skært sólskin, dimma nóttin, Ad mikill ertu drottinn.

2. Eins gódur ert, gafst einglum lif, Og oss, sem dupti klæddir Þinn berum svip og þina hlif Þøkkum; allt hagsæld gæddir. Vor, sumar, haustid sýna lýd Sanna nád, þeim og medur Veturinn, frostin furdu strid, Felli-bylja-stormvedur, Allt lof guds kær-leik kvedur.

3. Fyrir dómstólinn þegar þinn Þjódirnar náir kalla, Og hristist jardarhnøtturinn, Háreistar borgir falla, Þitt veldi eg sé, skelf, þegi þá; Þú lýsir fridnum blida, Og skepn-an gledst, þvi elsku sá, Sem allt má skapad hlýda, Dupti lér drottinn lýda.

4. Hjartanu øgra ógn hver þá Istødulitla skyldi, Obrigdula fyrst er ad sjá Umhverfis þina mildi? Ef jardarhnøtt umspenna fer Eldur med vatna-flódi, Min von, mitt traust

skal þó á þér, Svo þrautin sízt ofbjódi, Gud miskunsami' og gódi.

5. Daudinn ei bløskrar dapur mér, Né dimmir grafar-skuggar; Þín gæzka, sem mitt athvarf er, Í allri neyd mig huggar; Öruggan mig ad eilífd ber, Þá ad vill daudinn fara, Öruggur sé hann, øruggt fer Á fundinn míns dómara, Míns guds og míns elskara.

## No. 13.

Lagid: Heidur sé gudi himnum á.

Gódur er gud, í allri átt Af gæzku verk hans ljóma; Allt gledst, sem hefur andardrátt, Ást hans og vernd samrómar, Af ást því skapa allt hann réd, Ást gledur hann og blessar med; Prís guds ástar æ skal hljóma.

2. Gud, þú baudst, jørdin gróa réd, Grænt í skrúd eingid klædir; Jørd

vora fylltir frjóvgun med, Fékkst oss vit, hennar gædi Oss ad hagnýta, heilsu, frid Og hagsæld gafst oss; þína vid Ást og nád vort kannast kvædi.

3. Fødurlega lífs fram á skeid Frá æsku þú oss leidir, Heyrir vort kvein í hvers kyns neyd, Henni med nád úr greidir; Ad gud vor einskær ástin er, Eins í mótgángi fundum vér; Reynsla sú bezt raunum eydir.

4. Þú gafst oss krapt', ad gætum hér Geingid fram lífs á vegi; Opt þó røsudum veikir vér, Vor gud burt hratt oss eigi; Af vegi skeikud vor samt spor Vel áfram greiddi fadir vor; Med ást fær oss ad sér dregid.

5. Unn oss svo leidast, fadir, sá Fødurhønd vidur þína, Þínum ei víkja fótstig frá, fúsa þér hlýdni sýna; Því þess fagnandi fáum gád, Fødur

vors bod eru' einskær náð; Oss lát þessu aldrei týna.

6. Í ró vor skundar æfistund, Oss, drottinn, vegferð greiðir; Ur grøfum væran eptir blund Alla til þín heimleiðir; Þá í føgnuði' og friði vér, Faðir, um eilifð syngjum þér Lof, ástkæri, æru og heiður.

## No. 14.

Lagið: Gleð þig guðs-sonar brúð.

Þér himnar, hefjið dýrð, Að hún sé drottni skýrð, Lofið hann í upphæðum, Hrósið hans makt og gæðum. Her hans og einglar allir Æ lofi hann gjørvallir.

2. Seg þú lof, sólin kær, Og sérhver stjarnan skær; Loptið skal lof guðs frama, Líka túnglið hið sama; Hvað, sem er yfir og undir, Allar lofi hann stundir.

3. Veglegast vatna safn Víðfrægi drottins nafn, Forkunnar fagursmíð-ur, Fullgjört er hvað hann býður; Hans niðurskipun halda Heimar um aldir alda.

4. Hann lofi hauðrið fritt, Og hafsins djúpið vítt; Eldur, hagl, úði, skrugga, Ofviðri, regn, snjór, mugga, Hvað eitt guð heiðri, prísi, Hátign vors drottins lýsi.

5. Hálsar og háu fjöll Heiðri þig, drottinn, öll; Dalir, grasbúnar grund-ir, Gjaldið prís allar stundir, Fuglar, dýr, kvikfénaður, Fjöldinn, sem skríður glaður.

6. Allt fólk um allan heim Æ syngi guði þeim Lofgjörð, sem líf, heill greiðir, Líkn veitir, meinum eyðir, Fögnuð, ljós, farsæld gefur, Við föð-urhönd leitt oss hefur.

7. Allt, hvað er skapað, skal Með

skýrt lofgjørdar-tal Hans nafni heidur greida, Herrans lof vitt útbreida, Allt yfir himna alla Og jørdina gjørvalla.

8. Lofi gud allt, hvad er, Og hvad sem var og sker; Hann allar heidri þjódir; Hans fyrir son, vorn bródur, Jesúm, dýrd sé honum samin; Sýng lof, guds kristni! Amen.

## No. 15.

Lagid: Guds son kallar: komid til mín.

Vor gud er einskær ást og nád, Æ hverrar skepnu bezt sær gád, Og eflir heill í heimi, Hann blessar hvern dag allt, hvad er, Oss sínum børnum nád hann tér, Og skepnu eingri gleymir.

2. Fadir, oss skópst til farsældar; Flýtur af þinnar miskunar Lind allt gott, allt bjargrædi; Sadning' hverri og svaladrykk, Er sjór og jørd oss

borid fékk, Orlát þín gæzka oss gædir.

3. Í náð þú minnist ætíð vor, Af þér stjórnast vor lukkukjør, Hvort sæld eda sorg oss greidir; Þú ert hjá oss í allri neyd, Oss, gódi gud, í vorum deyd Føðurhønd þín framleidir.

4. Eins og fadir áminnir þú, Odyggd ad hata', en geyma trú, Er dyggd laun eilíf geldur; En þó vér brjótum bodord þín, Borgunarmanns-ins vitum pín, O gud, ad vægd oss veldur.

5. Já, þú ert einskær ást og náð, Eftir vort sanna hjálpar-ráð, Øll skal því eilífd lýsa; Hér byrjum vér med barnaróm, Í borg þinni med eingla hljóm Ást þína æ skal prísa.

## No. 16.

Med sínu lagi.

Gudi lof skal ønd mín inna, Upp-

lypti raust og hugur sér; Sizt ber ad láti' eg linna, Líku hans, makt, speki ad prísa hér; Sekt gaf upp glæpa minna, Gudhræddra styrkur er; Hans nád ef hirdi' eg finna, Hún krapt sinn á mér tér; Í neyd lét fögnud finna, Frid mæddu hjarta lér; Í víst himins heimkynna Hann sælu geymir mér.

2. Alvaldur ást lét róma, Og endurlausn oss frambaud hann; Sem fadir alla fróma Í fridar-sáttmál taka vann; Hann firrist hefndar dóma, Hirta sem fadir kann; Sér lætur miskun sóma, Sekum vidreisnar ann; Himneskri nád baud hljóma, Hvar sem sinn ótta fann; Hans ást umhverfis ljómar Hvern einn rádvandan mann.

3. Blídur fadir án brædi Bresti med vorkun litur á; Eins vægja guds

huggædi Grandvørum, sem hans ótti' er hjá; Veikt erum, veit hann, sædi Vorri módur, jørd, frá, Mót daudans megna ædi, minna en visid strá; Sem fisi sveifli um svædi, Svo lifi fyrirbrá; Menn hverfa i moldar=nædi, Margir seint ad því gá.

4. Drottins óumbreytt eina Um eilifd standa mun þó náð; Þad fá hans þjónar reyna, Þeir sem vel hafa hans boda gád, Ástunda ætid hreina Eflingu' i vizku' og dád. Komid, lof gudi' ad greina, Gladir hans prisid rád. Hann børnum likn vill beina, Þó búi' i dupti smád; Bót fær þeim mildur meina Medur sæld himna tjád.

5. Pris skal fagnandi færa Fødur, syni og anda nú; Heidrist þín hátign skæra Á himni' og jørdu, gud, i trú; Þeim var og er sé æra, Æ

hljómi lofgjørd sú; Af þeim, er anda hræra, Um eilífd gøfgist þú. Einglanna lofsaung læra Í lífi' oss undirbú, Þig sjá, þér sýngja kæra Þøkk, heillum til vor snú.

No. 17.

Lagid: Svo elskadi gud auman heim.

O gud, þér hrós og heidur ber, Mitt hjarta lofgjørd færir þér; Þú stjórnar, herra, høgum min, Hønd var yfir mér jafnan þín.

2. Neyd þá mitt hreysi nálgadist, Vid neydar-kvein' ei daufheyrdist, Guds mér aflétti gæzkan þín, Glatast lét ekki' í eymdum min.

3. Í sótt og verkjum lágt eg lá, „líkna mér, gud", kallad' eg þá; Alvaldur fadir áleit mig, Aptur minn styrkur græddi sig.

4. Ovina heipt þá hug minn skar,

Harm þann ángurvær guði' eg bar;
Mín svo ei hefndi, hjálpaði' hann,
Hug minn þolgæði styrkja vann.

5. Villtur þá réttum vegi frá Vafinn mig syndaneti sá, Um fødurnáð eg hrópaði' hans, Hans náð varð styrkur aumingjans.

6. Huggun sárþreyði hjartað mitt, Því huldi drottinn andlit sitt; Hvað leingi, guð, eg hrópa' á þig? Hann yfirgaf ei veikan mig.

7. Hans miskun enn mun hjálpa mér, Herrann trúr og líknsamur er; Frá illu hann mig frelsar vel, Fúst mitt til dyggðar gjørir þel.

8. Raunir og neyð eg þakka þér, Þá, sem ástríkur sendir mér; Gøfga fyrir þá gleði þig, Er gæzkan þín virtist sæma mig.

9. Heims fyrir lán eg þakka þér,
Þinnar tryggðar sem ástgjøf er;

Þér þakka', ad skópst oss allt i hag;
Er þin gæzka ný sérhvern dag.

10. Fyrir þá gæzku' eg gøfga þig,
Ad gafst þinn son út fyrir mig; Af
øllum mætti, øllum hug', Og allri
sál' eg prisa þig.

11. Guds verk um eilifd gøfgi'
hann øll, Guds er af miskun jørdin
full; Þér sé vegsemdin, heidur, hrós,
Hjálpar þú fús og liknar oss.

12. Þó sé hjá oss ad kvøldi kvein,
Kæti' er ad morgni og unun hrein;
Þá reynslutiminn úti er, Oss leidir
hann i dýrd hjá sér.

13. Aldrei, min sála, gudi gleym,
Gjald lof mildasta fødur þeim, Med
ást, trú, hlýdni, heidra hann, Herra
nádugan tilbid þann.

## No. 18.

Lagid: Nú bid eg, gud, þú nádir mig.

O hvad stór gudleg gæzka er! Góda

manns=art sá ekki ber, Hvers svo er forhert hjarta' og geð, Hana ei fann né þakka réð. Guds elsku prófa' og una við, Ætíð veri mitt skyldu-mið; Ei gleyma vann hans miskun mér, Minnast hennar því skyldugt er.

2. Meistara-hønd hver mig til bjó? Mins guds, sem min ei þurfti þó; Hver með lánggæðri hlífði náð? Hann, þess eg opt forsmáði ráð. Hver gaf mér sinnis hvíld og frið? Hver andans krapta rétti við? Hver gaf mér þúsund gæði' ávallt? Guds nema hønd, sem skapti allt.

3. Lít upp, mín sál, og sjáðu hert, Það sæla líf, til hvers skøpuð ert, Hvar þú í dýrð um eilífð sér Einn guð í veru, sem hann er; Til æru' og gleði áttu rétt, Af mildi guds er það til sett; Inngángur lífs svo opnist þér, I dauðann geinginn Jesús er.

4. Skyldi' eg þann gud ei heidra hér? Hans gæzku' ei láta skiljast mér? Skal hann hrópa, eg heyra ei? Hann leidrétta, eg segja nei? Hans vilji' og ord uppskrifad er I mitt hjarta, sem styrk því lér. Allramest gudi unna ber, En náúnga likt sjálfum mér.

5. Þakklæti kýs hann þetta' af mér, Þad í góðgirni' eg líkist sér; Fús ef eg skyldu fylli þá, Føgur séſt mér hans líking á. Hans elska' ef lifir í mér góð, Ørfar hún mig á skyldu-slód; Sizt get eg fundizt sak-laus hér, Synd þó ei drottni yfir mér.

6. O gud, sé føst fyrir augum mín Ætíd kærleiksfull gæzka þín, Alúd dyggdanna' hún ørfi mér, Ad mitt lif-erni helgist þér; I hørmúng sé hún huggun mín, Hún leidi mig í sæld til þín, Og endur-hressi' á efstu stund, Andláts gefi mér væran blund.

## No. 19.

Lagid: Jesú Kristi, þig kalla' eg á.

Þú ert réttvís, alvaldi gud, Öllum sín laun á kvedur; Vesall er hver þín heiløg bod Hirdulaus yfirtredur; Æ, þess i tíma gef mér gá, Guds ad réttlætis-dómar, Kvidvænir koma, Og hardir dára hitta þá, Hans bidlund er forsóma.

2. En hinn, sem lastvar hlýddi þér, Á himnum gledi mætir; Þó dyggd af eingum þekkist hér, Þrjózkur syndarinn kætist; Samt mun þín gæzkan gløggvast þar Guddómlegt ljós i leidast, Allt myrkur eydast, Og kjør réttvísrar umbunar, Eins dyggd sem løstum greidast.

3. Kenn þig ad elska, minn gud, mér, Og mitt líf dyggdum prýda, Þín skipan speki øll því er, Og gledi þér ad hlýda. Hjartad þá mun ei

hræðast mitt Pitt helgasta réttlæti. Pað kveikir kæti, Að mér þú geymir hnossið hitt Hjá þér í dýrðar-sæti.

## 2. Skopunar-verkið.

---

### No. 20.

Lagið: I dag eitt blessað barnið er.

Hef þig, minn andi, hauðrið mér Hljóm byrji með lofkvæða; Vor drottinn stór frá eilífð er, Øll jørð og himnar ræða; Já, yfir allt er herrann hár; Hann bauð, og guðdóms skipan klár Ein til bjó allt veranda: Sól, stjørnur, himinhnatta-hjørð Hann gaf, útdreift sem fis á jørð Og sandkorn sjávarstranda.

2. Gakk hátt, min saunglist, gløð í fylgð Guðs eingla raddar-hljóma: Guð skaparinn er gæzka mild, Gelli við þúsund róma; Guð skaparinn er

eilíf ást, Við orð hans lífið streyma fást Í lík öll, sem lífa kunna. Guð er sjálf elskan, guð vor, já, Geingur öflugur hróður sá Af mergð ótaldra munna.

3. Mín lofgjörð hærra lypti sér, Lýsi dýrð verka þinna; Guð yfir allt æ göfgum vér, Guðs krapt má hver einn finna. Góður, vís er vor guð og stór, Greinir himins og jarðar kór, Hvað skapt er hann bauð væri; Allt stóð þá prýði' og orðu í; Óendanlegum guði því Hans öll verk heiður færi.

## No. 21.

Lagið: Gæzkuríkasti græðari minn.

Hver má, guð, skynja hugur þig? Hver æðstum guði líkja sig, Í andaveldi viðu? Þig, drottinn yfir öllu einn, Sem ert fullkominn, helgur, hreinn, Hátt lofar heimsins smiði.

Tign ædst, Ást stærst, Eilíf, vísust, Verd ad prísast, Vér því greidum Lofgjørd, þakklæti þér og heidur.

2. Þú ert og varst eilífu frá, Um aldir vera munt, og sjá Ei þitt alveldi þrotna. Þú skipar, heimar skaptir stá; Þú skipar, heimar undir gá, Því þú einnsaman drottnar; Lopt há, Láð, lá, Gjørir prísa', Og gjørvallt lýsa Guddóms megni; Drottinn vor ønd því í dupti tigni.

3. Gud, þín stærd er ómælanleg, Umkringir guddóms ljósid þig, Daudlegum of skært øllum; Þó er þinn kraptur øllu nær, Alheima' — er skynsemd mælt ei fær — Geim rædur þú gjørvøllum; Eins smæst Og stærst, Allt ber vottinn Um þig, drottinn, Er vér sjáum Í þínum verkum og fundid fáum.

4. Ó gud! hvad værum vér án

þin? Vizka þin birtir undur sin J hædum og á jørdu, Til heilla oss, en heidurs þér, Hønd þin stjórnar og máttug ber Skepnur i skaptri ordu; Eins blitt Og stritt, Þú á leggur, Þvi vorn gløggvast Þekkir haginn, Eins i svartnætti' og um hádaginn.

5. Vegsamid þá med helgum hljóm, Hátidasaung og glediróm, Hann, allra drottna drottinn; Blóm láds, skraut himins skodid þrátt, Skodid hans speki, gæzku, mátt, Hans guddómsveldis vottinn, Skodid, skynjid, Ydur gledjid Og tilbidjid Allra fødur, Gud, fyrir Krist vorn kærsta fødur.

## No. 22.

Lagid: J dag eitt blessad barnid er.

Hátt syngid drottni hæsta lof; Hann prisa, madur, áttu; Til einglatignar hátt þig hóf, Sá himna skóp vidáttu;

Allt hvad hans veldi líf nam ljá, Lofi' hann hvad sína vísu á Í fagnadar-flokki einum; Sýng, himin, dýrd, lof sýng, þú jørd, Sýng skaparanum þakk-argjørd, Hvers gæzku gjørla reynum.

2. Gud, hver má samjafn heita þér? Hver líkur nefnast skyldi? Allt skapad vottinn blídu ber, Allt blessar fødur-mildi. Orm og Serafím álítur, Og beggja kjør þinn vísdómur Med kærleik réd ákvarda; Eg, þín mann-kind, heill hvílík mér, Hátignar þinnar ímynd ber, Já, eilíf á ad verda.

3. O drottinn, hvílík unan gód! Í alheims hring margbrotna, Um lopt, jørd, sjó er líf og hljód, Guds lýsir stjórn hvervetna; Þrumu-gnýr, leiptur, elding er Allt þinnar nádar vottur mér; Eg skal med hrærdum anda, Eilífi gud upphædanna, Þér, allra lindin gædanna, Um aldir vegsemd vanda.

## No. 23.

Lagid: Hjartad, þánkar, hugur, sinni.

Gef mér skyn, ad skýrt eg prísi, Skapari minn, þitt vald og krapt, Hvar med gud, þú gódi' og vísi, Gjørvallan fékkst heim vorn skapt; Efl og styrk minn innra mann, Ad yndis heilags njóti hann; Verkin þín mig virztu' adstoda Vegleg medur lotning skoda.

2. Jørd og himin-hvolfid bláa Hæstur tilbjó kraptur þinn; Í því stóra' og í því smáa Alveldis-mátt sama' eg finn; Allt í fagra ordu sett, Allt fram geingur víst og rétt; Um allt eg má med undrun ljóda, Allt sé hér hid hardla góda.

3. Hvad þín fram á hverjum morgni Hátignarleg brunar sól, Ad ljómi, gledji, lífgi og orni Láds vors myrkva' og kalda ból. Hvers hønd

mældi hennar skeid Hringbogid um loptin breid? Ad hennar slokknar ekki eldur, Aldrei skerdist, hver þvi veldur?

4. Loptid oss med lifi gædir, Lifgar vort og styrkir fjør; I regnskúrum ofan flædir Af þess brunni frjóvsemd ør; Stormaher þar hertýgjast, Hér þitt dunar þrumukast, Fold sem gagnar, fold sem hrædir, Og furdu hátt, hver gud sé, rædir.

5. Hver mid setti sjávar-ædi? Sagdi: lindir frambrjótizt, Lét vøtu halla hafs ad flædi, Hvar upp spretta nádu fyrst? Jardar holu idrum i Elds hver megni stjórnar þvi? Hver i fylgsnum fjalla geymir Fagran málm til nota heimi?

6. Hver med laufi skóga skrýdir, Skreytir grænum blóma fold? Hver orma gledur, elur, prýdir? Upp hver

lífgar dauda mold? Hver gaf sál' og sansa mér, Sem skynbragd á margt nú ber, Og til þín má þánka snúa, Þú alvaldi', og á þig trúa?

7. Allt þad skópstu, allt ber vottinn Um almátt, speki' og gæzku þín; Lífsins födur dýrka' og drottinn, Med dyggd og trú skal öndin mín. Já, gud, vor gud víst er stór, Þad vottar himinn, jörd og sjór, Lopt, vötn, eldur, allt til samans, Öll veröldin segi amen.

## No. 24.

Lagid: Kom skapari heilagi andi.

Upp, upp allt, hvad gud hefur gjört, Höfund vegsamid, prísid þann; Þad minnsta', er skóp hann, mjög er stórt, Mátt hans og gæzku birta kann.

2. Þó kæmi saman kóngur hver, Klæddur í skrúd med völdin há, Eitt

grasstrá skapad gætu' ei hér, Guds bending ein kann fella þá.

3. Eingla herskarinn eins hér fann Of veikan þeirra himin-krapt, Af eingu því ad aldrei kann Eitt duptkorn minnsta' ad geta skapt.

4. Æ, øll vanmáttar augljós spor Hjá øllum skepnum birta sig; O hvar má finna ord, gud vor, Er verduglega prísi þig?

5. Hvad fæ eg sagt, nær fjølbreytt lit Fold ad umvefja blómstur-skart? Og allan gróda' um eingi, er nýt, Eins nær og fjærri þúsund margt?

6. Hvad fæ eg sagt, nær fugla-krans Fagran samstilla heyri róm? Otal hljódfæra um fram dans Ondin kætist þann vidur hljóm.

7. Hvad fæ eg sagt, umhverfis mig Nær her af kvikum skepnum sé?

Hvad, guds frá himni' er sýnir sig Sólin upprunnin geislandi?

8. Hvad fæ eg sagt? mér furdu fær Fagurt blikandi stjarna her; Blitt sé eg hver ein brosir skær, Sem bendi upp til himins mér?

9. Hvad, samsaung anda' ek heyrdi eg, Hátign mins guds sem vegsama? Gud er stór, tign hans guddómleg Gøfgist og nafn, hallelúja.

10. Undirtaki med anda kór Allar kynkvíslir veralda: Guds nafn vegsamist, gud er stór, Gudi sé dýrd, hallelúja.

## No. 25.

Lagid: Hjartad, þánkar, hugur, sinni.

Gladvær jafnan gøfgi, prísi, Gud minn, þig einn øndin min; Hver er sem þú, sá hinn vísi? Sannast rád og speki þín. O, ad mætti andi minn

Í øllum þínum verkum þinn Vísdóm þekkja, þekktum lýsa, Þekktan hver sem æ má prísa.

2. Í bjørtum fjarska hátt uppheingdi Høg þín speki sunnu-hvel, Með stjarnahnøttum haglega teingdi Hnøtt vorn, ljóss svo nýtum vel; Sól þar hángir eingu á, Einn þú stýður, falla' ei má, Vermir, ljómar, lífgar, hressir, Ljóss þíns døpur ímynd þessi.

3. Ærnum þúnga hver svo heldur Himin-kroppa jafnvigt í? Lopt þú skópst, hver veit hvað veldur, Verøld líður fram í því? Mið hver sólu setja réð Svo vísdómi' og dásemd með, Að yl og birtu senda sinni Sól verøldu' og frjóvgun kynni.

4. Hver fram loptið heimti', umvefur Hér sem oss, allt bera má? Allt af því líf, hræríng hefur, Hitt,

sem lífs er andi hjá; Dampa saman dregst þar megn, Døgg í snýst og frjóvsamt regn; Frjóvsemd, blessun flytur heppna Fram til mín og allra skepna.

5. Hver nam lopt svo laga', ad geti Leiptur sætt og þrumugný? Vinda-stryk ad fljótt umfeti, Fuglinn léttfær sveymi' í því? Ad þad beri' ad eyrum hljóm, Ad til dýrdar þér vorn róm Lífgi þad, og fleyti fimum Fiskum hægt í afgrunns kymum?

6. Hver vann svo, ad hátt upp gnæfi, Hefja jørd úr djúpum sjó? Vøtn skamtadi hver í hæfi Henni, svo ad yrdi frjó? Hver vøtn þekur? hver þau nam Hepta, kveykt þá velta fram? Hafs vid øldur hásar segir: Hingad æsizt, leingra eigi?

7. Grundir hver í grasi vefur, Græddi skóga' á eydi-lód? Korns og

vins hver gnóttir gefur, Græna' um dali fjøllum hlóð? Marmara hver og málma fjøld Mitt í jardar idur køld Lagdi? eldum gjár hver grefur? Gjørvallt skrauti hver umvefur?

8. Gud, þin vizka bjargar, blessar, Býtir nægtum, prýdi lér, Stydur, verndar, hýrgar, hressir, Heimi líf og farsæld tér. Guds hátign eg glad-ur sýng, Og guddómsvottinn allt um kríng; Guds minn andi laungum lýsi Og lofi speki, þakki, prísi.

## No. 26.

Lagid: Guds son kallar: komid til min.

Frá hreysi þvi, sem eg bý i, Aug-um eg til þins hástóls sný, O þú ósýnilegi! Hvad stór þú ert, þad mikl-ast mér, Margføld þvi alheims dá-semd er; Allt verdur, er þú segir.

2. Vid bod þitt heimur hver upp-

ris; Hvað ertu máttgur, góður, vis, Sönn orða sú því lýsir Röskuð, hverri áfram í Allt sveimar, sem fyrst gafstu því; Allt hátign helga prisi.

3. Guð, hver kann fjarska furðu-geim Fá mælt, og takmörk séð um heim, Hvar ótal hnettir sveima? Vanmegni hyggju manns að slær, Megin-dýptir að horfa' í þær, Og ómælandi geima.

4. O guð, hvar byrja, hvar þrot fá, Hvert þíns alveldis takmörk ná? Orð, mæling', þánka þrýtur; Þrot-lausan undra þann geim má, Þar sólir sólum hærra stá, Ei veit hvar enda hlýtur.

5. Oþekktir hnettir útleiðast, Otal þúsundum fjölbyggjast Otal alveldis sæti; Þau verða sérhver þá fyrir þig, Þér, mikli guð, öll hneigja sig, Þér auðmjúk þjóna ætíð.

6. Þér hneigir allt, hvad þeinkja kann, Vid þig øll fagnar náttúran, Þér afgrunns-hylur hlýdir; Þín bending lægir bylja-þrá, Bifast grundvøllur heimsins má Og bresta, nær þú býdur.

7. Sjá, guds tign játa gløggt eg finn Gjørvallan anda vanmátt minn; Alveldis hønd eg eygi, Ein sem verk hefur algjørt sitt, A ordu, tíma' og krapt fékk hitt, Hverju sem haga megi.

8. Hønd þín fullkomleik hagkvæman Hverri skepnu medskapa vann, Ætla fjør, edlis-krapta; Allt vard ad því, sem vera skal; Visdóms hér sést hid mikla val, Ædsta fékk ordu skapta.

9. O guddóms-verka undrin há! O túngur, sem ei telja má! Ein er ydvart lofkvædi Algæzkan; prís svo sýngur sinn Sérhver lífs-kraptur: skaparinn Er einskær elska' og gædi.

---

## 3. Guds forsjón.

### No. 27.

Lagið: O drottinn allsvaldandi!

Lofið drottinn lifanda, Ljúfur, sterkur og vís sem er; Kyn, honum keypt til handa, Komum, með saung hann prísum vér. Hver mun jafn Honum vera, Heilagt nafn Veldis bera? Allt lífs-safn Æ dýrki þann herra.

2. Lofið drottinn lifanda, Er lét oss skína dásemd á, Býr oss heilsu til handa, Og hvað sem farsæld efla má; Enn þótt neyð Á oss stríði, Old þó deyð Fyrir kvíði, Herrans greið Hjástoð verndar lýði.

3. Lofið drottinn lifanda, Ljúf drýpur blessun himnum af; Hjá oss við störf réð standa Og styrk í allri mæðu gaf. Augu manns Öll, sem kjósa, Æ sjá hans Forsjón ljósa,

Borg og lands Byggdum á sér hrósa.

4. Lofid drottinn lifanda, Sem leidir, stýrir, hagar til, Og lætur einnig standa Af illu gott oss þrátt i vil. Himnakór, Haudrin svara: Hátign stór Er skapara; Gjørvallt fór Guds lof ei ad spara.

5. Lofid drottinn lifanda, Láðbyggjendur med eitt samtak. Hans lofgjørd himnar vanda, Hann þiggur og vort auma kvak. Gud vor er Gud alvaldi; Gøfgum vér Hann um aldir; Hvad lifs fer, Honum vegsemd gjaldi.

## No. 28.

Lagid: Ris upp, min sál, og bregd nú blundi.

O, þó eg hefdi þúsund munna, Þig ad vegsama, drottinn minn, Min veika lofgjørd mundi' ei kunna Mikla nóg fódurkærleik þinn, Af þvi þin

medferd øll á mér Undrunarfull og dásøm er.

2. Þó feingi raust mín fagur-róm-ud Flogid svo vitt sem alheims-ból, Og lypt sér upp minn lofsaungs hljómur Léttfær ad drottins tignar-stól, Hvar eingla røddin of dauf er, Ollu midur þar farnast mér.

3. Sem barn þó fái' eg, fadir, kvak-ad, Furdu léttvæg er þökkin mín, Þú vilt mitt offur þó med taka, Þókn-un medur af gæzku þin; Þú veizt min orka' er veik og smá, Viljann þú einan litur á.

4. Um mig þú fødur-forsjón vefur, I fadmi þinum ugglaus bý; Til þarfra idna þrótt mér gefur, Því nýt eg brauds af hørmum frí; Fadir, øll gledi' og farsæld min Flýtur af brunni gæzku þin.

5. Frá minnar æsku fyrstu stund-

um, Forsjá þín nákvæm leiddi mig, Þín hønd mig dró frá hættum syndum, Hvatti, ad elska dyggd og þig; Þá fótur skeika mátti minn, Mér jók dug og hug andi þinn.

6. Svo leingi túngan sig má hræra, Saungrødd min glød skal prísa þig, Hjartad skal þakkar-fórn þér færa, Fær medan hreist í brjósti sig; Þig, er eg hníg í daudans dal, Dýrka sídasta andvarp skal.

7. Min glada ønd þá upp sér lyptir, Odaudleg frjáls í himininn, Og einglum jafn eg eymdum sviptist, Enn fegur hljómar saungur minn; Ædra med himna-hird eg þá, O herra! lof þér sýngja má.

## No. 29.

Lagid: O, þú gøfuglega þrenning!

Himna gud og hjartans fadir,

Heidur þinn vér syngjum gladir,
Þúsundfalt þökkum vér þitt hjálprædi,
Líf, heilsu, føt og fædi.
Vort skyn allt, vor raust þér vegsemd færi',
Er skepnur allar nærir.
Þín voldug hønd, drottinn, verndi' oss hér,
Veit lands gróda,
Veit oss heill og hagsæld góda.
Lát oss vel læra ad lifa þér,
Lída og þreyja,
Loks í trú þér lifa deyja,
Og útvalda,
Um aldir alda, ædst lof segja.

## No. 30.

Lagid: O drottinn allsvaldandi!

Ottast, min sál, aldregi, Eg þó vinalaus standi' um sinn, Og þó eg hitta eigi Orbirgd og sótt, þvi hugur minn

Traust guð á Sífellt setur, Særa má, Hvað sem getur, Ört mun fá Enda hryggðarvetur.

2. Eg hræðist ei, þó sjái Allrar veraldar fjörbrot hörð, Eða þó æða nái Ögn og skelfing um lopt, haf, jörð; Guð mig leitt Getur tryggur, Grandi eytt, Bezt þá hyggur, Hjálp tilreitt Hann fær, nær á liggur.

3. Eg er almættis handa Ágæt skepna, mitt hjartað í Sitt gaf hann orð og anda, Af náð frelstum ei gleymir, því Hann bezt sér, Hvað mig bætir, Hann mig ver, Neyð þá grætir, Náði mér Náð hans, hvað sem mætir.

4. Hér mitt reynslu-stand heitir, Himininn er mitt föðurland, Til hans sér hugur fleytir, Hvar, eptir skammvinnt mein og grand, Gleði fá Gefst mér beztu, Gæzku þá, Dásemd mestu, Set eg á Sama trausts-staðfestu.

5. Öll lidnu lífdaganna Lídan um eilífd gleymist þá, Í flokki' útvaldra manna Eg nær helgadur birtast má; Sigur-krans, Senn í ljóma, Sælu-lands Ber med sóma, Frelsarans Fæ eg vegsemd róma.

6. Fyrir þær gnóttir gæda, Guds son er oss tilbúa fór, Eg lofa gúd upphæda, Eingla hans medur saungva-kór'. Alls nægd þá, Er þar gledur, Einginn má Túngu medur Greina, sá Glansi er ósédur.

7. Mín sál, hér medan þreyir, Mænandi horfir, Jesú minn, Eptir þeim yndisdegi, Ad sjá hátignar-ljómann þinn; Eilíf þá Audnast kæti, Er eg má, Herrann mæti, Frelstur stá Fyrir þínu' hásæti.

8. Hjá þér öll heimsins mæda Hlýtur í gledi snúast mér, Þar kann mig hryggd ei hræda, Harma-grátur

afþerrdur er; Gladur því Grøf ad vendi, Guds dýrd í Hug minn sendi, Hress og frí Hlaup mitt svo eg endi.

## No. 31.

Lagid: Gæzku guds vér prisum.

Einn gud þér allir prísid, Og lofid drottins nád, Allt sker til góds, auglýsid Øllum hans stjórnar-rád; Frá vorri fæding hann, Fram oss sem fadir leiddi, Fødurlega tilreiddi, Pad sérhver þurfa vann.

2. Eins vid oss ørlát breyti Eilíf guds ríkdóms hønd; Frid, heilsu, heill enn veiti Hún fyrir líf og ønd. Pó framar þessu ad Hér sína hegdun vandi, Í hlýdni trúr vel standi, Hver einn; gud gefi þad.

3. Pér, fadir, eilíf æra, Ædst lof og þøkk sé téd, Og þínum syni' ástkæra, Anda guddómsins med. Gud

sem varst, verdur, ert, Blessa vort land, gef blída Bót þeim, er raunir líða, Heill vor og hjástod sért.

## No. 32.

Lagid: A gud alleina.

Lof, eilíf æra, Alheims-stýrir, sé þér; Um ást einskæra Allt skapad vitni ber; O gud alvísi! Allt þitt framleiddi bod; Þig alls auglýsi Orda, líf, fegurd, rød, Og þig einan prísi Øll skepnan sæl og glød.

2. Þín gæzka gledur, Gæfu' og blessun tér, Svalar og sedur, Sífellt vidhelður mér; Eg má eins nefna, O gud! þig fødur minn; Føduráſt efna, Æ reynist þú hvert sinn; Af þér alla gefna Andarkrapta eg finn.

3. Þú hýrgar, hressir, Hugsvalar, styrkir mig, Þó lífs-kjør þessi Mér þyki ervidlig, Aldrei eymd hrjádan

Mig yfirgefur þú, En þrautum þjáð-an Þín gleður mildin trú, Að til æru' og náða Eilífra búir nú.

4. Hvar hrekjast næ eg, Hjá mér þú jafnan ert, Hvergi horft fæ eg, Hvar þig ei sjái bert; Í hug hvarfl-andi Þú hulda þánka sér, Aður minn andi Útklekur þeim í mér, Æ, mitt allt ástandið Alstaðar ljóst er þér.

5. Hvort gætinn geymi Gæzkurík boðin þín, Eða gálaus gleymi, Því gæfa' og heill er mín, Þú grannt að gætir; Guðdóms visdómur þinn Mitt athvarf ætíð Er og trúr leiðtoginn; Bezt þinn kraptur bæti Blessaður veikleik minn.

6. Ef grandvar geymi, Guð, jafn-an boðin þín, Hérvist í heimi Heilla-søm verður min, Hættulaust héðan Heim til þín glaður fer, Lífs frest þá léðan Minn lætur þrjóta hér,

Fæ þig, fadir, sídan, Hvar farsæld eilíf er.

## No. 33.

Lagid: Gudi lof skal ønd min inna.

Hvar byrjar, herrann blídi, Hvar endar þín grunnlausa náð? Hvad er, sem ei útþýdi Augnamið þitt og vísdóms-ráð? Sérhvers, er líf þú lénar, Líkn þín minnist ávallt, Og hvad hans þørfum þénar, Þú sér og gefur allt, Vort traust er á þér einum, O fadir himnum á; Hlífð þín nema hamli meinum, Hvad kann ad standast þá?

## No. 34.

Lagid: Heidrum vér gud af huga' og sál.

Gud drottinn, stór þín gæzkan er, Gløggt vitni jørd og himin ber; Henni alls ekkert mann-vit má Mak-

legan prís og lofgjørd tjá; Þín ofan streymir miskun mest Og mildi hvern dag til vor bezt, Sem um eilífd fær eingan brest.

2. Braud fyrir daglegt þøkk sé þér, Og það gott allt, hvers nutum vér; Þøkk fyrir lands vors frid og fró, Frjóvsemd jardar og afla' úr sjó. Gódi fadir, þig gøfgum vér, Þig gøfga jørd og himni ber, Sem øllum bjørg og blessun tér.

## No. 35.

Lagid: A gud alleina.

Ond min ósk sína, O fadir, sendir þér, Þú veizt þørf mína, Því lífid gafstu mér; Í augsýn þinni Opinbert gjørvallt er, Það mædu minni Má valda' og gagni hér; Hvad mig hitta kynni, Til heilla verdur mér.

2. Líf med líkama Leikur í hendi

þér, Allan lífs ama Eg reyni gæfu mér; Þó mig þraut beygi, Þolleysis flý eg síð, Órór eg eigi Um alls nægt heldur bið, Þinn við skamt eg þegi, Þeim tek ánægður við.

3. Eg spyr ei hrelldur Um minna daga tal, Angrast ei heldur, Eg nær burt fara skal; Þú einn afmælir Æfi-tíð mína hér, Og einn farsælir Minn afgáng, heim þá fer; Hel þá holdið kælir, Hjálp og traust ertu mér.

## No. 36.

Lagið: Til þín, heilagi herra guð.

Hátt prísi drottinn hver einn mann, Hans lofsaung allir vandi, Frjóvgun jörðunni færir hann, Frið gefur voru landi, O guð, vor guð, vér þökkum þér, Þín miskun, vor guð, eilíf er, Oss forði' hún öllu grandi.

## No. 37.

Lagid: Gudi lof skal ønd min inna.

Eilífi ástar-fadir, Er alvaldur stjórnar himni' og jørd; Allt, sem þitt ord skapadi, Allt heidrar þig med þakkargjørd, Forsjón vidfrægir þína, Fagnandi prísar þig; Skyldi' eg þá einn ei sýna Ást skaparans vid mig? O nei, ønd minni' og huga Upplypti' eg, gud, til þín, Þína miskun máttuga Mikli raust þakklát mín.

2. Nærgætna náð mér tjádir, Nafn fyr en lærdi' eg hjala þitt; Gagn mitt trúr efla gádir, Geymdir opt líf frá slysum mitt; Skammsýnn eg gjørdi' ei grilla, Hvad gagnlegast mér var, Til andar og lífs heilla; Alskyggna forsjónar Augad þitt æ vakandi Øll hepti meinin vønd, Mín geymdi vel vid grandi Guddómleg føduhønd.

3. Eg þína, ástar-fadir, Anægdur

blessun dag hvern sá; A mér ávallt sannadir, Ad eingan, sem þig treystir á, Og þér sig allan hefur Afhent, þú skiljir vid, Uppheldi gott því gefur, Gladværdir, heilsu, frid, Ástir ein-lægra vina, Opt fögnud saklausan, Mér drottins milda lénar Miskunar uppsprettan.

4. Þad má ei reiknast reidi, Þó reyni böl og eymd vort ged; Oss fadir ljúfur leidir, Líkn sendir jafnan þrautum med, Alls gjörir gódan enda Guddóms-visdómur þinn; Ef þúng-bær hryggd réd henda Og hrelldi anda minn, Þolgædi þitt ord kenndi, Þinn andi jók mér dug, Hjálpar-von sálu sendi, Sem minn vid rétti hug.

5. Lífs á vedhlaupi hálu Heims þá ginningar tældu mig, Og vidnæm syndin sálu Svikid hafdi á lasta stig, Svo sálar gagni' ei sætti, Sjálfum

mér gleymdi og þér; O gud, þú enn mín gættir, Ei vildir gleyma mér, Andar-gagn mitt dýrt mattir, Mína samvizku því Fødurraust fræddi, hvatti, Frelsadist eg á ný.

6. Þakkar eg hef upp hljóminn, Hjartanu til þín lypti' og ønd; Æ, gef eg ávallt rómi Þér æru og lof, ad mér þín hønd Fødurleg gott allt gjørdi, Gud, eg vegsama þig, Æ, eg audmjúkur virdi Umsjá þína vid mig; Allt sem þitt alvald stjórnar, Eins um himna sem láд, Fagnadar-lofsaung fórnar Fødur-ást þinni og nád.

## Nr. 38.

Lagid: Konúng David, sem kenndi.

Þér, gud, eg þakkir segi, Þín nád er furdanlig, Er frá fædingardegi Forsorgad hefur mig, Og annazt eins og nú; Mig skorti søt og fódur, Þá

fæddist af lifi móður; Allt bættir þetta þú.

2. Eg lifi, er og hrærist, Eilifi guð, af þér, An þín víst eg fortærist, Allur minn kraptur þver; Loptið er eignin þín, Af hverju eg dreg anda, Orka hann frá mér senda; Annars mín æfin dvín.

3. Þú átt og alla daga, Eins er og nóttin þín, Og allt hvað hér kann haga Heillum sérhvers og mín, Himin, vøtn, haf og jørð, Allt, sem lifsanda hrærir, Allt vel forsorgar, nærir, Því ber þér þakkargjørð.

4. O, hvað ørlátur, herra, Ertu við sérhvern mann, Orða hlutanna hverra Hentug varð fyrir hann, Er sú ó-rаskanleg; Sumt hagar, sumt má græða, Sumt agar, allt kann fræða Og stoða einhvern veg.

5. Einginn rétt enn veit skýra

Öllum tegundum frá Grænna grasa og dýra, Sem gagnast mønnum fá; Lof sé þér, drottinn dýr, Er það skópst oss til handa, Og lézt í skorðum standa, Ur hverjum ekkert snýr.

6. Nyti' eg ei náðar þinnar Nákvæmu, faðir minn, Yrði rás æfi minnar Enduð sem draumurinn; Líf mitt lifir af þér; Láttu mig lof þér gjalda Og lífinu hjá þér halda, Meðan eilífðin er.

## No. 39.

Lagið: J dag eitt blessað barnið er.

Skyld' eg míns guðs ei gøfga nafn, Gæzku hans prísa mesta; Allt vottar hluta allra safn, Að hann vill mér hið bezta; Sannlega náð hans einskær er, Sem alla tíð viðheldur mér, Við øllum háska hlífir, Og mig for-

sorgar føðurlig; Forgeingur allt og tælir mig, Ást guðs ein ætíð blífur.

2. Þegar frá eilífð þekkti hann, Það minni velferð hagar; Ljós, krapt, gæzku og líf eg fann Af líkn hans alla daga; Hans føðurást annað-ist mig, Áður en lífs eg komst á stig, Á minni vegferð veitir Allt, sem hér viðþarf velferð mín; Veltur, forgeingur allt og dvín, Ást guðs ein aldrei breytist.

3. Við elskað barn sitt breytist geð Blíðlundaðs føður eigi, Þó gjálíst fái gánga séð Gæfu það út af vegi; Eins sæ eg reynt þitt føður-þel Fara í øllu með mig vel, Elska þá aga sendir, Ei hirta' í reiði' og hatur tjá; Hverfult er allt og bregðast má, Ást guðs ein støðug stendur.

4. Þó tárin væti hvarma heit, Hørmúngar þegar mæða, Aga þinn ást

eg vera veit, Von sú má huggun glæda; Frá þrældóms-fullum synda-sið, Sem eg gjálífur undi við, Með þrautum mig vilt hrífa Aptur til þinna ásta' á ný; Allt bregzt og þrýtur heimi í, Ást guðs þó ein mun blífa.

5. Eingin heims-þjáning eilífð nær, Affkømtud lífs er mæda; Af þeirri vissu ønd mín fær Efling og styrk þolgæda, Þá vetrar hretið þrýtur stritt, Þar eptir kemur sumar blítt, Hverfur eins hryggðin senda; Í føgnud sorg øll síðar snýst, Svipult er allt og þrýtur víst, Ást guðs varir án enda.

6. Af gæzku einni gefur mér Guð óumbreytanlegi Eins sorg og gleði', eg fyrir þér Mig auðmjúkt niðurbeygi; O fadir, gef mér anda þinn, Að ástundi eg kostgæfinn Þér að þóknast og hlýða, Uns reynslutímann út

hef stritt, Og andlit þitt sæ skoda blitt, Og allt bregzt annad sídast.

## No. 40.

Lagid: Jesú, þinar opnu undir.

Heimsins stýrir forsjón fasta Fyrir hverri skepnu ber. Til vøls og efa hver vill hasta? Heyrast skal ei spurt af mér: Hvadan snaudnm bjørg ad berst? Bitri naud eg hvernig verst? Heiti Krists sá hyggst ad bera, Hugsjúkur má ekki vera.

2. Lifs áhyggju, minn gud, mína Og mig eg fel í hendur þér, Órugg-ur vid umsjá þína Er eg farsæll þar og hér. Eilíf speki' er allt þitt rád, Øll þin breytni gæzka' og nád; Eg ei þekki, hvad bezt hagar; Hønd þin allt til góds mér lagar.

3. Børn um mig nær veit eg þína, Vel fyrir øllu borgid er; Óró skal

mig eingin pína, Drugg forsjón þín sem ver. Óvild hætta ekki nein Orkar mér ad vinna mein, Sjálfur daudinn sizt mér grandar Sælla guds á milli handa.

## No. 41.

Lagid: Til þín, heilagi herra Gud.

Hví spyr hugsýkin, hvar mér sé Hønd, er atvinnu tæri? Veiti braud, klædi, hús og hlé? Hér sem eg gjørdur væri Volædis einn ad þola þrá, Því líkt sem gud, mér víkinn frá, Fødur ei forsjón bæri.

2. Vallanna blómstur vird fyrir þér, Vinna þau ei né spinna; Þó týnir kónga sóminn sér Samlíktur skrauti hinna; Hver óf þeim føt og lénti lit, Hvern laungum undrast mannlegt vit, Sem orkar miklu minna?

3. Ef gud skrýdir svo eitt gras-

strá, Er fáir virda' og nýta, Pad í dag blómgast eingi á, Á morgun færdu' ei líta; Hvert mun hann síd-ur sinni mynd Sjá fyrir, og ei þér, mannkind, Naudstaddri bjørg útbýta?

4. Svo víss sem minni øndu er Eilífur sælustadur, Og minn líkami einnig hér Upprísi forklóradur, Eins víst framfæri eg skal þá Af gudi, medan lifi, fá; Hann er og hér minn fadir.

5. Svo skal þá hrædslu og efa eg Aldrei láta mig pína; Mér um nær-íngar mældan veg Minn gud vill nád audsýna; Pad góda, sem eg girnist fá, Gefur, því vill mér hjálpa sá Og velferd efla mína.

6. Oss auma, drottinn, álít nú, Aumka þig, Jesú fadir; Vorn kvída og ángist þekkir þú; Pá verdum burt-skúfadir Af verøldinni, veit mér þá

Vald þitt, forsjón og gæzku sjá, Í trú svo gjörumst glaðir.

## No. 42.

Lagið: Hver sem að reisir hæga byggð.

Min gæfa byggð á guðs náð er, Getur því brugðizt eigi, Í míns skapara umsjón mér Af öllum hug því fleygi; Hans eru jörð og himininn, Hann mun sem guð og faðir minn Mér hjálpa' á hverjum degi.

2. Hann sá frá eilífð, hversu stór Heppni mér duga skyldi, Líf mitt, armæða og lukka fór Líkt, sem hann skamta vildi; Hvað syrgir þú þá, sál min kær? Sigur í öllu trúin fær, Mér sem guðs sendir mildi.

3. Hann veit þörf mína' og hefur ráð, Úr henni líka' að bæta, Fyr en eg beiddi, fann eg náð, Og fékk hans visdóms gæta; Forsorgar mig

sá fadir hér, Framvegis hulin guds á mér Velþóknan verdi mæta.

4. Hvert mun sú stóra heppni manns, Hérvistar jøfn á døgum, Betri en mædu-hlutdeild hans, Hverri þó yfir kløgum? Andlát guds-barna endar neyd, Eptir þessum vegsemdin beid Med alls kyns heilla høgum.

5. Hvad oss farsælir heimi í, Og helzt má gæfu kalla, Gefa mun drottinn gnægd af því; Glis heims og sæld gjørvalla Sálunni gæfa eingin er, En góð samvizka léttir þér Ok hvert, sem á vill falla.

6. Hvad er veraldar-heidur stór Hennar skammvinnur sonum? Hvad er andstreymis ólgusjór, Opt lægdur fyr en vonum? Fulltreystid drottni allir enn, Annast gudhrædda vill hann menn, Líkn veitir ljúfum þjónum.

## No. 43.

Lagid: Mitt hjarta, hvar til hryggist þú?

Sál mín, hvad geingur svo ad þér? Sút og kvída því vekja fer Örbirgd, er ama kann? Minnstu, gud þér ætíd ann, Ord hans stunda, reid þig á hann.

2. Mikill hann æ og alvís er, Allt, hvad hann skóp, ljóst vitni ber Um fødurforsjón þá, Er mannskepnum líkn vill ljá, Líta vorar þarfirnar á.

3. Hvers vid andvørpun hann kvad nei? Hver af þeim góda leiddist ei, Sem fadir barn sitt ber? Af honum þiggjum ójafnt vér, Allir þó, hvad gagnlegast er.

4. Ríki, máttur og mildin þín, Minn gud, sem heyrir andvørp mín, Er søm og ádur, því Hún kynslód frá kyni ný Kroptug skín øllum heim-inum í.

5. Ríkur þó treysti ríkdóm á, Í ríki daudra gista má, Ríki guds kaupa' ei kann. Elska mig, fadir, fátækan, Fadmi gullid hver, sem því ann.

6. Því sá, þú elskar, ædri er, En gull og eigur metast hér, Þín blessan þess er manns, Yndi, heill og audur hans, Einnig von til sælunnar ranns.

7. Fyrir þitt guddóms eilift ord, Er þessa huggun gaf á jørd, Þér, Jesú, þøkkum vér, Efli þad oss ætíd hér, Umsjón guds ad treysta, sem ber.

## No. 44.

Lagid: Hjartad, þánkar, hugur, sinni.

Hvad viltu svo kveina' og klaga Kjør útskipt þér, sála min? Því med sorgum svo þig naga? Sjá, þinn gud vill heillir þín. Eg í gudi gladur er, Gud, min sál fulltreystir þér, Øllu'

er reyni' eg, viltu venda Til vegsam-legs og farsæls enda.

2. Hann mig aldrei yfirgefur A hørmúnga vondu tíd; Allt þvi, fadir, athvarf hefur Ønd min til þin fyr og síd; Hver ógn sem ad høndum ber, Hugur skal ei fallast mér. Guds forsjónar sæ eg skoda Frelsi' og likn i øllum voda.

3. Hverja neyd, sem hlýt eg lida, Hann vill aldrei gleyma mér, Af þvi mun eg eingu kvida, Ef misskiptir lukkan sér; Stund þá reynslu úti er, Aptur likn hann sendir mér; Heims þvi orkar ekki' ad farga Ofsi' og slægd, þá gud vill bjarga.

4. Ovinaher ef ad mér drifur, Ørugg er þó gud min borg, Umsjá hans mér ætid hlifir, Allri frelsar mig af sorg; Já, þó gjørvøll móti mér Makt og vøldin fylki sér, Ekk-

ert gegn mér orku nýtur, Allt guds vilja lúta hlýtur.

5. Í Jesú nafni eg læt mér linda Lán, sem drottinn skiptir mér, Blitt hvert edur bágt vill senda, Til blessunar þad ávallt er; Í sorg og gledi sýnir hann Sig ástvininn trúfastan; Einginn vard sá enn til smánar, Á hans hjálp er stødugt vonar.

6. Vil eg, gud, á vald þitt gefa Veikan mig og gjørvallt rád; Lát mig heldur aldrei efa Ást margreynda þína' og nád; Hvad sem, gud minn, þóknast þér, Þad er víst allt heilnæmt mér; Forsjón vís, eg vid þad kannast, Vill mig fødurlega annast.

## No. 45.

Lagid: Jesús Kristur ad Jórdan kom.

Aldrei, mín sál, orvæntu hér, Þó ýfirdynji þrautir, Guds forsjón mild

ei gleymir mér, Þó gángi' eg þyrni-brautir. Þér greidist vegsemd ætt frá ætt, Alheims verndarinn gódi, Alla líkn fyrir æ ágætt Öll jördin lof þér bjódi; Ansi því himnar hljódi.

## 4. Endurlausn vegna Jesú.

### No. 46.

Lagid: I dag eitt blessad barnid er.

Upp, ad samsýngja eingla-róm: Æra sé gudi á hædum, Frelsud jörd med fagnadar-hljóm Færir prís í lofkvæd-um, Því Jesús, líf sem lét á kross, Líf og sáluhjálp færdi oss, Heims folluu ættum öllum; Flýi sorg, ótti, flýi þrá, Því fékk hans vegna þóknun á Gud vor þjódum gjörvöllum.

2. Dómarinn vard vor vinur, því Vor ótti' í gledi breytist; O hvílík

heill! nær himni í Honum pris af oss veitist. Þú, hvers fæding oss blessun bar, Og blessadur daudi einnig var, Hátignar himins vída Ásamt fødurnum átt nú rád, Æ minnstu vor í líkn og náð, Jesú, lausnarinn lýda.

## No. 47.

Lagid: Kom skapari heilagi andi.

Gud leit allt, hvad hann gjørdi, sjá,
Gott hann þad allt og veglegt fann,
Guds þad dásemdum greindi frá,
Gæzku, makt, speki lýsa vann.

2. Almættis gaf hann ordi med Øllu skøpudu fjør og líf; Styrk, føgnud', nægtum fylla réd Forsjón vís, máttug, góð, eilíf.

3. Um alla himna hvellur kór Hátt þá einglanna lofgjørd kvad: Vald drottins, mildi' og vizka er stór, Verkid skøpunar birtir þad.

4. Á manninum hér mátti sjá Mest af øllu guds dásemd þó, Hans eigin mynd bar sjálfur sá, Í sál heilagri vizka bjó.

5. En þessi skepna', er allt fékk gott, Í reynslu veik þó falla vann; Synd, eymd og dauda sjáum vott Sorglegan um breyskleika þann.

6. Lof sé þér, gud, sem líknsemd í Leizt til veraldar ofan þá, Med Jesú hlaut hún heill á ný, Hann þegar birtist jørdu á.

7. Hann, ljós veraldar, heill og rád, Hingad kom guds ad boda frid, Leid svo þolgódur hryggd og hád, Hlýdinn til dauda fødurinn vid.

8. Nú sýngur eingla helgur her Hátt lof: vor gud er stór og vís; Já, allir frelstir játum vér: Jesú, um eilífd sé þér prís.

## No. 48.

Lagid: Í dag eitt blessad barnid er.

Í nafni Jesú athøfn má Øll vor stofnast á jørdu, Gagn og heidur ef efla á, Ei tjóni ad valda hørdu. Allt sem þannig uppbyrjad er, Allt til góds horfa reynum vér, Og heilla takmark hljóta, Gud einn ad prísi verk øll vor, Velferdar til hvert gaungum spor, Á øndu' og lífi ad njóta.

2. Í nafni Jesú, eins og baud Oss Jesús, vér ákøllum Vonhraustir drottins nafn í naud, Nád prísum guds á øllum. Hvad hann skipadi, strax svo stód, Sterkur, vís mildur vor er gud, Honum jørd himnar hlýda. Allt vel því heppnast mønnum má, Miskunsemd hans sem treysta á Og fødurforsjón blída.

3. Í nafni Jesú øndumst vér, Í nafni hans hér þreyjum, Hans ord í

lifi ljós vort er, Lind huggunar, þá deyjum. Af grøf oss vekja vill með raust Voldugri, þar á setjum traust, Hjá sér til lífs innleiða; Með eingla-røddu þér skal þá Þinn, Jesú, lýð-ur himnum á Lof endurleystur greiða.

## No. 49.

Lagið: Þann heilaga kross vor herra bar.

Einum guði sé æra' og dýrð, Er sinn son sendi hingað á jørð; Hann stýri' og stjórni' oss øllum saman, Svo vér hann óttumst og elskum, amen.

## No. 50.

Lagið: Á þig alleina, Jesú Krist.

Á þig, ó herra Jesú Krist, Eg set von mína' í heimi; Þú elskar mig, það á eg víst, Orð þín veit mér eg geymi. Af himni til vor ofan stést,

Og kenndir, leidst, huggadir bezt, Blíd tryggd þín eymda bætti kif, Blessadri hlíf Þinni því fel eg önd og líf.

2. Mín synd er þúng, eg af því finn Angist og hugarpínu, Voladra þú ert vinurinn, Veit svölun hjarta mínu. Mín sála traust þig setur á, Mig synda leystir böli frá, En heimsins slægdum varar vid, Mér veitir lid Í freistni' og gefur andarfrid.

3. Efl mig, lausnari, ætíd þér Til æru lífid vanda, Afstverk þad muna' og mikla hér, Ad mig leystir þér til handa; Fúslega, Jesú, feta þinn Feril, náúngann elska minn, Uns skipun fæ eg skiljast vid Skamtad lífs-mid, Eilífa sælu erfi' og frid.

4. Heidrum því gud á himnatrón, Hæstan födur alls góda, Og Jesúm Krist, hans sæla son, Sem leiddi oss úr voda, Helgan anda, sem huggar

ønd, Hørd villumyrkra leysir bønd, En trúar glatt upptendrar ljós, Til þess ad oss Audnast á himnum ædra hnoss.

## No. 51.

Lagid: Margt er manna bølid.

Oss gef, Jesú, øllum, Ad frá þér ei føllum, Frid svo fáum vér; Þú gafst frelsid þída Þeim frá dróma strída, Synd í setti' oss hér. Holdsins makt, Heimsins prakt, Ei skal binda Oss í syndum, Allir þér tilheyrum.

## No. 52.

Lagid: Guds son kallar: komid til min.

Allt á, sá Jesúm ástvin á, Audveldlega kann skilja sá Vid heim og heimsins gædi; Hver Jesúm ástvin á, þess ged Anægt sins guds rád-

støfun med, Huggun fann, hryggd þó mædi.

2. Hver Jesúm ástvin á, sá kann Óhult lifa, ei hrædist hann Fors heims né flærdarsnørur; Ef syndin skelfir sálu mín, Og syndastraff, mig Jesú, þín Vernd trúføst ver óførum.

3. Þegar eg hefi þig ad eins, Þá er eg bættur sérhvers meins, Í neyd og deyd ei efast, Øruggur stend í allri neyd, Og geing fagnandi móti deyd; Allt bøl þú einn fær sefad.

## No. 53.

Lagid: Gæzkuríkasti grædari minn.

O gud, þá heimar hrapa' í grunn, Hefur upp kvøl og dóms ógnun, Frek ódyggd fer veinandi. Huggladur eg vid heimafall Þig, herra Jesú, skoda skal, Lausnara minn lifandi. Æ, hér Unn mér Þér ad hlýda, Þá ei

kvíða Þarf vid dómi, Fagnandi sýng eg: sæll hann komi.

## No. 54.

Lagid: Nú kom heidinna hjálparráð.

Jeg gledst af því eg Jesúm á; Hvad jafnast má vid gledi þá? Hún í raunum hugsvalar hér, Hagsæld velgeingnis eykur mér.

2. Jeg gledst af því eg Jesúm á, Jeg veit hann píndist krossi á Mín vegna; hans ef held eg bod, Hlíf er gud mín og ørugg stod.

3. Jeg gledst af því eg Jesúm á, Jeg stenzt því heimsins svikráð flá, Fors heims ei unnid fær mér svig, Fullhuga gjørir Jesús mig.

4. Jeg gledst af því eg Jesúm á, Jeg vil sál' mína hvetja þá, Ad þreyta fús hinn þraungva stig, Því hann ei yfirgefur mig.

5. Jeg gledst af því eg Jesúm á, Jafnvel ei daudann skelfist sjá, Hann því vidbúinn hittir mig; Heimför mín verdur fridsamlig.

6. Jeg gledst af því eg Jesúm á, Jeg mun til hans í hædir ná, Þar hann er, vera honum med, Í himnasælu fá hann séd.

7. Já, eg gledst í þér, Jesú minn, Jeg vil trúr geyma lærdóm þinn; Mín gledi, lífgjöf góð ertú; Gøfgan mín hljómi um eilífd sú.

## No. 55.

Lagid: Konúng David sem kenndi.

Son guds ertu med sanni, Sonur guds, Jesú minn, Son guds, syndugum manni Sonararf skeinktir þinn, Son guds einn eingetinn. Syni guds sýngi gladur Sérhver lifandi madur Heidur í hvert eitt sinn.

## 5. Jesú fæding.

---

### No. 56.

Lagið: I dag eitt blessað barnið er.

Með gleðiraust og helgum hljóm Þig, herra Jesú Kristi, Heiðri fagnandi' og hvellum róm Hópur þinn endurleysti; Ur himna-dýrð þú ofan stést A jörð til vor, því súnginn bezt Sé þínu nafni sóminn, Það von og fögnuð góðan gaf, Gjörvallt mannkynið syndum af Að frelsa ertu kominn.

2. Sannleiksins guð þig sendi oss; I svörtum myrkra ranni Vizkunnar glatt geislaði ljós, Þú gjörðir föllnum manni Blíður kenna að þekkja þann, Þig er oss sendi, frelsarann, Heiminn við hann forlíka; Dygð heilög kenning heimtar þín, Heiður því sýngi túngan mín Þér fyrir náð þvílíka.

3. Einskærust dyggd var allt þitt líf, En þínu, Jesú, gedi, Oss ad bjarga og eymda kíf Ad aumka, sønn var gledi; Ohuggadan þú eingan lézt, Øllum þvi líkna vannstu bezt; Fótsporum fylgdu þínum Sorga-léttir og nádar-nægd, Nú skjótt vantrúin hvarf, en hægd Veittir þú veikra þínum.

4. Þíns fødurs vilja framkvæmd med Fullnustu gjørdir hlýdinn; Bót og frelsi er fyrir sked Fráhorfna Adams lýdinn; Syndanna þúngu sektum frá Eg sídan kvittun vænta má, Ad sigradir dapran dauda; Hátignar því á himnum er Hnoss eilíft geymt og búid mér, Frelstum af fári nauda.

5. Med gledirausst og helgum hljóm Þig, herra Jesú Kristi, Heidri fagnandi' og hvellum róm Hópur þinn

endurleysti, Í himna-dýrd upp aptur stést Af jørd, en oss þín nádin bezt Yfirgefur aldregi; Honum, sem vald og heidur ber, Hallelúja lofsýngjum vér, Øll kné sig audmjúk hneigi.

## No. 57.

Med sínu lagi.

Mildi Jesú, sem manndóm tókst Í Maríu jómfrúr kvidi, Þar med heill og hjálprædi jókst Hverjum, sem á þig trydi, Þú sást vora' eymd og andar-tjón, Øllum var búin skømm og smán, Angistar-kvøl og kvidi.

2. Yfir oss virtist aumka þig, Ei kunnir þad umlída, Ad villu geingjum áfram stig, Ei vildum gudi hlýda; Af himnum komst í heim til vor, Hófst oss því lausn og fridur stór Fyrir þinn dýrstan dauda.

3. Og þú hefur oss øllum sagt, Á

þig skyldum vér treysta; Offur þitt, hlýdni, ást og makt, Af syndum hefur oss leysta, Eflaust því setjum á þig trú; Allt það gott, sem oss lofadir þú, Aldrei kann oss ad bresta.

4. Vor bródir kær þú ordinn ert, Ætíd vilt hjá oss byggja, Vernd og adstod oss veitir bert, Vér viljum hjálp þína þiggja. Pad er oss gagn og gledi stór, Guds son ordinn er bródir vor; Hvad má oss sídan hryggja.

5. Heidrum og lofum herrann vorn, Hann einn oss endurleysti; Vér erum med þér blessud børn, Bródir vor, Jesú Kristi. Gledji oss jafnan gáfa sú, Gudi þøkkum hans ást og trú, Líknsaman sig auglýsti.

## No. 58.

Lagid: J dag eitt blessad barnid er.

Frá synd og deyd svo frelsumst vér,

Fagnadar sýngjum hljómi: Frelsarinn í heim fæddur er, Þann føgnud verøld rómi. Jørd syndug himins fékk nú frid, Fullsæla eilífd gledst því vid, Jesús þá von oss veitir: Vort líf nú reiknast reynslustand, Rétta himininn fødurland; Upp þángad allir leiti.

## No. 59.

Lagid: Ris upp, min sál, ad nýju nú.

Upp, upp, á herrans hátíd nú, Og hátídlega þig tilbú, Ást guds audmjúkur lýsa. Kærleika med Kann þakklátt ged Kærleikans gud ad prísa.

2. Segdu med bljúgu sinni fyrst: Svo elskadi mannkynid víst Gud vor, ad son útsendi. O, gæzku hnoss! Gud elskar oss, Geymir med fødurhendi.

3. Vor elskulegi vinur sá Vort

hold og mynd sig tók upp á, Stöddum í stórum voda Guds vizku, ráð, Gæzku og náð, Gaf oss þar med ad skoda.

4. Hann er þin heill, tak hlutdeild þú Hennar med sannri bæn og trú J hans nafni' á hverjum degi. Ei dýrkar hann, Sá hrópa vann: Herra! en betrast eigi.

5. Eg vil þakklátur idka mig, Ad sýna rétta trú á þig, Hughreysta, hjálpa, sedja, Hjörtu gudhrædd, Af ángri mædd, J þinu nafni gledja.

6. Ráð, kraptur, hetja, allt af þér Er, þad himin og jördin ber, Þad allt þér þakkir segi; Öll kristin þjód Þig prísi glöd, Þér öll kné þakklát hneigi.

7. Vegsamid gud, hann hjálpar fús; Huggun nádþyrstum er Jesús. Allir hans endurleystir Hátt prísid

hann, Vorn hjálparmann, Hans miskunn gladir treystid.

## No. 60.

Lagid: Guds son kallar: komid til min.

Upp, gledjizt allir, gledjizt nú, Gledi uppfylli brjóst vor sú, Guds ást vorn føgnud glædi, Þvi Jesús, heill vor, hann er nær, Hans ást á oss hún er frábær, Hann voru holdi klædist.

2. Burt sorg, ei meir vor hjørtu hrell, Himnesk kæti þau upp nú fyll, Ad Jesú fagnad fáum, Med audmýkt, bæn, þøkk, ást og trú; Eilif huggunin vor er sú, Sem af hans nád vér náum.

3. Þinn fridur, gud, sem ædri er, En allt, hvad þekkjum, skynjum vér, Vor hjørtu' og hugskot geymi I Jesú þekking', uns hjá þér Eilifrar gledi høldum vér Hátid i betra heimi.

## No. 61.

Lagid: Jesú, þinar opnu undir.

Dýrd sé gudi' i hæstum hædum, Himin sýngur fögrum hljóm, Mannkyn hrært i innstu ædum, Undir tak med lofsaungs-róm; Allt guds speki, miskun, mátt, Mikli, göfgi, prisi hátt. Dýrd sé gudi' i hæstum hædum, Hrósi jörd hans ástargædum.

2. Ef þú ekki undrast, madur, Og ástar drottins vermist yl, Né audmjúkur gjörist gladur, Guds svo elsku finnur til, Hversu máttu' hans mildi þá Maklegt þakkar-offur tjá, Og med eingla-lofsaung lýsa Líkn vors drottins, þakka, prisa?

3. Dýrd, allsherjar-drottinn, þina I dupti flatur eg tilbid; Ást þina og eymdir minar Audmjúkur eg kannast vid. Hvad var eg? þú miskun mér, Minn gud, gafst fráhorfnum þér,

Eigi syni þyrmdir þínum, Ad þrífir mig frá andar-pínum.

4. Allt mitt dagfar yfirlýsi, Ad eg sé þeim hrærdur af Undrum nádar; allt þá prísi Ást, er son þinn heimi gaf. Sú í hlýdni helgi mig, Hans svo feti' eg dyggdastig, Lof, tilbeidsla' og þøkkin þída Þessi sé min hér og sídar.

5. Dýrd sé gudi' í hæstum hædum, Hver sinn son gaf føllnum mér; Mannkyn hrært í innstu ædum, Aldrei gleym því veitti' hann þér; Almátt, speki' og elsku þá Allt mitt líf vidfrægja má, Uns eg gudi' á himna-hædum Hef upp lof med eingla-kvædum.

## No. 62.

Lagid: Ofan af himnum hér kom eg.

Allir samsýngi einglahird: Í upphædum sé gudi dýrd, Sem nú lét

jørdu fallna fá Frid, hefur mønnum þóknun á.

## No. 63.

Lagid: Sólin upp runnin er.

Gledji sig gjørvøll jørd Í gudi sínum; Fagna guds fridkeypt hjørd Frelsara þínum, Hvers fæding þér, Full nád himneskri, bodast; Þigg, tilbid, þakka í trú Þessa guds ástgjøf nú, Skyldu þín skoda.

2. Sem fánginn frelsi gledst, Þann fjøtur reyra, Leystur til lífs þá kvedst, Lausn fær ad heyra, Eins fagna þú Frelsi og lífgjøf dýrri; Gud synd upp gefur þér, Gud þig umvefur hér Nád fødurs nýrri.

3. Sá fæddist, fús sem leid Forsmán, bønd, pínu, Frásnúid fólk med deyd Frelsadi sínum; Honum lofgjørd Hans kristni vanda ætti; Hann færdi

oss frid vid gud, Frid vid vor hjørtu með, Þvi brot vor bætti.

4. Sýng, leik með hjarta' og hug Hans pris og fagna; Um hans stór alvoldug Astverk ei þagna; Þin hegdan øll Hans þjón þig æ auglýsi; Sizt heimur, hold og blód Þér haldi' á glæpa-slód, Helg hlýdni' hann prísi.

5. Hvert gagn þræl þrjózkum telst Að þiggja frelsi, Odæll ef aptur selst Anaudar-helsi? Hvad notar þér Náð fyrir Krist ad þiggur, Ef faungnum enn nú blind Yfir þér drottnar synd, Og í løstum liggur?

6. Fulltreyst hans fridargjørd, En fjøtrum lasta, Fyrir hans efldur ord, Øllum burtkasta. Sá ok hans ber, Ok, sinna synda brýtur, Harmar og hatar brot, Helgadur eilif not Hans frelsis hlýtur.

## No. 64.

Lagid: Hver sem ljúfan gud lætur ráda.

Kristnir menn, um fram allar tídir Er þessi tíd oss gledileg. Hverfi ángistar-kvein og kvídi; Hver Kristum elskar gledji sig. Hann, bezt sem manna bætti rád, Borinn er nú af fødurs nád.

2. Vort hjálprád gudsson vera fýsti, Til vor ofan af himnum sté, Med hegdun oss og lærdóm lýsti, Leid píslarvættis-dauda' á tré; Hann uppreis og til himna sté, Himnavegur svo greiddur sé.

3. Frelsari', ástverkum frægstu þínum Med fegins-rómi lýsum vér; En veit oss styrk, svo alúd sýnum J dyggd og trú til heidurs þér; J útvaldra flokki' um eilífd þá Ædst lof þér sýngjum himnum á.

## No. 65.

Lagid: Frelsarinn er oss fæddur nú.

Føllum nú til fóta Krists, Sem fæddist oss til lausnar víst; Fékk oss á himnum frid og vist; Syngi hans hjørd Honum lof og dýrd og þakkargjørd.

## No. 66.

Lagid: Ris upp, min sál, og bregd nú blundi.

Í heim til vor frelsarinn fæddist, Fagni hans endurleysta hjørd; Straff hins alvalda', er hold allt hræddist, Horfid er, fridi lýst á jørd; Gudssonar frelsi gledjumst í, Gud er vor fadir upp á ný.

2. Oss, sem ad réttinn barna brutum, Brast adgáng ad hans ást og nád, En sektagjøldin óttast hlutum Eilif, því bod guds høfdum smád; Oss nú frelsarinn fæddur er, Frid, lausn og sælu hrepptum vér.

3. Upp, upp, min sál, þigg ást-gjöf þessa, Audmjúk, fagnandi tilbid hann; „Ordid vard hold", ad bjarga og blessa Barn sitt lét gud oss fædast mann; Vikna, mitt hjarta, vid þá nád, Voldugur gud þér hefur tjád.

4. Frá allri synd hann fólk sitt hefur Frelsad og keypt til eignar sér; Hann lyst og krapt til góds þvi gefur, Gæt vel, finnur þú slikt hjá þér? Blómga med dyggdum breytni þin, Blessad hans dæmi af þeim skin.

5. Af þvi fagna, ad er nú fæddur Endurlausnarinn syndarans; Þó veikur sért, samt vertu' óhræddur, Vel mun þig styrkja kraptur hans; Gudssonar frelsi gled þig i, Gud er þinn fadir upp á ný.

## No. 67.

Lagid: Gud miskuni nú öllum oss.

Í trú undrandi' eg tilbid þá Trú-

festi og speki þina, Er fær, ó guð, mín sál að sjá Við sonar þíns holdgun skína; Þín loforð hafa eiðs-krapt öll, Eingin hindran þau tefur, O, hvað þín speki furðufull Og forsjón allt umvefur, Takmarkað hvað eitt hefur.

2. Jeg má viknaður játa það: Jeg hef reynt forsjá þina; Guð, þitt auga mér gætti að Um gjørvalla æfi mína. Hver leiddi mig í lífið inn? Lét vífs kjør opin standa, Hvar ótal gæða gnótt eg finn? Hver greiddi mér til handa Veg gegnum margan vanda?

3. Faðir, trúfesti' og forsjá þín, Framar eg við það kannast, Fyr en eg til var, minntist mín, Mig hefur síðan annazt; Mér valdi bæði stund og stað, Og stand, er hentast væri; Mín gleði sé igrunda það, Guð, svo þér þakkir færi Af allri önd, sem bæri.

4. Þin tryggd og speki', er skært mér skin, Þá skoda' eg kjør þins sonar, Sé einka-hlifd og adstod min, Akkeri minnar vonar; Þin forsjón vis, er hélt sin heit, Hann gaf til frelsis manna, Mér til hjálpráds æ medøl veit, Mína naudsyn vill annast, Bjørg þá af verøld bannast.

## No. 68.

Lagid: J dag eitt blessad barnid er.

O, vor herra Jesú Krist, Oss í manndóm borinn, Þú hefur allan lýd þinn leyst, Til lifsins ádur kjørinn; Opna vor hjørtu, ad vér nú Ord þin geymum med réttri trú, Hvar med hér á jørdu Endurfæddir eignumst vér Arf himna med sjálfum þér, Og blessud børn þin verdum.

## 6. Jesú pína og dauði.

### No. 69.

Lagið: Adams barn, synd þín svo var stór.

Reyn hjarta mitt, rannsaka mig, Rétt-láti guð, eg kem fyrir þig, Sjá, hvort eg heils er hugar; Nær hugsa' um Jesú hjartans-kvöl, Heita elsku og písla-böl, Sút kløkkva sálu bugar; Hans þjáning öll mín heilsa er; Hví-líka náðar-dásemd hér Virtist þú ver-öld sýna? Hve nær hef eg nóg hug-leitt það? Hve nær bezt sem gat veg-samað Af allri sál' elsku þína.

2. Friðarhöfðingi, hetja, ráð Hins hæsta, kraptur af guðs náð, Hér klædd-ist holdi' og blóði; Fórn synda, Jesú, verða vannst, Værð á saklausri sál ei' fannst Af kvala feikna flóði; Þinn vinur svikráð veita fer, Vopnaðan skara senn að ber, Hörmúnga hefst

upp tími; Kvalanna ofboð þreyngði' að þér, Þú hrópar: „guð, ef mögu- legt er, Bikar sá burtu rými".

3. Líkt dropum blóðs af dundi þinn Dýr sveiti, Jesú, máttfarinn Til jarð- ar þér flötum fleygir; Þú son hins hæsta bljúgur berst, Bæn þinni við, þá kvöl þú skerst, Opt gjörðri þinn guð þegir, Jafnvel í stríði styrktan þig Stórkostleg kvöl og skelfilig Ógn þó og Angist mæðir; Sekt manna hlóðst þig sjálfur á, Í syndugra hendur gafst þig þá Geðhraustur með þolgæði.

4. Þú, guðs réttláti og sanni son, Sjálfur barst illvirkjanna laun, Sak- laus og saunheilagur; Svo var því fyrri fyrir spáð, Framkom nú drott- ins hjálparráð, Vor friðar og frels- is dagur. Illþýðið þyrsti í þitt blóð, Ofsann þín hógværð af sér stóð,

Svo frelsast sálir kynnu; Jeg þinn leysingja játa mig, Jesú, því allra synd á þig Hlóð guð, svo frið vér finnum.

5. Að þrælsmynd þú auðvirðist hér, En æðstu dyggða skart þó ber Ætíð þitt ástar-hjarta; Þolir svo hatur, háð og smán, Hörmúngum, eymdum fullur, rán Mazt ekki mynd guðs bjarta; Þig, sem guð hét oss, sáum vér, En samt ekkert oss þekkt á þér, Ei mynd né fegurð fríða, Fyrir þér, eilíft athvarf mitt, Andlit þeir jafnvel byrgja sitt; Sáttmáls-börn sjálf þig niða.

6. Offur varst, sem guðs eilíft ráð Alyktað hafði, en af náð Vildir þú vægð oss sýna; Fyrir misgjörðir fólksins þíns, Fyrir sekt brotlegs manna kyns Þín var þjáning og pína; Akærður saklaus eingu hér

Annsar, en sjálfur kross þinn ber,
Sem lamb, er bana bídur; Fús eins
og hugprúd hetja bar Hels=neyd, sem
oss maklegust var, Ást hans fyrir
auma lídur.

7. „Eg mátti telja mín øll bein,
„Mínar hendur þeir hafa' med flein
„Og fætur gegnum grafid; Feitir
„umkringdu uxar mig; Omildra hóp=
„ur gladdi sig, Sína vild séd ad hafi;
„Eg hrópa, en mín hjálp er fjær;
„Þeir hæda mig: sé hann gudi kær,
„Hann klagi, hjálp mun kanna; Madk=
„ur eg, ekki madur, er nú, Mig í
„daudans dupt leggur þú, Spott lýds=
„ins, spé mannanna.

8. „Brád kvalarans eg ordinn er;
„Eg hrópa, þú ei svarar mér, Mig
„yfirgefa allir; Þjakadan sár þá þorst=
„inn skar, Þeirra veitt svølun ein=
„tóm var Beiskt edik blandad galli;

„Sem var mitt hjarta' er sundur „smelt, Svo sem vatni er mér út„hellt, Min ángist er þeim gledi. Því „yfirgafstu þjóninn þinn, Þrautmædd„an, ó guð minn, guð minn, Af „andar þúngu' ervidi?"

9. Þú hneigir nidur høfdi þín, Hrópar fullkomna borgun mín, Þú deyr, jørd døpur titrar; Ervidi hef eg aukid þér, O, drottinn! hrædda sál' þad sker; Um písl þína' eg þeinki bitra; Hvad er eg, frelsi' ad fékkstu mér? Æ feingi' eg allur þakkad þér; Sjá, drottinn, vægd mér sekum. Afsýsa skal þín ástin mig, Ad unna þér, svo aldrei þig Særi med syndum frekum.

10. Orvænting sælu' um eilífd má Alla sárlega hrella þá, Er forsmá forþénun þína; Þeim ekki stunda' í ást og trú, Ástgjøf þvílíka' ad virda nú, Til þýngra dóms þín er pína;

Synda þjónum, er sífellt þig Med syndum smána', en játa sig Forþénun þinni treysta; Hver ord þín smáir, elskar sízt, Hver ei þig elskar, dæmist víst, Kvøl þín hann kann ei hreysta.

11. Þú hefur heitid hjástod mér, Ad hlýdnast æ og fylgja þér, Otta guds eg svo læri. Þín heiløg písl mig huggar ein, Hve nær sem synda banvænt mein Samvizku hrædda særir; Gjør mig brennandi' í bæn og trú, Bind mig í elsku vid þig nú, Þitt dæmi gef eg geymi. Veri þín kvøl mín vørn í neyd, Velgeingnis styrkur, hlífd í deyd, Og huggun efsta' í heimi.

## No. 70.

Lagid: Sæti Jesú, sjá oss hér.

Daudans þúngu framinn kvøl Á krossi hángir Jesús blídur. Frels-

arinn, svo bræđra böl Bætti, þjakast písla-hríđum. Eilíf gæzkan út hann gefur, Annsa kveinstaf sonar tefur.

2. Æ, hans hjarta sáru sorg, Sérhvers vinar huggun sneyddur, Leid hann fyrir allra örg Afbrot, smádur vard og deyddur; Harma skál hann hlaut af drekka, Hann svo feingi' oss gudi þekka.

3. Hver fær kvöl íhugad þá, Svo hjarta vikna þess ei mætti? Og þó lída sekan sjá Synda þúngu refsing ætti; En — hár lídur heilagleiki; Hjartad klökkni, raustin veikist.

4. Hann leid fyrir heimsins synd Hádúng, undir, bönd, kvalrædi. Hann, sann-nefndur lífsins lind, Lézt á tré vid daudans mædi. Fús hann dó og fól sinn anda Födur, hlýdinn, geymslu handa.

5. Gódi Jesú, gef ad mér, Gleym-

ist sizt sú elskan megna, Er saklausum þrýsti þér, Þetta' að líða mínna vegna; Minning krossins kvalar þinnar Kostnað votti lausnar minnar.

5. Gef eg mína gráti synd, Gef eg meður varúð fagni Friði' og sæld; Þín sorgarmynd Sí-áminni, bezt hvað gagni. Eg varð keyptur, æru' og sóma Allt skal mannkyn Jesú róma.

7. Virztu' af náð mér liðsemd ljá, Að líkjast þér og fylgja hraður, Þér, sem lézt mig lifi ná, Lifa trúr og deyja glaður, Hátt þig prísa' um heiminn víðan, Heiðra, nær eg dey og síðan.

8. Það, frelsari, vonar víst, Vonar æ þinn endurleysti. Þú óvirðir veika sízt Von, sem styrkja þér eg treysti; Þegar fjör í dauða dvínar, Drottinn, meðtak sálu mína.

## No. 71.

Lagid: Fadir vor, sem á himnum ert.

Hjálpa mér, Jesú, herra minn, Ad hugsa' um pínu' og dauda þinn; Hjálp mér íhuga elsku þá, Er lét þig deyja krossi á; Hjálp mér ad þekkja og þakka þér Þá miskun, sem þú veittir mér.

2. Máttug guddóms ímynd þó sért, Madur á jørd oss líkur ert, Hlýdinn allt fram í yztu neyd, Já, allt ad krossins bitrum deyd, Sleginn og píndur í vorn stad, Alheims þá barstu misverknad.

3. O, hversu verk þad háleitt er, Heilagt og blessad fyrir mér; Þá eg vil meta þetta', eg finn Þar vid ormagnast huga minn; Titrandi hjartad sektir sjá Syndanna' og ángist finna má.

4. Gud af réttlæti ríkur er, Ránga

því straffar breytni hér; Fullt af kær-leika guds er ged, Gjarnan líkn sendir hegning med; Á Jesú krossi eg þess má Med ótta og furdu vottinn sjá.

5. O, herra Jesú, Jesú minn, Jeg reidi mig á dauda þinn, Og er framkropinn fyrir þér, Frelsari minn, í dupti hér; Þín ástin fyllir undrun mig, Önd mín þakklát því prisar þig.

6. Þín gæzka yfirgeingur manns Gjørvalla þánka' og skilning hans; Skyldi eg þess vegna vera nú Valtur og laus í minni trú? Eg, madur, þarf ei ætla mér Utgrundad fá, hver drott-inn er.

7. Guds mikilleiki' er mestur sá, Mønnunum nád og elsku tjá; Aud-mýktarfullum anda í Eigum vér hann ad prisa, því Hans nád og mildi mikil er, Oss mønnum sem hann veitir hér.

8. O, minn frelsari, anda þinn Andann lát jafnan fræda minn, Svo hørmúng þina hér á jørd Heidri' eg í trú og þakkargjørd, Og ad trúlyndur idki eg Ástsemd, og stundi dyggda-veg.

## No. 72.

Med sinu lagi.

Jesús, sem ad oss frelsadi, Einn var hann saklaus fundinn; Um midnátt, sem einn illvirki, Er fánginn og svo bundinn, Og færdur ógudlegum lýd, Sem á hann lygi bera, Hæda og smána hrákum med, Hvad gudspjøllin kunngjøra.

2. Á føstudagsins fyrstu stund, Þó fyndist søkin eingin, Í Pilati hins heidna hønd Hafdur var sem mordingi, Fróman Kristum og fridhelgan

Fann og svo viðurkenndi, Því frá sér í haldi hann Heródi kóngi sendi.

3. Um þriðju stund að strýktur var, Og stóð, sem lamb beið dauða, Þyrnikórónu þúnga bar, Þar með purpurann rauða, Reyrlegg í hönd til háðúngar, Högg og spott varð að reyna; Til krossfestingar sjálfum sér Sinn kross hann bar alleina.

4. Nær sjöttu stund að negldur var Nakinn á krossinn Kristur, Og blóði sínu' úthellti þar, Upp með krossinum reistur; Viðstaddir margir hæddu hann, Hæddi annar uppfesti; Um land allt myrkri ljósta vann, Ljóma björt sólin missti.

5. Um níundu hann hrópar hátt, Horfinn kvað guð sér vera; En þeir gallið og edik brátt Upp að hans munni bera; Jesús þá sína uppgaf önd, Í tvennt fortjöldin hrökkva,

Hardlega jardar hristust lønd, Hellur i sundur støkkva.

6. Hinna krossfestu' um kvøld var sagt Kvalarar bein ad brjóti, En sídast var i sídu lagt Sjálfum Kristi med spjóti; Blód og vatn þar strax út af rann, Uppfyllta ritning segir Jóhannes, þvi ad þad sá hann, Þeim votti trúa megid.

7. En þá dagur á enda var, Agætur, ríkur herra, Jósep ad kom af krossi þar Krists lidid hold ad bera; Eins og sidur veglegur var, Vel þad smurdi til grafar, Vardhaldsmenn sídan sátu þar, Svo sem Matteus skrifar.

8. Hjálp oss, ó Jesú, herra kær, Harda kvøl þú sem reyndir, Ad hlýdnir þér æ verdum vær, Og vørumst allar syndir; Dauda þinn og hans sanna søk Svo jafnan vér gaum-

gæfum, Og þig, drottinn, með ást og þökk Æfinlegana lofum.

## No. 73.

Lagið: Oss lát þinn anda styrkja.

Misgjörð þá mig áklagar, Mín huggun, Jesú, sért; Örvænting ei mig bagar, Athvarf mitt því þú ert. Æ, til að færa frið á jörð, Yfir þig döpur dundi Dauðans ángistin hörð.

2. Hrærður í hjarta mínu, Hugglaður prísa' eg þig, Að þú ángist og pínu Einnig leiðst fyrir mig; Æ, eg því gleyma aldrei vil, Hvað margt þú máttir líða Mönnunum frelsis til.

3. Mín sála helzt íhugar, Hvað leiðst til frelsis mér, Af því þá yfirbugar Ill síður girnd mig hér, Og sízt heims-flærð mig svíkur, þá Eg þín fótsporin feta Ferli lífs þraungum á.

4. Mér gef þol mædu' ad bera, Minn kross og alla neyd, Og þér trúan æ vera Allt fram ad mínum deyd, En hjartad fridi uppfyll þú, Ad eg ánægdur lídi, Eins og þú leidst, Jesú.

5. Og sem þú oss til bezta Útgafst líkama þinn, Hjálp, eg med alúd mesta Elski náúnga minn, Og þó vanþakkad verdi mér, Í kærleiksidju réttri Ekkert mig letji hér.

6. Svo vid æfinnar enda Eg dey í von og trú; Um eilífd eg fæ lenda Í dýrd med þér, Jesú, Þig, sem hér leidst, eg þar mun sjá Á guds hástóli', og gjalda Þér gøfgun himnum á.

## No. 74.

Lagid: Jesú, þínar opnu undir.

O, minn Jesú, øll þín pína Alla sefar hryggd og neyd; Huggast eg, þá

hörmúng þína Hugsa um og beiskan deyð; Til lausnar allt því leiðstu mér; Lát mig aldrei gleyma þér, Þér, sem syndasekt barst mína, Saklausan þá lézt þig pína.

2. Ef mér flýgur synd í sinni, Svik-ult min ef freistar hold, Þú æ sért mér þá í minni, Þar við krossinn stóðst á fold, Hæddur, kvalinn, hat-aður, Huggun vina ørsneyddur, Fjøt-ur synda' eg fæ þá slitið, Og fullur viknun til þín litið.

3. Heims ef lyst mig glysleg ginn-ir Glæpa fram á breiðan veg, Gjá-lífis að glaum eg sinni, Geðhraust-ur nei segi eg; Heims-lyst Jesúm heingdi' á tréð, Hins réttláta kvaldi geð; Burt holds-lyst úr brjósti mínu, Bjó hún lausnaranum þínu.

4. Ef mér ógnar ótti' og mæða, Eg þá, Jesú, með þér líð, Mig þau

ekki megna hræða, Eg minnist á þitt dauða-stríð; Þitt mér kenndi þolugt geð Þolinmæði að sigra með; Æ eg vil þér eptir feta, Ef mig bæði' að vilja' og geta.

5. Og þó hel á fund minn fari, Fullöruggur samt er eg; Þú, mín vernd og minn lausnari, Máttir gánga sama veg; Og þú vegsemd ávannst þér, En fékkst stað tilbúið mér Í þíns föðurs friðarríki; Finnst þar ekkert böl né sýki.

6. Jesú, sál' áminntu mína, Að minna vegna blóð þitt rann, Kross þinn, dauði, kvöl og pína, Kvittun synda og lausn mér vann; Þá skal öll mín æfistund Offrud þér, en hels við blund Þig mitt andvarp efsta prísa, Upp til dýrðar holdið rísa.

## No. 75.

Lagid: Upp hef eg augun min.

Grát auga, guds son dó, Sem gjørdi þó vel allt, Hjálp í neyd heimi bjó, Heill útbreiddi ávallt; Sannleiks-kennarinn klár Á krossi deyddur er; Vegur er herrans hár, Hann ekki skiljum vér.

2. Jeg fagna, Jesús dó, Jeg veit, sú menn fékk grætt Ogn daudans eydd burtfló, Adams má gledjast ætt; Lífs morgun-rodinn ljós Leiptrar heims ættum hér, Vors guds úthrópar hrós, Hans gæzka eilíf er.

3. Vonarfull venda min Vætt tárum augun sér Í himin upp til þín, Ó gud, hvers mildin er Eilíf og heidur hár. Hvad er lífs søknud ró? Hvad er heimsfreistni' og fár? Fyrir mig Jesús dó.

## No. 76.

Med sinu lági.

Minnstu, ó madur, á minn deyd, Minnstu á mína sáru neyd, Minnstu þad eg hef einn fyrir þig Í daudann gefid sjálfan mig.

2. Þad láttu þér nú vera kennt, Ad þetta hafir þú ei forþént; Af elsku hef eg þér allt þad veitt, En ekki fyrir þitt verkid neitt.

3. Því láttu þad uppvekja þig, Ad þú komir fram fyrir mig Med ángri og idrun hjarta þíns, Svo ad þú njótir dauda míns.

4. Ad sál þín verdi' af syndum hrein, Og sauruglegri lasta-grein, Fyrir þann dreyra' í dapri pín, Sem dundi út af sárum mín.

5. En hverju gegnir heimskan sú, Ad hugsa fáir um þetta nú? Marg-

ur er sá madurinn þar, Um mína pínu' ei hirdir par.

6. Hvernig hann kunni helzt ad fá Hjálp andar sinnar, og leysast frá Hrelling í dauda' og hugarpín, Og hegning' fyrir syndir sín.

7. En fagna' og gledst min fátæk hjørd, Fyrir minn dauda hólpin gjørd, Sem hefur allt þitt traust á mér, Ad vísu vil eg hjálpa þér.

8. Í mínum dauda er þitt líf, Þín hjálp, þitt traust, þín einka-hlíf, Mín elska sé upphvatning þér, Í dyggd og trú ad líkjast mér.

9. Lof og heidur sé, lausnarinn, Þér Líku fyrir þá, sem veittir mér; Fyrir þinn dauda og dreyra-foss, O drottinn! hjálpa øllum oss.

## No. 77.

Lagid: Fadir vor, sem á himnum ert.

Í þínum dauda, ó Jesú, Er min

lífgjöf og huggun trú; Dásemdar-kraptur dauða þíns Dreifist nú inn til hjarta míns, Upp á það synd og illskan hver Út af deyi í brjósti mér.

---

## 7. Jesú orð á krossinum.

---

### No. 78.

Lagið: Greinir Jesús um græna tréð.

Að Jesú krossi kom og bið, Krist-in sál, og því góðfús hlýð, Sem frels-ari þinn sagði þar Seinast veröld' til huggunar.

2. Hann fyrst óvinum friðar bað: „Faðir! — segir hann — tilgef það; „Villtir á synda-vegi hér Vita þeir „ei, hvað gjöra mér".

3. Fyrir mér bið, frelsari minn, Ef fer eg villt um lærdóm þinn, Og aðvaranir ekki fá Aptrað mér lasta-vegum frá.

4. Harmþrúnginni sem móður mót Mændir augum við krossins fót, Og þinn Jóhannes, henni þar Hjálpar-mann, vin, son ávísar.

5. Þegar mig undir þinn kross ber, Og þrýtur vina stoðin mér, Sorg, óvild, neyð mig hata og hrjá, Hjálp, Jesú, send mér aðstoð þá.

6. Strax, er ræninginn sínar sá Syndir iðrandi' og vildi ná Fyrir þinn dauða frelsi' og hlíf, Fullvissu naut um eilíft líf.

7. Huggun af þínum munni mér, Minn Jesú, gef, þá deyja fer; Unn mér í tíma að mér sjá, Og þér í vegsemd lifa hjá.

8. Þig kvaldi' á sál' og holdi hörð Hörmúng, það fjórða vitnar orð: „Hvers vegna, minn guð, minn guð, „Þú Mig hefur yfirgefið nú?"

9. Þitt hróp og ángist, herra, hér

Huggun og von þá gefur mér, Að ofurgefast ei eg skal, Um dauðans þó eg ráfi dal.

10. „Mig þyrstir", þú vannst hrópa, þó Þér einginn svaladrykk tilbjó, Lífs-kraptar tóku' að tæmast þér, Til þín súrt edik rétt því er.

11. Byrlaðan sárri beiskju mér Bikar ef dauðinn rétta fer, O Jesú, stöðugt gef mér geð, Góðri ró hann af súpa með.

12. Kvalanna mældan kaleik þér, Kristi, hlýðinn útdrakkstu hér, Og lýstir, hvað ályktað sé, „Allt fullkomnað", á krossins tré.

13. O, hjálpráðs gefna huggun þá; Héðan af synd og dauði má Ekki skelfa mig auman mann, Eilífan sigur mér það vann.

14. Allra síðasta orð þitt nú Er mín lífs von, þá sagðir þú: „Faðir

„í þína sel eg hönd Fram hér líð-
„andi mína önd".

15. Gef mér svo læra' að lifa hér, Loks burt í friði sofni' eg hér, Full-hugaa eg í föðurs hönd Fela svo megi leysta önd.

## No. 79.

Með sínu lagi.

Jesús Kristur á krossi var, Kvaldist allur hans líkami sár Með hinni mestu pínu; Sjö orð vor drottinn sagði þar; Haf þau í hjarta þínu.

2. Fyrsta sýnir hans sinni' og náð, Sinn föður kröptuglega bað Um heill óvina sinna: „Minn faðir, fyrirgef þeim það, Þeir vita ei, hvað þeir vinna".

3. Annað merkir hans mildu trú, Munaðarlausri segir nú: „Sjá, þar
„er son þinn, kvinna. Jóhannes,

„móðir þín er sú; Henni skalt um-
„sjón inna".

4. Þriðja hans mikla miskun er,
Minnast þess jafnan skyldum vér,
Ræningja svo réð svara: „Án efa
„skaltu í dag með mér Í mínu ríki
„vera".

5. Fjórða sýnir þér synda-mátt,
Son guðs kallar á krossi hátt: „Guð,
„því vilt mig forláta? Harðlega kvelst
„allt holdið mitt Yfrið mjög úr
„máta".

6. Fimmta orð hans skalt festa'
í hug, Frelsarinn dýrt að keypti þig,
Því sagði hann: „sig þyrsta"; Hann
girntist heill mannkynsins mjög; Hold
hans sárt naglar nísta.

7. Sjötta orð kristnum sé innrætt,
Synduga alla fær það kætt, Hve nær
í hug það kæmi: „Uppfyllt er allt, og
öll synd bætt, Með minni kvöl í heimi".

8. Seinasta': „Þér faðir, fel eg í „hönd Fram nú líðandi mína önd". Eg bið þig, minn lausnara, Heilags anda mér huggun send, Þá hlýt eg af heimi fara.

9. Ljúfi Jesú, þín lífsins orð Lát mig öll geyma hér á jörð. Í trú og hjarta hreinu, En með þér síðan æru' og dýrð Öðlast í ríki þínu.

## No. 80.

Lagið: Skapari stjarna, herra hreinn.

O, Jesú! séu orðin þín Andláts síðasta huggun mín, Sál minni verði sælan vís Með sjálfum þér í Paradís.

---

# 8. Jesú upprisa.

## No. 81.

Lagið: Gleð þig, guðs sonar brúð.

O, hjálpráð! uppreis hér, Sá allt

lif hafði' i sér; Uppris glöð, önd min, lika, Athuga dásemd slika, Ei gátu heljar hörðu Haldið bönd drottni' i jörðu.

2. Hann uppreis, heyrið þér, Hann, sem offsóktuð hér, Hann þér hötuðuð, leiddud Harmkvæli yfir, deyddud; Nú dauðans allt ofbeldi Undir hans liggur veldi.

3. Hann uppreis, heyri nú, Hverra veik reyniſt trú, Undir hans krossi eigi Efasemd nein svo beygi; Uppreis af æðstum krapti, Yðar lifs von því skapti.

4. Ei hræðiſt eg nú þinn, O dauði, brodd, því vinn. Nær sem þú kallar, kem eg, Hjá Kriſti staðar nem eg. Eg lit gegnum gröf svarta Gleðiljós himins bjarta.

5. Vissu lifs eilifs lér Lausnarans sigur mér, Megnar ei mig að

sæla Myrkur grafar né kæla; Um jörð all-litið gef eg, Í Jesú lífs von hef eg.

6. Jesús upprisinn er, Alsögnuð þetta lér, Frelsis-foringja halda Fékk ei band dauðans kalda; Hann uppreis, upp skal rísa Önd mín og nafn hans prísa.

## No. 82.

Lagið: Ó faðir himneski' og eilífi guð!

Lof sýng eg drottni, sem lífið gaf mér, Lofgjörðin honum og þakklætið ber; Jesús af gröfinni frægur út fer, Frelsari minn veit eg lífs er.

2. Unun, von, huggun þar öll byggist á, Á drottins hásæti ríkjandi' er sá, Sem leysti mannkynið syndunum frá, Síðar til hans koma eg má.

3. Mína úr jörðunni mold reisir

hann, Mig nýju lifi sem gæda þá kann; Medur þeim útvøldu mér sætis ann Minn Jesús, þá eg fer hédan.

4. Grafar-bed mitt lít eg gladur því á, Gudi fel tímann, nær leysi hér frá; Eg fæ mér himininn opnadan sjá, Og vil sem fyrst heim til guds ná.

## No. 83.

Lagid: Túnga min af hjarta hljódi.

Sá krossfesti Kristur lifir, Kristinn eingan skal því mann Daudans falla ótti yfir, Eingin grøf hann skelfa kann, Þeim, sem lúinn Þreyr, upp-búin Þæg er sæng, ad hvilist hann.

2. Ertu, Jesú, æ lifandi, Eg á deyd því sigur vinn, Lífs-von min æ stødug standi, Studd vid lífsins máttinn þinn, Høfud lifir Limum yfir Lífs þeim kraptinn gefur sinn.

3. Hold er eg, mitt hold skamm-

vinna Hlýtur verda dupti ad, Þegar stundir lífsins linna, Til lífs þó Jesús vekur það, Sín tilfærir, Sæld mig nærir Sínum upp í dýrdar-stad.

4. Hér opt þjáir holds kránkleiki, Heilsuna sídar allir fá, Í jørd endar jardnesk veiki; Jørd andlegur rís eg frá, Okreinkjandi' Í ædra standi Edli mitt skal verda þá.

5. Veit hjálp, Jesú, veiki minni, Von ad gledjast þessa vid, Lifnadinn gef laga kynni, Læri' og stundi helgan sid; Sofna' eg gladur, Sæll vaknadur Senn hjá þinni hægri hlid.

## No. 84.

Lagid: Heidrum vér gud af huga' og sal'.

O, Jesú, guds eingetinn son, Alit þú vorn lofsaung og bón, Hátt vert prísadur, herra, þú, Hver ed dóst, en þó lifir nú, Unn oss um glada eilífd

fá Æru, sæld, dýrd og vegsemd þá,
Hverja þú bjóst oss himnum á.

## No. 85.

Lagid: Kom, skapari heilagi andi.

O, Jesú! hel þú yfirvannst, Ei daudans bönd þér haldid fá, Med sigri oss þú frelsi fannst, Frid og líf eilíft gudi hjá.

2. Herra upprisni, hjálp veit oss, Hug svo ei bindum jördu vid, En fúsir stundum ædra hnoss, Eignast í himna-sælu frid.

3. Gefdu oss nád ad þóknast þér, Þann, sem ad skeikar, styd þú fót, Sjálfur strid med oss, svo ad vér Sigrandi gaungum dauda mót.

## No. 86.

Lagid: Hjartad, þánkar, hugur, sinni.

Fram af dimmum fylgsnum nætur

Fögur þegar sólin skin, Haudrid gledi hljóma lætur, Hrædslan myrkra gjörvöll dvín; Gröf svo Jesús geinginn af Gledi-ljósid bjart oss gaf; Vegsemd, prís og eilíf æra Upprisnum sé Jesú kæra.

2. Þökk sé mikli þér, sigrari, Þú fángelsid grafar brauzt, Minnar hverfur mædu' andvari, Mitt skal á þér vruggt traust; Ef eg vona' ad eins á þig, Einginn hlutur skelfir mig; Af deyd Jesús uppreis blídur, Eilíft lífid mér frambýdur.

3. Víki' eg ei af vegi dyggda, Volædi þó ami mér, Og sjúkdómur afli hryggda, En mótlæti kremja fer; Ofund, hatur ef mig hrjá, Adstod vina hverfur frá, Vininn Jesúm á eg eina, Oruggur hans tryggd fæ reyna.

4. Eingin daudans ógn mig hrekur, Eg hann fús og gladur finn; Mitt

dupt Jesús minn uppvekur, Mér lif gefur annad sinn; Í grøf skil eg eptir mynd Eymdar, vott um neyd og synd, Brodd sá daudans brotid hefur, Betra lif mér sídan gefur.

5. Hættur eingar hér á jördu Hrædslu skotid inn mér fá, Böndin synda heljar hördu Hrøkkva, sæll eg lifi þá. O Jesú upprisni minn! Eg sé frelsis-kraptinn þinn, Eg medkenni elsku þina, Ad þér taktu sálu mina.

## No. 87.

Lagid: Hver sem ljúfan gud lætur ráda.

Lifs bodunar dag gud nú gefur, Gledjist kristnir menn, drottni í, Af grøf Jesús út geingid hefur, Ekki gat daudinn hamlad því, Ei skyldi liggja' í henni hann, Hann upprcis, frægsta sigur vann.

2. Viljugur synda vorra byrdi Vor

Jesús bar, þó krossi á, Víss lífs upprisa oss að yrði, Uppreis hann fyrstur dauða frá; Iðrandi huggist andi hér, Eptir dauðann líf fáum vér.

3. O, góði faðir, gef þinn andi Gjøri sér bústað hjá oss nú, Að hver á dyggða stigum standi, Styrki, von efli' og sanna trú, Svo eigum víst á himnum hnoss Heilla, sem Jesús ávann oss.

## No. 88.

Lagið: Faðir vor, sem á himnum ert.

Jesús lifir, eg einnig með, Ei skal dauðinn mitt sturla geð; Hann lifir, eins mun aptur mig Uppvekja maktin guððómlig, Og forklárun skrýða skærri þá; Skal það sú von, eg byggi' uppá.

2. Jesús lifir, jarðríkið hér Jeg veit að honum gefið er; Hans líking

eg og einnig næ, Um eilífð ríkja' og lifa fæ; Guð efnir það, hann oss nam tjá; Það er sú von, eg byggi' upp á.

3. Jesús lifir, hver efast fer, Æru guðs stóra niðrun tér, Náð sinni lofað hefur hann Hverjum, er synda iðrast vann; Um eilífð skúfar eingum frá; Það er sú von, eg byggi' upp á.

4. Jesús lifir til lukku mér, Lífið mitt allt því honum ber; Eg vil með hreinum hjartans-sið Holdslystir minar stríða við; Þeim veiku krapta vill hann ljá; Von sú er það, eg byggi' upp á.

5. Jesús lifir, það víst eg veit, Við hann mig skilur ekki neitt, Vellyst, armæða, veröld flá Véla skal mig ei honum frá, Hans aðstoð þar til eg mun fá, Er það sú von eg treysti' upp á.

6. Jesús lifir, því orðinn er Inn-

gángur lífsins daudinn mér; O, hvílíkt traust, þá helid slær, Hér af mín sála tekid fær, Drugg í trúnni innir þá: O, minn Jesú, þig treysti' eg á.

## No. 89.

Lagid: Jesú, þínar opnu undir.

Jesús uppreis, önd mín fagna Ódaudleika vissu þins; Samsýng einglum, sýng, ei þagna, Sigurhrós lausnara þíns; Fyrir hans líf eg eflaust á Upp ad rísa', og vænta má Um eilífd gæda', er aldrei þrjóta, Ódaudlegur fá ad njóta.

2. Jesús uppreis, gledi-gnóttir Guds sonar líf færir mér; Heljar burtu hverfur ótti, Hans med dauda' eg leystur er; Sjá dómarinn sannar þad, Sem sagdi: „allt er fullkomnad". Þessa vissu þar um gefur, Þad af dauda risid hefur.

3. Jesús uppreis, vottuð vissa, Að var frá guði fræði hans, Að heimur skyldi' ei hana missa, Hann dó vottur sannleikans, Otal guðdóms undrum þann, Í lífinu styrkti hann; Loks guð vorn fræðara vekur, Vafa allan burt svo tekur.

4. Jesús uppreis, eg má treysta Orðum hans í lífi' og deyð; Þetta skal minn huga hreysta Í hörmúng, skorti, sorg og neyð; Já, þó breysk-ur hrasi' eg hér, Hann er líf og uppreisn mér, Í trú hann hver að sér vefur, Eins þó deyi, lífið hefur.

5. Jesús uppreis, erfð að taka, Og öllum nöfnum hærra nafn; Hugg-un sú skal hjá mér vaka Hrelldum sárt við rauna safn, Með honum ef eg ljúfur lið, Líka' hans ríkis erfðar bið; Eptir kross guð krýndi soninn, Krossberenda er sama vonin.

6. Jesús uppreis, eg vil strída, Og trúr hlaupid þreyta mitt; Lær þú drottni, hold mitt, hlýda, Hann uppvekur duptid þitt, Önd og líkam hreinsa hér; Helgudum Jesús farsæld þér Holds og andar hefur fundid, Hann þá reis af grafar-blundi.

7. Jesús uppreis, Jesús lifir, Jesú líf er lífid mitt, Sigur hans lífs óvin yfir, Önd min, sigurhrós er þitt; Í dauda sál' min djørf fær sagt: Daudi, grøf, hvar er þín makt? Undan henni er eg hrifinn; Eg veit frelsari minn lifir.

## No. 90.

Lagid: Kristur reis upp frá daudum.

Upprisinn er nú Kristur, Af øllum kvølum leystur, Af því gledjumst nú allir vér, Jesús vor hjálp og huggun er, Honum pris ber.

2. Frá daudum nema' hann færi, Fánýt vor trúa væri; Drottinn vor Jesús daudann vann, Dýrkum og lofum því allir hann; Hátt prísum hann.

## No. 91.

Med sínu lagi.

Kristur reis upp frá daudum, Leysti' hann allan heiminn af naudum, Því skulum vér allir gladir vera, Lofa' og dýrka vorn lausnara, Hallelúja.

---

# 9. Jesú uppstigning.

## No. 92.

Med sínu lagi.

Í dag þá hátíd høldum vér, Til himna sté vor herra; Eilífi gud, vér þøkkum þér, Þig bidjum: virztu' ad vera Vor aumra manna verndin blíd;

Veraldar kvøl er mørg og stríd, Hjálp oss hana að bera. Hallelúja, hallelúja!

2. Lof sé gudi, vor lausn er gjørd; Leid til farsældar búid Hefur oss Jesús, hér frá jørd Til himna sídan snúid. Hver, sem trúir, fær føgnud þann, Fyrir það sig tilbúa kann, Hold í grøf hvíla lúid. Halleljúja, hallelúja!

3. Þeir leita ekki lausnarans, Sem liggja' í girndum synda, Því lukt er himnaríki hans Holdi og blódi blinda. Trúin á gud sé sønn og hrein, Svo mun lífid í hverri grein Til hans á himna stunda. Hallelúja, hallelúja!

4. Guds børn hér jafnan búa sig Burtu til himna=ferda, Holdsins girndum og heimsins sið Heilaglega sér forda; Med trú og ást sjá upp í hæd, En gud ofan med sinni náð, Fram til þess fundir verda. Hallelúja, hallelúja!

5. Við tignardegi þá tøkum fyrst, Til sín lætur guð oss koma, Samlíka gjørir sjálfum Krist' Í sælu, dýrð og ljóma; Þá hljótum føgnuð, frið og hlíf, Fulla sælu og eilíft líf; Guð gefi oss þann sóma. Hallelúja hallelúja!

## No. 93.

Lagið: Guði lof skal önd mín inna.

Heiðri guðs helgi skarinn Herrann Jesúm, þeim veldið ber; Hann fyrst til himna' er farinn, Hjálpin jarðar fullkomnuð er; Vegsemdar-ríki ræður, Rétt-trúuð guðs børnin, Sem eru hans samlagsbræður, Sjálfur þar leiðir inn; Hans orð oss veginn vísa, Vor stjórnari hann er; Þá miskun þekkja' og prísa Þeim endurleystu ber.

2. Þótt á lífs umferð megum Eymda mörg reyna hretviðrin, Samt

vér í upphæð eigum Inngaungu von í himininn; Ofbjóða skal mér ekki Andstreymi nokkurt hér, Í trúnni því eg þekki, Það drottins barn eg er; Þessa lífs mjøg stutt mæða Metast sem ekkert skal Mót unaðsemd upphæða Í dýrðarinnar sal.

3. Heiðri því guðs herskarinn Heims frelsara, hvers valdið er; Hann er til himins farinn, Hann náð gjørvallri jørðu tér; Kné bæði og hjørtu hneigið Fyrir honum, er tilbjó Yður þá víst, sem eigið Í himinsælda-ró; O, þann fagnaðar fundinn, Er frelsarann náum sjá. Sú vildi' eg sælustundin Senn kæmi, amen, já.

## No. 94.

Lagið: Í dag eitt blessað barnið er.

Allt er fullkomnað, af því vor Á himna' er drottinn farinn; Í gleðisaung

tók undir stór Eingla gladur herskar-
inn; Sýng og med þeim, min sæla ønd,
Sá situr guds vid hægri hønd, Ei-
lífur, helgur herra. Øll verøld hann
er undir løgd; Æra sé Kristi jafnan
søgd Og dýrd, er ei má þverra.

(Seinasta versid af No. 56, bls. 91:
Med gledirausst og helgum hljóm).

## No. 95.

Lagid: Upp á fjallid Jesús vendi.

Jesús burt frá jørdu vendi, Jafn-
skjótt upp til himna fór, Hjá guds
settist hægri hendi, Hafinn yfir eingla
kór, Oss sinn helga anda sendi Ofan
af hædum drottinn stór.

2. Fyrir drottni fall því nidur
Frelst af naudum Adams kyn, Sýng
þeim dýrd, oss sátta bidur, Sé þad
lof, ei yfirskyn; Oss er, brædur, feing-
inn fridur, Fødur eigum gud og vin.

No. 96.

Lagid: Af födurs hjarta barn er borid.

Eldri menn og yngri lofid Ætíd gud med hug' og raust, Von inngaungu' í himin hafid, Hólpnir, kvittir efa=laust Vid eymd stærsta, eignizt hæsta dýrd og nád, því gudi sé Lof, dýrd, heidur ad eilífu.

2. O, ad vér þá elsku þekktum, Overdskuldad gud oss gaf, Hans svo bod og vilja voktum, Vorum syndum látum af, J lifi' og dauda drottni hlýda, hann hjálpi oss og honum sé Hæst lof, heidur ad eilífu.

---

## 10. Jesú stjórn sinnar kirkju.

---

No. 97.

Med sinu lagi.

Ovinnanleg borg er vor gud, Oss

hann bezt verndað getur; Hann gaf oss styrk í hverri nauð, Hættunum takmörk setur; Ill girnd, óvinur vor, Eflir í gegn oss þor, Hennar eru' vél og völd Víst hættuleg, margföld, Hún guðs veg gánga letur.

2. Vor eiginn máttur veikur er, Vor þróttur strax er farinn, Einn oss í þrautum aðstoð tér, Af guði þar til kjörinn; Ef spyr þú hans heiti að, Herrann Jesús er það; Oss frelsað hefur hann; Hver má við jafnast þann? Sá er jafnan sigrarinn.

3. Illþýðis blinda æði-her, Oss þó hann vilji hrella, Vér óttumst ei, vor Jesús er Vort traust og hjálpar-hella; Hann dramb og heimsins makt Hefur að velli lagt; Hver, sem finnst honum trúr, Háskasemd leysist úr, Þann má heims flærð ei fella.

4. Börn, huggun Jesú heilagt orð

Heims er gegn villusnörum, Ofbeldi hræðumst ei né morð, Allir hugstyrkir svörum: Þó missa verðum vér, Í veröld hvað kærast er: Auðnu, líf, allt vort hér, Ávinning dauðinn lér, Til guðs í fullsæld förum.

5. Miskunnar-faðirinn, mildi guð, Mest sé þér dýrð um heiminn, Svo þú oss dýrsta sýndir náð, Son þinn er til vor kominn, Er sínu orði með Oss veiti rósamt geð, Og veg þinn vita lét, Víst oss á himnum hét, Heill sú haldist oss, amen.

## No. 98.

Lagið: Heiður sé guði himnum á.

Eilífur guð gaf soninn sinn, Svo hann vort frelsi væri; Hans nafn er stórt, því heiðurinn Honum aldirnar færi; Hylli þann koníng himinn og

jørd, Hlýdni sýni og þakkargjørd, Lifs á þeim hvad helzt sig hrærir.

2. Undir hans stjórn hver óttast kann? Alls ríkis síns hann gætir, Þó heims øll vøldin herji' á hann Med hrekkjum og dramblæti; Hans bygging traust á bjargi er, Burt-slúnum því óvina-her Forsmán þúng og fjørtjón mætir.

3. Nádar-bodskapur og fridar-fregn Færist um jørd gjørvalla; Hjørtu mannanna góð og gegn Gæzku hans því ákalla; Finna og reyna fá-um vér, Frelsari vor ad Jesús er, Prísum hann um eilífd alla.

4. Honum, sem yfir himni er Herra í dýrd ríkjandi, Allt, hvad lífs hefur anda' í sér, Eilífa lofgjørd vandi; Látum hug, mál og líf vort hér Lofa hann, sem svo mikill er, Til hans vor trú stødug standi.

## No. 99.

Lagid: Heidrum vér gud af huga' og sál'.

Eilífri lofgjørd offrum vér, O drottinn, Jesús Kristur, þér; Ástfús til vor komst ofan þú, Í vegsemdinni ríkir nú; Þinna frelsingja athvarf er Ætíd stødugt hjá sjálfum þér, Hvad helzt mótdrægt ad høndum ber.

2. Undir þitt veldi audmjúklig, Øll skepna, Jesú, beygir sig; Heims vøldin øll þó hverfi á braut, Herra, þitt ríki' ei enda hlaut; Byggt á sannleika eitt þad er, Óhultir skulum hlýdnast þér, Og treysta, hverju fram sem fer.

3. Kunnur er þér veikleiki vor, Vor minnstu því, svo ekkert spor Heims flærdir oss þér hreki frá; Haf oss í miskun gætur á, Styrk vora trú, þinn fær oss frid, Framleid, og gef vid þína hlid Eilífa sælu og andargrid.

## No. 100.

Lagid: Jesús Kristur ad Jórdan kom.

O, drottinn Jesú, útbreid þú Á medal vor þitt ríki; Efi, villur og ódyggd nú Vid ords þíns birtu víki; Vizka, tryggd, elska innilig, Unun og fridinn næri, Uns sjáum ríkja' um eilífd þig; Øll veröld lof þér færi, Frelsarinn, Kristur kæri.

## No. 101.

Lagid: Hver sem ad reisir hæga byggd.

Brodd daudans óttast ekki ber, Ei sigur grafarinnar; Rád guds af Jesú uppfyllt er, Og lífs-von trúar minnar. Frelsaranum hver fylgja vann, Far-sældar-leid æ geingur hann, Ødlast heill andar sinnar.

2. Mikill, ó, Jesú minn, ertiþú, Mikill ríkir á hædum; Utbreidist sann-leiks-ord þitt nú, Allt krýnir verk

þitt gæðum; Þú leiðir, styrkir, laðar að þér Lýð þann, sem dyggða skartið ber, Og lof þínum færir fræðum.

3. Mikill, ó, Jesú minn, ert þú, Mitt líf, þá hnig eg dauður, Andlát ei framar óttast nú, Eg skil glaður við hauður; Í gegnum dauðans dal eg fer, Drottinn, um eilífð sæll hjá þér Lífs götu' eg geing ótrauður.

4. Hjá þér um aldir, ó Jesú, Önd minni frið þú gefur; Himneskrar sælu henni þú Hnoss eilíft búið hefur. Kalla mig heim, nær þóknast þér, Þann gef vegsemdar skrúða mér, Útvalda sem umvefur.

## No. 102.

Lagið: Skaparinn stjarna, herra hreinn.

Jesú, þín kristni kýs þig nú, Kóngur hennar einn heitir þú, Stjórn þín henni svo haldi við, Að himneskum nái dýrðar-frið.

## 11. Guds andi og ord.

### No. 103.

Lagid: Gjørvøll kristnin skal gledjast nú.

Hver má i riki herrans naud Hjá vorum fødur granda, Svo framt trú i þvi, sem hann baud, Sál vor og hjørtu standa? Svo stór hans fødur-alúd er, Ordsins ljós tendrad fyrir oss ber; Vér leidumst af hans anda.

2. O gud, vér þøkkum ordsins gjøf, Oss þad um sannleik frædi; Veit, ad þad allt ad vorri grøf Virdum, sem himnesk gædi. Efl þú hjá oss þad andartraust, Oskelfdur hver og hræsnislaust Þess krapt med-kenna nædi.

3. Vér ef frá dyggda vikjum sid, En veljum illsku ljóta, Þitt heilagt ord oss varar vid, Og vekur til yfir-bóta. Nær þúngbær oss þin hirtir

hönd, Huggun orðsins þá styrkir önd, Trú, von og traust ei þrjóta.

4. Lát, guð, þitt voldugt visdómsmál Vort breyska styrkja sinni, Svo vafatrú og villan hál Viðnám þar aldrei finni; Andi þinn veiti oss öflugt geð, Öruggum fæti gaungum með Á sannleiks þjóðbraut þinni.

5. Gefi það miskun guðs og náð, Gjörvöll uns tíð er samin, Að við hans orðs og anda ráð Öll kristin hjörð sé tamin, Þá eigum himna vissa vist; Veit oss það, guð, fyrir Jesúm Krist; Heyr og bænheyr oss, amen.

## No. 104.

Með sínu lagi.

Lofi guð í hans helgidóm Hans kristnir menn á jörðu, Segi lof, þökk með sínum róm, Svo orð hans við-

fræg yrdu; Þau um lønd øll Ord hljómi snjøll, Hans makt og heidri lýsi, Hátign vors guds þeir prisi.

2. Ad hjartans son sinn, herrann Krist, Hefur fyrir oss gefid, Þar af feingum vér fødurs ást, Fyrir hans dauda lifid; Samvizkan hrein Vid synda-mein Sig af guds elsku gledur, Abba, ó fadir, bidur.

3. Bodad er nú hans blessad ord Berlega øllum mønnum; Frid og huggun þad færdi jørd, Frjóvgadi byggdum sønnum; Hvad andad fær, Guds gáfur þær Gøfgi, þakki mest leingi, Og hallelúja sýngi.

4. Hátt lofid gud á himni' og jørd, Hans nád og gæzku játid, Hér sem hefur sín heiløg ord Hljóma fyrir oss látid; Veri þau oss Á vegum ljós, Vor hlífd í freistni' og voda, Og huggun helg í dauda.

## No. 105.

Lagið: Adams barn, synd þín svo var stór.

Drottinn, send oss nú anda þinn, Ást og náð í vor hjörtu inn, Svo þínum sannleik trúum; Gef oss þann skilning, hjarta og hug, Heiløg orð þín að girnumst mjøg, Af hjarta til þín oss snúum. O, guð, vor faðir, gef þá náð, Gjørðir, ræða og allt vort ráð Verði til lofs þér einum; Alla hindrun lát hverfa frá, Hvað efla kann, oss lát nú fá, Að gánga á vegi þínum.

2. Drottinn, í tíma vek oss vel, Ei vitum vér, hvað laung er dvøl, Nær linna lífsins stundir; Kenn oss þinn ótta, elsku' og trú, Anda þinn lát oss fræða nú, Svo jafnan høtum syndir; Raungum lærdómi oss vara við, Veraldar flærð og ljótum sið, Að ei kunni oss blinda, Sjálfur oss

miskun sendu hér, Að sálar-fögnuð erfum vér, Og styrk oss allt til enda.

## No. 106.

Lagið: Nú biðjum vér heilagan anda.

Þitt orð og andi, ó guð, veit nú, Að oss með réttri samanteingi trú; Kristið höfum heiti, Helga Krists lærdóma Í hreinum hann varðveiti Hjá oss jafnan blóma. Herra, heyr þá bón.

2. Ó, visdóms andi, veit oss það skyn, Að öll sé heill að eiga Jesúm vin; Hans að boðum hlýðum, Hans í fótspor fetum, Svo hreppt með helgum lýðum Himnafögnuð getum. Herra, heyr þá bón.

3. Ó, andi friðar, órøskuð veit Vor bræðra-eining verði hvern um reit, Svo í sæld og voða Samhuga framförum, Hver annan aðstoða Í

øllum lífsins kjørum. Herra, heyr þá bón.

4. O, guddóms kraptur, uppfyll vort geð Á dauðastundu hæstu hugg-un með; Að vér eingu virðum Allan heimsins blóma, Um eilífðar hirð-um Að eins dýrð og ljóma. Herra, heyr þá bón.

## No. 107.

Lagið: Guð miskuni nú øllum oss.

Oss sýna, Jesú, orð þín blíð Allan þinn kærleik heita; Þinn anda lát um æfitíð Oss sálar-føgnuð veita. Þetta hin sanna unan er Oss, þín-um kristnum mønnum; Unn hennar leitum ætíð hér Á dyggða-vegi sønn-um, Að hjá þér umbun kønnum.

## No. 108.

Lagið: Heiður sé guði himnum á.

Lofgjørð sé þér, guð gæzku-hár, Sem

gløggt þekkir vora veiki, Einn er þinn vísdóms-andi klár, Er ljós í myrkr-um kveykir; Vorum anda þú veitir dug, Vísdóms leidir og dyggda veg, Ad oss fótur ekki skeiki.

2. Frí og laus øllum ótta frá Áfram lífsveg hver keppir; myrkrid ei villu valda má, Vér øruggt stríd-um heppnir; Þinn andi, Jesú, æ og nú Oss þar um gefur vissa trú, Ad sannkristinn sælu hreppir.

## No. 109.

Med sínu lagi.

Gud miskuni nú øllum oss Og gefi blessun sína, Og láti sinna orda ljós Til eilífs lífs oss skína, Svo vilja hans og verkin øll Í verøld þekkja kynnum, Og Jesú Kristi kroptug heill Kunnug sé øllum mønnum, Ad gjarnan hlýdi honum.

2. Þér, guði, lof og þakkargjörð Þinn lýður jafnan játi, Og fagni sérhvert fólk á jörð, Fagran saung heyra láti, Að þú dómari ert á jörð, Illsku liður því eigi; Verndar og leiðir oss þitt orð, Allt fólk styrkir, svo megi Gánga á réttum vegi.

3. Þakki þér, guð, og lofi þig Þitt fólk lotníngu meður; Að dyggðum mannkyn auðgi sig, Orð þitt oss fræðir, gleður. Guð faðir, son og andi hreinn, Oss blessi alla saman, Vegsami hann og óttist einn Allt mannkynið um heiminn; Segjum af hjarta, amen.

## No. 110.

Með sínu lagi.

Anda þinn, guð, mér gef þú víst, Grátandi eg þess beiði, Að villi mig hið vonda síst, Veg minn allan þú

greidir; Medan eg lifi hér, Og ljær þú timann mér, Lát mig vel læra' ad deyja.

## 12. Fullsæla eptir daudann.

### No. 111.

Lagid: Um daudann gef þú, drottinn, mér.

Sídasti dagur máske minn Mér sé kominn allnærri; Otta þó hjá mér eg ei finn, Er drottins nádin stærri, Er lætur stríd mitt enda fá, Og mér kórónu himnum á Af gæzku gefur skærri.

2. Arftöku sælu' á ædra stad Utvegad Jesús hefur; Elska vil eg hann æ fyrir þad, J deyd hann frid mér gefur; J gröf eg hvila óttast sízt, Ur henni þvi minn drottinn víst Mig til himins upphefur.

3. Haldi þvi gröfin, medan má,

Minu holdi þúngbæra, Önd min lyptir sér upp þar frá; Ahlaup daudans kann næra Idrunarlausum ótta hér; Avarp hans gledilegt er mér, Mig til guds mun hann færa.

4. Frá heimsins styrjøld, hættu' og neyd, Til himins sál min leitar, Í hjálpar von eg hleyp mitt skeid; Med hópum einglasveitar Samhljóda háa sýng lofgjørd Syni guds birtum hér á jørd, Sem heill mér hét ad veita.

5. Frá himninum mig fékk áséd Fadir med elsku heita, Barnarétt syni sinum med Af sannri nád réd veita; Þegar strid mitt á enda er, Í sigurlaun hann gefur mér Hnoss þad, eg hér ad leita.

6. Réttlátra hold sád segjast má, Sett í mold grafarinnar; Gud þad deginum effta á Med ordi maktar sinnar Lifgar; krapt sama þekki' eg

þar, Og þá verøld fyrst skøpud var, Í undrum upprisunnar.

7. Gud, eg legg hønd á munninn minn, En mikla stjórnun þína; Veit mér ad skilja vilja þinn, Vil eg þér hlýdni sýna; Eg býst øruggur burt frá heim, Vid gladur eptir dauda þeim, Sem endar ánaud mína.

8. Nær eg, ó gud, þig hef mér hjá, Hef eg nóg eptirlæti; Dauda og grafar deyfir þrá Dýrd, er eg sídar mæti; Andláts nálægd mér ógnar sízt, Í lofsaung harmaraustin snýst Vid himna-guds hásæti.

## No. 112.

Lagid: Heidrum vér gud af huga' og sál.

O gud, lifstídin ódum þver, Er til betrunar gafstu mér; Hvad margra daga hef eg tøf Hér, þángad til eg leggst í grøf? Sælan og hólpinn segi'

eg þann, Sem nád hjá þér, minn drottinn, fann; Daudans nálægd ei hrædir hann.

2. Angrudu hjarta eg fæ med Opt minna vina legstad séd, Pá hugsun samt eg huggast vid: Hér blundid, vinir, sætt i frid. Sælan og hólpinn segi' eg þann, Sem nád hjá þér, minn drottinn, fann; Daudans nálægd ei hrædir hann.

3. Vid þessi leidi samt eg sé, Ad sæmdir, metord, lán og fé Er dupt einbert, þvi æsku' eg sá Ellinni visna likt sem strá. Sælan og hólpinn segi' eg þann, Sem nád hjá þér, minn drottinn, fann; Daudans nálægd ei hrædir hann.

4. Veiti mér nád þin væg og blíd, Vislega' ad brúka mina tíd; Til lofs þá jafnan lifi' eg þér, Lika fulltreysti', er deya fer, Og reyni sjálfur sann-

leik þann, Að sæll er hver, sem náð guðs fann; Dauðans nálægð ei hræðir hann.

5. O Jesú, fyrir auman mig Í dauðann gafstu sjálfan þig, Uppreist og uppstést, af því mér Er búin víst í dýrð hjá þér; Þín vegna náð og frið eg fann, Fagnandi því eg gánga kann Mót dauða, eg ei hræðist hann.

## No. 113.

Lagið: Á guð alleina.

Eilíf ánægja, Eg þér senn fagna má, Eg framgeing fræga Fullkomnun loks að fá, Krapt og gnótt gæða Gefur eilífðin mér, Hérvistar-mæða Heiti æskunnar ber, En lífið upphæða Aldur fullorðins er.

2. Þú gánginn greiðir, Guð minn, og kennir mér, Mig laðar, leiðir Til lífs eilífs hjá þér; Vak við dimmt

dauda Dags myrkur sé eg þvi Nýtt ljós, sem nauda Nemur burt gjørvøll ský, Og mér trú ótrauda Tendrar hjartanu í.

3. Hátt lífs-ord hljóma, Heyri' eg rødd Jesú hér; Von vid þá róma Vidréttist gløð í mér. Hvad kann mig hryggja? Heyri' eg guds sonar raust; Ei vil þá yggja, En alla von og traust Eg hans á skal byggja Ordunum kvídalaust.

4. Sál min og sinni Sér hradar nú og flýr J hæst heimkynni, Hvar eilíf gledi býr; Sú byggd guds blída Brosir þegar vid mér, Par sýng eg sídar Samsaung med eingla-her; Til þess fagnadar frída, Fadir, mig tilreid hér.

## No. 114.

Lagid: Gæzkuríkasti grædari minn.

Hvad sæll er eg, nær himnum á

Helgum guðs einglum ásamt má Lof og dýrð guði gjalda, Og mæla: Jesús mér allt var, Mín vernd í hrapi veraldar, Mín gleði' um aldir alda. Hann er Heill mér, Þeirrar stundar Fagna' eg fundi', Að fæ þar prísa Nafn Jesú blessað og lausn hans lýsa.

## No. 115.

Lagið: Jesús Kristur að Jórdan kom.

Lífsins herra, eg þakka hér, Þú eilífð mér tilreiðir, Og að þíns sonar orðið mér Útvegar frið og leiðir Ljós inn í myrkri; líf í deyð, Líkn í sút, ró í pínum Finn eg hjá Jesú, flýr því neyð, Flýr burt úr þánka mínum Otti með efa sínum.

2. Lof sé þér, manna leiðtoginn, Lof sé þér dýrð og æra, Fyrir orðið bæði' og anda þinn; Æ, láttu brjóst mitt næra Þá sönnu huggun, þá eg

frór Þeinki á eilífd mína, Uns þú von, sem er viss og stór, Virdist sjálfur ad krýna, Nær eg dýrd nálgast þína.

## No. 116.

Lagid: Sólin upprunnin er.

Skapari mildi minn, Minn drottinn kæri, Til lífs mig leiddir inn, Lof þér eg færi; A enda lífs Eg skal þér prís frammæla; Um dauda-dalinn hér Djarft geing, þvi ertu mér Mitt ljós, mín sæla.

2. Hvi skal grøf hræda mig Og heljar kífid, Jesús gaf sjálfan sig, Svo hefdi' eg lífid; Sjá, hann uppreis, Þá sigurvinning vísa Fæ eg og feril þann Feta, þvi eins og hann Eg skal upprísa.

3. Loks þegar hef eg hér Hlaupid trúr endad, Til betra lífs fram eg fer, Fæ sæll ad lenda J føgnud,

dýrd; Fyrir hástóli þinum Og sýng: gud sanni, þér Sé pris, eg leystur er Af øllum pinum.

## No. 117.

Lagid: Sólin upprunnin er.

Gud minn, eg þakka þér, Þú af náð hefur Eilift lif ætlad mér, Eingin því vefur Efasemd ønd; Ei skal mig grøfin hræda, Armæda lifs er leid, Liggur mitt æfiskeid Hédan til hæda.

2. Hvort munu vegsemd, vøld Veita lán stærra? Heims audur, heill margføld? Hnoss er mér kærra Gledi eilift, Gud, þig sjá og útvalda, Þad sýndir sjálfur mér; Sú von fyllist hjá þér Um aldir alda.

3. Eingin heims eymd mig hér Í výl nú leidir; Eg veit, hvad mætir mér, Minn veg framgreidir Í himna

dýrd; Hvad er, þad má hér lída? Gud upp í gledi-stad Gjørvallt um-bunar þad; Ei skal eg kvída.

## No. 118.

Lagid: Um daudann gef þú, drottinn, mér.

Þú gafst oss, fadir gódi, hér Pá gledivon ad finna, Ad gegnum deyd og grafir vér Gaungum til dýrdar þinnar; Sú von í hverri sorg og neyd, Og sídast oss í vorum deyd Lífgar, þá dagar linna.

## No. 119.

Lagid: Heidur og háleit æra.

O Jesú, von míns anda Upplyptir sér til þín, Til kraptarins hægri hand-ar; Hjá þér er unan mín, Og vonin á þér einum, En æ mín líkams-bønd Pvinga mig þúngum meinum, Pví styrk þú mína ønd, Nær eg vil þeinkja'

um þig, Minn þróttur veikan sig Vottar og vélar mig.

2. Hvad sælar þóttu þjódir, Þig litu hér á jørd? Hvad sælir hjarta-gódir, Heyrdu þitt lífsins ord? Þad ord, sem kvittun kæra Kyni syndugu vann Og himna-fridinn færa, Frelsti heim gjørvallan, En von oss øllum lér Um sælu-vist hjá þér, Þegar hérvistin þver.

3. Eg sé þig ei né heyri, Upphafdi Jesú minn; Madur af moldarleiri Ei megna nú um sinn Annad, en undrun mína Auglýsa hrærdur þér, Og prísa elsku þína, Of daupt þó lof mitt er, Á medan enn eg bý Adsetri daudans í, Allitlu orka því.

4. Eitthvert sinn holdsins hnígur Hreysi, en sálin mín Í betra líf uppstígur; Úr grøfum raustin þín Kalla

mun fólk þitt frelsta, Fögnudur gefst þá mér; Lífs eilífs hnossid helzta, A hæd sameinast þér; Þú ert, sá arf oss bjó, Osýnilegur þó Ert hér í heims óró.

5. Eitthvert sinn aptur kemur I dýrd ad krýna þú Hvern þann, sem hér sig temur A hlýdni, dyggd og trú, Min augu mig þann leysti Munu forklárud sjá, A hvern eg ádur treysti. O, von og gledi þá! O, þá dýrd, er eg finn! O, þá sæld, Jesú minn! Um eilífd er eg þinn.

---

# II. Bænar-sálmar.

## 1. Sannur kristindómur.

### No. 120.

Lagid: Adams barn, synd þín svo var stór.

Sælir eru þeir allir nú, An flekks

lífa í réttri trú, Guðs eptir boðum gánga; Vel er þeim, sem hans vitnis-burð Viljugir geyma hér á jörð, Af hug þar eptir lángar; Því hverjir gjarna guðs á veg Gánga jafnan, þeir varast mjög Misgjörð og synd margfalda. Herra, sem almáttugur ert, Öllum hefur þú boðið bert, Heilög orð þín að halda.

2. O guð, veit mér, að orðið þitt Alvarlegana lífið mitt Af hjarta haldið gæti; Nær sem eg blessuð boðorð þín Berlega set fyrir augun mín, Ögn og smán eingri mæti; Af öllum hug' eg þakka þér, Þú hefur kennt og sýndir mér Dýran rétt dóma þinna; Þín heilög boð eg halda vil, Herra, meðan eg lifi til; Lát mig þitt fylgi finna.

3. Hvernig veg æfi úngur mann Ostraffanlega gánga kann? Ef sér

vid ord þín heldur. Eg leita þín af heilum hug; Hjálp, svo med eingu verdi eg Frá þinni kenning felldur. Í hjarta minu hef eg fest Heiløg ord þín, svo varist mest, Móti þér grand ad gjøri. Lofadur sértu, sanni gud; Sannleikann þinn og heiløg bod Gef þú eg gjarna læri.

4. Med vørum minum eg vída skal Vitna um þinna dóma tal, Sem er þíns munns atkvædi, Af þinna vitnis-burda veg Verd eg gladur og feginn mjøg, Eins sem af alls kyns audi. O, ad mest ræda og ordin min Um heiløg séu bodord þín; Ef veg þinn vel um skoda, Dyggd og rádvendni æ þá ann, Ordum þinum ei gleyma kann Í sælu, sorg og voda.

5. Heidur, lof, dýrd med hreinni trú' Himneskum gudi fødur nú Sæt-lega skulum sýngja; Hans einka-syni,

Jesú Krist, Sem oss hefur med dauda leyst, Kennt leid til lífs ad gánga; Heilögum anda, er um heim Upplýsing, huggun gefur, þeim Sé prís og lofgjörd samin; Guds ordi med og adstod hans Arftöku' í ríki frelsarans Ödlumst og farsæld, amen.

## No. 121.

Lagid: Guds son kallar: komid til min.

Sá madur gódan finnur frid, Fótstig guds boda' er hélt sér vid, Holds girndum hættum stridir; Hann berst og á þau litur laun, Lofar gud eptir stridsins raun Sannri dyggd hans um sidir.

2. Ad sinni gaungu gætir vel, Grandvar lifir med einart þel, Ad þekking eykst og krapti; Þó breyskur sé, nýtt fær hann fjör, Og finnur

hér þau yndis-kjør, Sem gud fyrir sál hans skapti.

3. Í hjarta' og fyrir augum réd Æ hafa gud, sitt prófar ged Hvern dag í hans augliti; Sín harmar brot, en synda mein Samt grædir trú á Jesúm hrein, Fyrir hann heill ad hlyti.

4. Sig vandar trúr í sinni stétt, Sér skamtad lán guds notar rétt, Ágirnd og øfund hafnar; Vid lítil efni gud hans ged Gledur, þó audi sorgum med Hann adra sjái safna.

5. Guds hønd ef honum gnægtir lér, Gudi líkjast æ temur sér, Gefur gódfýsi medur, Farsæld ástvinar feg-inn jók, Forsvar dyggdugra jafnan tók, Aumstaddan óvin gledur.

6. Sú byrdin honum sýnist létt, Vid sína brædur skyldu rétt Sífellt ad gæta sinnar, Elskan til guds hans

eftir mátt, Elsku medbrædrum sýna þrátt, Allt vill med ástsemd vinna.

7. Líf þitt og æru ver hann víst, En velferd þinni spillir sízt, Þig sem medbródur metur, Þolgódur breyskleik þinn umber, Þánkinn sá: „gud minn uppgaf mér“, A hógværd sáttgjarna' hann hvetur.

8. Dug eykur þér á dyggda-stig Hans dæmi, æ ad vanda þig, Gott áform eflir, glædir; Því lífid, veit hann, gaf oss gud Til gódra verka', og øllum baud Eitt løgmál, eitt hjálprædi.

9. Hjálprád þetta, sem eilíft er, Einn sá gudhræddi finnur hér, Heill fær þad, harma stillir, Þrótt veitir, eykur þol í neyd, Þann hel ei skelfir, en í deyd Føgnudi sál' hans fyllir.

## No. 122.

Lagid: Oss lát þinn anda styrkja.

Hver guds ord geymir eigi, Gud segist þekkja þó, Sannleikann ekki segir, Sigrandi vantar trú; Hinn, sem trúir og hlýdir þeim, Af gudi' er endurfæddur, En ekki' af þessum heim.

2. Sá rétttrúadi sannar Sina trú kærleik med; Ef þú veizt betur en annar, Audsýn þá betra ged; Grundvöllud drottins ordum á Trúin manns hvetur hjarta, Hjálp og ást brædrum tjá.

3. Fyrir Jesúm gud oss gefur Guds barna rétt af nád; Hver þá von til hans hefur, Hann umflýr glæpa-rád, En Krists fótsporum fylgir hann, Svo sem sannkristinn madur, Sig vandar bezt sem kann.

4. Sá hlýdni gudi geldur, Gudi þakknæmur er; Hver, sem hans bod-

orð heldur, Hefur guðs elsku' í sér. Trúin í verkum hlýtur hrós, Því fagrar dyggðir dafna' Og daglega koma í ljós.

5. Hans er guð heill og gleði, Hreinan sem kærleik ber; Ást með auðsveipu geði Eingla-sveit guði tér. Guð er kærleikur, einginn kann Í náð hans hlutdeild hafa, Nema hafi kærleikann.

## No. 123.

Lagið: Oss lát þinn anda styrkja.

Um fram allt guði unna, Elska náúnga sinn, Orðin þín elska' og kunna, Ástríki Jesú minn, Og feril þinn að feta hér, Vor er farsældar-vegur, Vel, ef það stundum vér.

2. Rólega lífs þá líður Leið gegnum þennan heim; Oss Jesús eptir bíður; Inn í fögnuði þeim Eilífan sigur öðl-

umst vær, Hólpnir, heilir og sælir Hásæti drottins nær.

## No. 124.

Lagid: Heidur og háleit æra.

Sífelld umbreyting alla Æfi manns lodir vid; Sælan og sorg má kalla Sveimi oss jafnt á hlid; Skruggu-stormar styrjalda Stugga burt fridi' af jørd; Ad rádi þess alvalda Er þó sú plága gjørd. Gud, kenn þú mædu mér An møgls ad taka hér, Til lofs og þóknunar þér.

2. En þín forsjónin sama Samt blessar vora jørd, Med heillum fridi og frama, Því færum þakkargjørd; En þad oss þrávallt hendir, Pá mæda' i gledi snýst, Vareygdin frá oss vendir, Vor skadi þar af hlýzt. Gud, kenn þú gledi mér Med greind ad taka hér, Til lofs og þóknunar þér.

3. Allt þad, sem gott er, gefur Þín gæzka, drottinn minn; Allt gaf, sem hagad hefur, Hverjum visdómur þinn, Er því skylt, ad vér minnumst: Allt gjörir þú sem bezt, Þakklátir þannig finnumst, Og þitt rád prísum mest. Gef þú, ó gud, ad vér Getum æ lifad hér Til lofs og þóknunar þér.

## No. 125.

Lagid: Heimili vort og húsin med.

Sæll er sá mann, sem hafna kann Hrekkvísra manna rádi, Og syndugra vegi aldrei ann, Ei sat hjá skemmdar hádi, Heldur med vilja, hug og mátt, Hreinferduglega dag og nátt Ad guds løgmáli gádi.

2. Sá madur eins og eik sú er, Upp ver hjá vatna-straumi, A rétt-um tíma aldin ber, Ei fellur lauf né blómi; Allt gott, sem hann vill haf-

ast ad, Honum mun ætíd veitast þad Farsællega fram komi.

3. Þeir glæpa vegi gánga á, Og guds rádum ekki hlýda, Audnu þvílikri aldrei ná, Afelli heldur lída; Likt sem fisi á flatri jørd Feykja stormvidrin hvøss og hørd Um ýmsar álfur vída.

4. Illgjarnir kunna ekki því Uppreisn í dómi hljóta; Sannra guds vina søfnudi' í Sizt ódyggd lids má njóta; En gódra manna greidir veg Guds nád og miskun æfinleg, Ránglátra leid mun þrjóta.

5. Fødur, syni og anda sé Ædst dýrd um jørd og himin, Eins sem hún var ad upphafi, An enda verdi framin; Kenn oss ad halda kristinn sid, Kvittast og skilja syndir vid; Sá þad vill, sýngi amen.

## No. 126.

Lagid: I dag eitt blessad barnid er.

O Jesú, þitt er ordid oss Andleg leidarstjarna; Kristnina þína þetta ljós Æ þiggja láttu gjarna, Svo ad hún til þín snúi sér, Sig med hjarta gefi þér, Ovinum eigi hlýdi, Afstverkin þín ad eignumst vér, Og í þá dýrd, sem eilif er, Forum vér í fridi.

## No. 127.

Lagid: Hver sem ljúfan gud lætur ráda.

O fadir, mig þinn andi leidi Ordugan fram um lífsins veg, Ad girndir aldrei gæfu sneydi, Af glysi heims né blekkist eg; Kappkosta dyggdir kenn þú mér, Kraptana styrk, þá skeika fer.

2. Æ fadir, þú minn þróttinn veika Þekkir og alla sálu bezt; Af sannleiks-vegi ef eg skeika, Ei skynja hvad mér gagnar mest, Upplýsing

mína efl, ó guð, Upplýsi mig þín heilög boð.

3. Ást þín, drottinn, vill auðnu mína, Auðveldan dyggða gjörir stíg; Eg þó við raustu þegi þína, Er þrátt til skyldu kallar mig; Ónotuð stund leið allmörg hjá, Sem aldrei framar gagna má.

4. Lát, góði faðir, líkn ei þrjóta, Lít þú ofan í náð til mín; Þá eg veikur þín boð kann brjóta, Búin til reiðu hjálp sé þín; Hvet þú til skyldu vilja' og verk, Von mín sé jafnan á þér sterk.

## No. 128.

Lagið: Faðir vor, sem á himnum ert.

Bænheyr þú, faðir mildi, mig, Með trú öruggri' eg kalla á þig; Þú yfirgefur aldrei þann, Aðstoð þinni sem treysta vann; Minn vegur háll og

myrkur er, Miskuna því og hjálpa mér.

2. Pá dyggdar vil eg þræda stig, Právallt hindranir villa mig; Mitt i háska eg einatt er, Pá ætla hann vera fjærstan mér; Saklausri skemmtunn allopt á Aflvana dyggdir rasad fá.

3. Alskyggni drottinn, auga þitt Allt sér og þekkir hjartad mitt; Gef sú umþeinking æ sé sterk Vid øll mín fyrirtæki' og verk, Hugsun og gáng minn út og inn Adgætinn vandi' eg hvert eitt sinn.

4. Pá skal minn aldrei fótur fá Ferli dyggdanna skeikad á; Eg skal þá bædi ár og sid I minni reiknings hafa tíd; Pá skal eg, gud minn, þakka þér; Pá sé velkominn daudinn mér.

## No. 129.

Lagid: Adams barn, synd þin svo var stór.

Nú má ei framar næsta blind Naudbeygja mig og þrælka synd; Einn gud, mér ætid rádir, Eg þvi tilheyri allur þér; I skirninni þau kjørin hér, fadir, af þér eg þádi. Illgjørdum hafna hét eg þá, Hédan af vil eg lof þér tjá, Og hlýda af øllum mætti; Viljann þú, drottinn, sjálfur sér, En synd útrýma' eg dádlaus er, nema þin nád þad bætti.

2. Eg skal þvi daga alla þig Akalla, gud, sem styrkir mig Veikan og vilja' einlægan; Réttu mér þina hjálparhønd, Hart þá vid syndum spornar ønd, Send anda nádar nægan; þad láttu, gódi gud, mig fá, Grátbænir minar heyr þú á, Liknsemd þin lid mér veiti, Og i þvi stránga stridi megn, Ad standa

lokkun synda gegn, Eg svo þeim aldrei skeyti.

## No. 130.

Lagid: Adams barn, synd þin svo var stór.

Vér bidjum þig, ó Jesú Krist, I vor hjörtu vel innrætist Þin kröptug kenning hreina; Vér játum synd og veikleik vorn, Viljum þó gjarna vera þin börn, Og þóknast þér alleina. Send oss nú nád og sanna ást, Svo hjörtun megi uppfyllast Med trú og kærleik klárum, Lastvarir svo ad lif- um hér, Lika deyjum, ad erfum vér Frid med frelsara vorum.

## No. 131.

Lagid: A gud alleina.

O gud alvaldi, Öll nafn og vald þitt hátt Um allar aldir Audmjúkt vegsamar þrátt Andafjöld ædsta; Um eilifd svo sem nú Eins fyrir smæsta

Umhyggja þin er trú, Og því allra-
stærsta, Er skópst og gjørdir þú.

2. Ljósid framleiddi Og líf þitt
guddóms-ord, Ord myrkrum eyddi,
Ord skóp himin og jørd; Ord þitt
upplýsir Alla, sem trúa þér, Veittu
þad visi A veg farsældar mér, Hlýd-
inn hér svo prisi, Herra gud, þig,
sem ber.

3. Einn ædsti kraptur Þinn øllu
heldur vid, Er ádur skaptir Sitt á-
kvardada mid; Vis, helgur, vægur,
Vera fullkomin mest, An enda frægur
Ertu, þér likt ei sést, Einn gud øllu
nægur, Sem øllu stjórnar bezt.

4. Styrk mig ad standa Stigun-
um Jesú á, Og verk min vanda;
Verdur eg gjørist þá, Imynd ad bera,
O drottinn, þina hér; Lát lofgjørd
vera Lifid mitt gjørvallt þér, Uns þig,
ædsti herra, Um eilifd prisa fer.

## No. 132.

Lagid: Í dag eitt blessad barnid er.

Vil eg, minn gud, á valdid þitt, Viljann og rád mitt gefa; En, æ, þú sér vanmegnid mitt, Mátt þinn eg sízt þó efa; Hjálpa þú mér og helga bezt Mitt hjarta, rót ad nái' ei fest Synd, né til glæpa ginni; Veikur lítt standast vid eg má, Vinnur hún einatt sigur á Byrjadri betrun minni.

2. Þú, Jesús, kenndir, kvaldist, dóst, Kvittadir brotin manna; Ad þú fyrir mig leidst, er ljóst, Laungun þad veki sanna, Ferli þínum ad fylgja hér; Framferdi þitt sé regla mér, Eg svo lífs-skeid útendi Med heill, og nái marki því, Mín farsæld sem er fólgin í, Og hnoss mér verdi' í hendi.

3. Æ, þángad, sem ad eingin tár Augun væta, mitt sinni Og eptir-

lángan ætíd stár, O þau fridar-heimkynni, Hvar æ er gledin æfinlig, Eg sæ þar graunt ad skoda þig, Gud, hvers eg gjarna leita; O þann frábæra frelsis-dag, Fullsælu til þá rauna hag Á sídan um skal breyta.

## No. 133.

Lagid: O drottinn allsvaldandi.

Gud minn, hvers gæzku stóra Í gjørdum øllum lita má, Heimar og himin-kórar Henni lof um eilifd tjá; Hvad sem er, Og eg kenni, Eda mér Hug um renni, Lýsir þér, Lifandi gud, og henni.

2. Í sannleiks-ordi mæta Eg veit sælu heitna mér, Trúlega' ef gjøri gæta, Gud, þins vilja og hlýdnast þér; Kunni' eg fá Kórónu' og vinna Kjør þau há, Allt er minna, Ædst hvad má Í verøldu finna.

3. Hjálpa mér, herra', ad gánga, Sem heilagt ord þitt kenna vann; Af réttri gøtu' á ránga Ráfa eg annars villtur kann; En eg þér Ætíd treysti, Opt mig hér Rád þín reisti, Mót syndum mér Sendi styrk og hreysti.

4. Synda-lyst allri eyda, Adstod, drottinn, veittu mér, Þinn anda lát mig leida, Svo lifi eg grandvar, eins og ber, Dyggdar á Adal-vegi, Eg ad sjá Ljós þitt megi, Og von þér hjá Vegsemdar loks eigi.

5. Mér kann máske ad vera Mín endalyktin hardla nær, Veit mér þá huggun, herra, Helstundin gef ad komi vær, Daudi minn Verdi vægur, Vilji þinn Sé mér þægur, Leid mig inn Lífs í farsæld nægu.

## No. 134.

Lagid: Upp á fjallid Jesús vendi.

Á þig, Jesú Krist, eg kalla, Krapt mér auka þig eg bid; Þú mér hjálpar æsi alla, Ef eg tryggdir held þig vid; Jesú, létt mér láttu falla, Ad læra helgan dyggda-sid.

2. Eg svo hlýdi ætíd þínum Elsku-bodum, herra minn, Votti trú í verkum mínum, Vandlega reki feril þinn, Þinni raust med sannleik sínum Sifellt gegni varfærinn.

3. Fullkomnun, sem fyrir mig lagdir, Framt ástunda gef þú mér, Þá ad elska, sem þú sagdir, Samt af alhug' varast hér, Ad fleka neinn med følsku bragdi, Fyrst ad brædur erum vér.

4. Veit, ad þad, sem heimur heldur Heill, ei dragi mig frá þér; Þad, sem fyrir gott hann geldur, Gjarna

spott og vanþökk er; En það sælu æðstu veldur, Ef vér, drottinn, hlýðnumst þér.

5. Þá skal trú mín, þýði herra, Þægan ávöxt bera sinn, Drottins ætíð dýrðin vera, Dug og krapt er efldi minn; Fasta vörn skal fyrir bera, Freistar mín ef heimurinn.

6. Heyrir þú mitt hróp, eg treysti, Herra, þér, og stenzt eg þá; Þó mín syndir þrávallt freisti, Þú mér aldrei víkur frá, En mér sendir sanna hreysti, Sigri frægum loksins ná.

## No. 135.

Lagið: Jesús Kristur á krossi var.

Faðir ljósanna, lát þú mér Lýsa jafnan í veröld hér Ljós þinna lífsins orða. Eg fel mig, drottinn, einum þér, Illri vantrú mér forða.

## No. 136.

Lagid: Himna rós, leid og ljós.

O, þú hár, Herra klár, Hver æ til varst, Ert og verdur, Allt vel gjørdir, Alvís, Rædur geim Himna' og heim, Hverju' um sitt mid Gefur allt Gott ávallt, Gud, eg þig bid.

2. Gef þú mér Heilsu hér, Hugskot upplýst, Vid þinn ótta, Voldugi drottinn, Vant sé, Heill er þad; Unn mér, ad Ord min vandi; Þar til mér Hjálpi hér Helgur andi.

3. Ad gjøra rétt, Lát mér létt Og ljúfast falla, J hverju sinni Hvad sem vinn eg, Hér med Verki því Veit mér í Vidgáng hljóta, Ødrum hér Eins og mér Allt til bóta.

4. Ræta ged Kærleik med Kenn mér hvern vid, Sem mins guds vild Og minni skyldu' Ei mót er; Henni frá Fjandskaps-þrá Fæli eingin,

Fram svo eg Frjáls minn veg Fái geingid.

5. Gegnum neyd Lífs þó leid Liggi, gud minn, Ei lát vÿla, heldur hvíla Hug vid Von og traust Vafalaust, Veit og þad mér, Blindi' ei sé, En brúkad sé Bezt til lofs þér.

6. Þegar hrjá Hel mig á, Herra, gef mér Sætan blund Vid sídstu stund, En sé mín J fødur hønd Falin ønd, Og fari glød þá Upp til þín, Er þér mín Eilíf sæld hjá.

## No. 137.

Med sínu lagi.

Herra gud í himnaríki, Hann oss sinn vilja kenndi Er hann ofan á jardríki Oss tíu bodord sendi.

2. Fyrsta bodord einkum átt Af øll-um hug ad merkja: Hjágudi' einga þú hafa mátt, Hann einn skalt elska og dÿrka.

3. Annad: minnstu med audmjúk hót Ætid med guds nafn fara, Og hann bidja af hjartans rót, Heidra og þakkir gjøra.

4. Pridja hans bod hugleida skalt: Hvíldardaginn ad helga; Guds ord heyr þú og gjarna halt, Girnd heims-ins skalt ei fylgja.

5. Fjórda: heidra med fullri ást Fødur og þína módur; Vid yfirmenn skaltu aldrei sjást Ohlýdinn, þver né reidur.

6. Fimmta: ei slá med heipt i hel, Hold manna skalt ei meida, Heldur forda og frelsa vel, Frá voda hvern mann leida.

7. Sjøtta: vid hór þig vara skalt, Vilja holdsins ei gjøra, Hjúskap eda hreinlifi halt; Hóf lát þér þekk-ast vera.

8. Sjounda: einkis áttu fé Okra,

stela né ræna, Heldur styrkja, ad haldid sé, Hjálpa, gefa og lána.

9. Áttunda bod: ei mæla mátt Meinvitni, róg né lygi, Náúnga þinn þú afsaka' átt, Ad heidri halda megi.

10. Níunda: girnast ekki átt Annara hús med slærdum; Heldur styrkja' af huga' og mátt, Ad haldist eign þeirra' í værdum.

11. Tíunda: hreinn í hug vert þú, Hans kvinnu girnstu aldrei, Heldur óska, ad ást og trú Vid eiginn mann sinn haldi.

12. Gud fadir, son og andi hreinn Oss virdist nád ad senda, Ad þessi bod hans hver og einn Haldi til lífsins enda.

---

## 2. Iðran, trú og synda-fyrir-gefning.

### No. 138.

Með sínu lagi.

Til þín, heilagi herra guð, Hef eg lypt sálu minni Af hug og hjarta' í hverri neyð, Hjástoð treystandi þinni; Láttu mig aldrei líða smán, Olukku, brigzl né sálar-tjón, Svo fjandmenn ei fagna kunni.

2. Ofsmánaðir verða allir þeir, Eptir þér hverja lángar, En svívirðast munu meir og meir Svo margir, sem afvega gánga, Og hafna þinni hjálp og náð, En hyllast lesti' og skemmdar-ráð, Og elska' ei utan hið ránga.

3. Voldugi herra, vísa mér A veg og götu þína, Við sannleik þinn mér halt þú hér, Hyggju fáráða mína

Með vísdóms-anda uppfylltu, Og orði þínu blessuðu, Því á þig trúi' eg alleina.

4. Minnstu á þína miklu náð Og miskun þúsundfalda, Og það himneska hjálparráð, Sem hugðir fyrir aldir alda; Fyrir gæzku þína minnstu mín, Og mér þitt føðurlegt hjarta sýn; Hreinni trú lát mig halda

5. Minn úngdóms-brest og afbrot leið Alit ei, herra kæri, Þeinktu heldur á þinn eið Og óbrigðanlegt særi; O, herra guð, af hjarta' eg bið, Harmþrúngnum þú mér veitir lið, Svo sem eg saklaus væri.

6. Góður og réttvís guð vor er, Sem gjarna meðtekur alla Þá, sem að lífsbraut leita sér, Og lætur þá til sín kalla, Hughreystir skelfda' og hjálpar við, Svo hafi þeir gleði og andar-frið, Og ei megi frá honum falla.

7. Orð guðs og vegir allir hans Eru miskun og sannleiki, Náðar-brunnur og næring manns Nákvæmust, hvað sem veikir Þá, sem hug og hjarta mest Hafa á hans orði fest, Af trúnni svo aldrei skeiki.

8. Náðugi guð, fyrir nafnið þitt, Og nægð miskunar þinnar, Gef að mín synd sé klár og kvitt, Kenni' eg daglega hennar; Hún særir bæði sál' og líf, Nema sendir þú mér styrk og hlíf, Samvizkan svo frið megi finna.

9. Hver, sem óttast og elskar guð, Skal eilífa miskun hljóta, Guð kennir honum sín heilög boð, Og lætur ei blessun þrjóta; Afkvæmi hans mun auðlegð fá, Og blómgast allvel jörðu á; Guðhræddir náðar njóta.

10. Upp til drottins eg ávallt brá Augunum vonar minnar, Því að einúngis honum hjá Huggun trúi' eg að

finna; Syndafjøtur af fótum mér Færa mun hann til dýrdar sér, Svo megi' eg hans krapt medkenna.

11. Dýrd gudi fødur og syni sé Súngin um aldir alda, Eins sem hún var ad upphafi, Ædsta lof skulum gjalda, Heilogum anda med hug og raust, Hljóti hann lofgjørd endalaust Fyrir blessun margfalda.

## No. 139.

Med sinu lagi.

Sælir eru, þeim sjálfur gud Syndir af nád tilgefur, Og hverra brot og illverk med Afplánad Jesús hefur. Sæll er sá mann, Þeim gud þess ann, Um løst eingan átelur, Hver frá synd snýr, Hatar, umflýr, Herr- ans miskun sig felur,

2. Svo leingi sem mig samvizkan Syndir lét ekki játa, Manndád og

heill eg minka fann, Mátti' eg því jafnan gráta; Um dag og nátt Eg fann þinn mátt, Of þúngan mann-kind aumri, Megnid mitt þá Mér dróst svo frá, Sem allt þornar á sumri.

3. Því játa eg þér øll min brot Án fegurdar og varnar, Hyl ei, ad syndgazt hef þér mót, Holds-vild fylgjandi gjarna. Sagdi' eg med mér: Minn gud, vil þér Mína glæpi med-kenna, Aflausn og sátt Af þér fékk brátt Allra misgjørda minna.

4. Um þá kvittun á réttri tíd Allir í trú þig bidja; Hve nær sem kemur hørmúng strid, Hér fyrir vilt þá stydja. Þú ert mitt skjól Í allri kvøl, Vid háska vilt mér hlífa; Vard-veit þú mig, Svo viti' eg þig Fyrir vernd og nád ad lofa.

5. Þú hézt vizku ad veita mér,

vel færa leid ad boda, Forsjá vera og fylgd mín hér, Forda vid øllum voda; Lid veit þvi mér Svo læra hér Lifa og þér ad hlýda, Ad himnum á Mér audnist fá Þitt auglit skoda blída.

6. Illfúsir rata eymd og tjón, Okjør þúng og hefnd marga; Hverjir á drottni hafa von, Hans miskun vill þeim bjarga; Af þvi gledjizt I gudi mest, Af nád og trú réttlátir, Hverjir af hug Hans rækid bod, Hrósid guds adstod kátir.

7. Dýrd gudi fødur og syni sé Súngin og heiløgum anda, Eins sem hún var ad upphafi, Oss veiti' hann nád ad standa Vel á hans veg, En varast mjøg, Ad synd verdi sídar framin; Gud gefi þad, Hans holdum nád; Sýngjum þvi allir amen.

## No. 140.

Lagid: Konúng David, sem kenndi.

Drottinn, lát mig ei dyljast Djarf=lega syndir vid, Þó hér um stund megi hyljast; Herra trúr, þess eg bid: Nær heimi fer eg frá, Örvænting ei mér grandi; Ord þitt og sannleiks=andi Hjarta mitt huggi þá.

## No. 141.

Lagid: Hver sem ljúfan gud lætur ráda.

Gud, med kveinandi' og klökkum hjörtum Krjúpum vér nidur jördu á, Um vorra sálna ángist kvörtum, Unn oss á ný þinn kærleik sjá, Aflát og miskun oss því tjá, Of mjög lög=máli vikuum frá.

2. Svo ástúdlega' i ordi þinu Oss þú dyggdina kennir hér, En kallar menn frá lasta=línu, Laun svo dyggd=anna fáum vér; En bodord geymdi'

og illa þín; Æ, fyrirgef vangæzlu mín.

3. Greida hvad skyldum gæzku þinni, Gáleysi vort svo litils mat, Oss loddi jafnan synd i sinni, Svo dárinn opt oss lokkad gat; Angradir finnum, ó gud, vér, Opt høfum syndgad móti þér.

4. O drottinn, fyrir augsjón þinni Ondvert stendur, hvad gjørum vær, Þú rád vors hjarta, þánka og sinni Þekkir og 'skodar fjær og nær; Ef þína nád ei þekktum vér, Þá ró og von øll töpud er.

5. En hversu blitt er ord þitt kæra Idrandi sálum, Jesú minn, Alla mædda vilt endurnæra, Ords blessar kenning styrkur þinn; Fridar upphaf þín ástin er, Oss forsmekk himna-gledi lér.

6. Þá von og gledi' i voru hjarta

Verka og styrk, minn drottinn, þú, Ad feta Jesú feril bjarta, Fylgja hans kenning hjálpa nú; Þá má hver vita' og þreifa á, Ad þér sé nádin einum hjá.

## No. 142.

Med sinu lagi.

Af djúpri hryggd áfalla' eg þig, O gud, hlýd röddu minni; Þín nádug eyru opni sig, Ad eg bænheyrast kynni; Ef syndir og athæfid illt A-lita og tilreikna vilt, Hver stenzt fyrir hegning þinni?

2. Ást og nád veldur ein hjá þér, Ad þú synd kvittar mína, Ei gildir þar, hvad gjörum vér, Gódverk þó kynnum sýna; Hjá þér einginn sér hrósa kann, Hrædast verdur þig sérhver mann, Og miskun þiggja þína.

3. Á gud eg einan vona vil, Verd-

leik mínum frá snúa; Mitt hjarta guð adhyllast skal, Hans náð og gæzku trúa; Hvað heiløg orð hans hétu mér, Heill mín og blessan það efslaust er; Að þeirri von vil eg búa.

4. Þó mørg og stór sé mannleg synd, Miklu stærri er náðin, Endalaus er guðs hjálpar hønd, Hversu stór sem er neyðin, Hann vill í líkn afleysa vel Lýð, sem iðrandi vottar þel, Honum tér hlýðnis-eiðinn.

5. Føður, syni og anda sé Æðst dýrð um jørð og himin, Eins sem hún var að upphafi, Án enda verði framin; Kenn oss að halda kristinn sið, Kvittast og skilja syndir við; Sá það vill, syngi amen.

## No. 143.

Lagið: Mitt hjarta, hvar til hryggist þú?

Allt það eg hefi illa gjørt, Allt,

Jesú, bæta kominn ert, Um allt því eg kvittur er, Allt mitt líf skal þjóna þér, Þar til, bið eg, hjálpa þú mér.

## No. 144.

Lagið: Guðs son kallar: komið til mín.

Þér einum braut eg móti mest, Minn guð, hjartað mitt sér þú bezt Og alla athøfn ránga, Bølvun þúnga, sem boða fer; Bið eg þín miskun líkni mér, Hlífi við straffi stránga.

2. Bænarkvak mitt og andvørp øll Eru þér kunn, mín táraføll Allt eins þér eru' óðulin; Æ, hvað leingi mig ángur sker; O guð, hvað leingi ertu mér Samvizku-hrelldum hulinn?

3. Alít ei svo mín afbrot ljót, Að refsing komi þeim á mót Eptir stærð illsku minnar; Eg flý á þínar náðir nú, Náðugi guð, mitt hjarta þú Huggun og frið lát finna.

4. Visa mér aptur veg þinn á, Vel innræt mér þinn ótta hjá, Ad heilög bod þín haldi; Gef, eg æ betur þóknist þér, Þér, minn drottinn, hvers þjón eg er, Heidur og hlýdni gjaldi.

5. O herra gud, mín hlífd, eg bid, Hjálp lát mig ætíd kannast vid, Og miskun þakka þína, Ad enn vilt gefa afbrot kvitt, Álíta bænar-hrópid mitt, Önd hrellda annast mína.

## No. 145.

Lagid: Koning David, sem kenndi.

Minn gud eg má þad játa: Mikil er syndin mín, Þó er í allan máta Enn meiri nádin þín; Öll mín von á þér stár; Gef þú, eg glatist eigi, Gef, ad þig lofa megi Hér og um eilíf ár.

## No. 146.

Lagid: Avi, Avi, mig auman mann.

Heyr min hljód, Himna gud, Hjartad mitt Hrópar ótt, Af harmi mótt, A hjálprád þitt, Vid brot og syndir brjóst gjør kvitt, Svo barni þinu verdi fritt, Fyrir herrann Jesúm :,: Hrelling stytt :,:.

2. Neydin min, Og nádin þin, Nú mig knýr, Ad bidja þig, Þú bænheyr mig, Gef blessun hýr; Ei tapast neinn, er til þin flýr, Med trú og ángri, fadir dýr; Mér virdist ekki :,: Von sú rýr :,:.

3. O minn gud, O minn gud, Eg þig bid, Angrid sker, Unn þú mér Andar-frid; Eg fæ ei stadizt freistni vid, Fadir gódur, veittu lid; Heyr þú barnsins :,: Kvein og klid :,:.

4. Hugann synd Hrellir blind, Herra minn, Eg hrædist neyd, Dapr-

an deyd Og dóminn þinn; Bót og líkn mér, fadir, finn, Í freistni einga leid mig inn, Heldur frelsa :,: Þjón-inn þinn :,:.

5. Leid þú mig, Svo lofi' eg þig Í lífi hér Af hjartans grunn', Med huga' og munn', sem hæfir og ber; Daudur einginn, drottinn, þér Dýrd í þessum heimi tér, Heldur sá, sem :,: Líf þú lér :,:.

6. Veika trú Vidrétt þú, Og veg minn greid; Eg flý til þín, Forda pín', Fári' og neyd; Gef mér, herra, gódan deyd, Í gledi himna sídan leid, Nær linnir þetta :,: Lífsins skeid :,:.

## No. 147.

Lagid: Hæsti gud, herra mildi.

Vaknid upp, kristnir allir, Og sjáid syndum vid, Af hjartans rót ákallid Eilífan fødur, gud, Hans svo ei hegn-

ing mætum, Hverfi oss náð hans frá;
Utan syndum aflátum, Idrumst og
lifnað bætum, Vesalir verdum þá.

2. Ráðleggja ydur látið, Løstu að
skilja við, Af hreinni idrun grátið
Ill verk og vondan sið, Heilagri um-
bót heitið, Hyllizt guð hér í frá, Mest
að hans orði leitið, Eptir því gjarna
breytið; Hann vill oss vera hjá.

3. Heill og náð hann oss gefur,
Hlýdna ef fær oss séð, Í eilíft líf
oss upphefur Øllum guðs børnum
með; Því er skylt til vor tækjum
Tryggð guðs og miskun hans, Þá
náð aldrei órækjum, Eptir henni helzt
sækjum, Fetum spor frelsarans.

4. Jesúm Krist, son sinn blíða,
Sendi guð øllum oss, Lét hann fyr-
ir oss líða Last, heipt og kvøl á kross;
Svo náð oss øllum sýndist, Sitt líf
í dauða gaf, Fyrir oss aumа píndist,

Án þess mannkyn allt týndist; Hann hjálpi' oss eymdum af.

5. Allt gott svo ødlast megid, Ákallid Jesúm Krist, Hans nád þér erfa eigid Eptir veraldar-vist; Lánga mædu hér lidid, Leitid því drottni ad, Ørugg ir ætíd stríðid Øllum hans vilja hlýdid; Guds nád oss gefi þad,

## No. 148.

Lagid: Sá frjáls vid løgmál fæddur er.

Syndugi madur, sjá ad þér, Sál þín svo hólpin verdi; Eilíft líf byrjar hver sá hér, Hreina idran sem gjørdi.

2. Hvar sú hin hreina idran er, Er þar og kvittan synda, En sú kvittan hún aflar sér Elsku guds til mannkynda.

3. Því fá þeir allir eilíft líf, Sem

yfirbót synda vinna, En andartjón og cymdakif Idrunarlausir finna.

4. Drottinn vor Jesús dó á kross, Ad deyja syndin mætti, Látum því ekki lifa' í oss Lesti med vondum hætti.

5. Gef mér, herra, í hjartad mitt Hreinan idrunaranda, Svo ad mín sál af syndum kvitt Syngi þér lof án enda.

## No. 149.

Lagid: Má eg ólukku' ei móti stá.

Gef þú oss, herra, heims um hríd Heyja gott stríd, Og trú heilagri halda; Samvizkan hrein þar sé vid fest, Sem kunni bezt Sigursæld vorri valda, Svo børn þín ein, Hér hjarta-hrein, Megi þig sá Í sælu sjá, Og lofa' um aldir alda.

## No. 150.

Lagid: Sæti Jesú, sjá oss hér.

Eg er breyskur, misgjörd mér Mildur gud þó fyrirgefur, Sú umþeinking þróttinn lér, Þegar ótti hugann vefur; Nú þarf framar einginn efast, Adstod guds mun breyskum gefast.

2. Sannleiks-ljós hans ordi í Ei formyrkvast; heilla nýtur Hver, sem ordi hlýdir því, Hjálp og krapt til dyggda hlýtur; Nú þarf framar einginn efast, Adstod guds mun breyskum gefast.

3. Mildi fadir, mikli gud, Mér æ syndin leid skal vera; Jeg vil heyra Jesú bod, Jeg vil trúr hans okid bera; Herra, styrk mitt hjartad veika, Hve nær sem í efa reikar.

## No. 151.

Lagid: O fadir minn, Eg þrællinn þinn.

O minn Jesú, Mér inngef þú And-

legt ljós trúarinnar; Lýsi þad mér, Svo læri' eg gjør Leid sáluhjálpar minnar, Svo eilíft líf Eptir heims kíf Eg mætti fá ad reyna. Lof sé, gud, þér, Þú léntir mér Lífid og trúna hreina.

---

## 3. Elska og traust til guds.

---

No. 152.

Lagid: Um daudann gef þú, drottinn, mér.

Hvad illt og bágt sem mætir mér, Mín von til guds sig hefur, Minn sem ad fadir mildur er; Manna hjálp øll þá tefur, Og einka reynast vinir vest, Veita óvinir hatur mest, Gud mig ei yfirgefur.

2. Þó athøfn bezta megi mín Manna álasid bida, Gud, allt er bert fyrir augum þín, Eg vil þolgódur lida; Þú sér míns hjarta hulda rád,

Ef halda mætti' eg þinni náð, Þá eingu þarf að kvíða.

3. Þó sorg og ánauð sífelldlig Samferðist lífsins dögum, Eg glaður er, því, guð, veit þig Gløggt sjá, hvað mínum högum Er fyrir beztu; mæðu með Mitt þú reynir og venur geð, Í þínum að þreyja' álögum.

4. Þó samtøk gjørðu himinn, haf Og hauður mér til ama, Hættum stæði' eg umspenntur af, Og ógn hels í bili sama, En heimur allur hyrfi mér, Herra guð, samt eg treysti þér, Óttast fár ekkert framar.

5. Þú leiðir mig um dauðans dal Dásamri føður-hendi, Hún minn æ vera skjøldur skal, Eg skelfist ei hvar lendi; Þrái himin, þó þreyi hér, Þú svo kórónu dýrðar mér Í æstu gleði' afhendir.

## No. 153.

Lagid: Mitt hjarta, hvar til hryggist þú?

O, hvad stór sæla' og yndislig Er mér jafnan ad mega' á þig, Minn gud, traust setja mitt; Allur vid lifnar andi minn, Er eg ihuga kærleika þinn.

2. Alls-þurfa mig eg auman fann, Adstoda mig þin mildin vann, Ad efla min eigin not; Mér, ó gud, þin gæzku'-atlot Gáfu styrk vid kraptanna þrot.

3. Hversu ætti þá inndælt mér Ætid vera, ad treysta þér, Gud máttk-ur, gódur, vis, Sem veizt þörf mína' og vilt mér bezt, Veitir allt til hag-sælda mest.

4. Innræt þá djúpt þad edli' i mér, Einum fyrir mér trúi' eg þér, Eilifi ástvin minn; Fyrir mér i sér-hvert sinn Sjái, drottinn, visdómur þinn.

5. Já, þú, fadir, sem alvis ert,

Allt fær lángt betur við mig gert, En óska' eg eður skil; Gegn og hlýð-inn gjarna' eg vil Gánga fram, eins og segir þú til.

5. Ástríkur faðir ertu minn, Almátt, gæzku og vísdóm þinn, Allt brúkar oss til góðs; Mitt einka-traust í allri neyð Og athvarf skaltu' í lífi og deyð.

## No. 154.

Lagið: Gef þinni kristni góðan frið.

Hvað sefa lífsins harma kann? Hvað þann syndugа stoða? Þjáða, hrellda og mædda mann Mót dauðans efla voða? Vér það gætnir viljum skoða.

2. O, hvað skyldi oss æðra nú Á himni' eða jörðu gefast, En vel grundvölluð vissa sú, Við hverja mein öll sefast; Guðs um náð þarf ei að efast.

3. Þessi vissa af gudi gjør Er grundvøllur trúar þinnar, Hvort sem þú bidur feigd eda fjør, Feginn skal þig til minna; Hún ein allt kann yfirvinna.

4. Hafir þú gudi elsku á Einlæga, vissa, heita, Hans þekking' girnist hollri ná, Hans velþóknunar leitar, Hann þá ei um nád þér neitar.

5. Leitist þú vid, sem mest ad mátt, Med øllu hugarfari, Ad líkjast gudi' á allan hátt, Æ verda fullkomnari, Gódur, vitur, gudi' líkari.

6. Þetta allt er þér vottur viss, ad vísa nád hans eigir; En øll skinhelgin útvortis Einga þér huggun segir; Varast hún þig véla megi.

7. Ástunda, viss ad æ þú sért Um guds nád hverju sinni, Lát þá vidleitni leynt og bert Lifa í sálu þinni; Ást hans ertu æ í minni.

8. Á gledi-stund sé yndi þitt, Ad náð guds megir halda; Sú von í øllum sorgum mitt Sælu umbunar gjalda Hér og sidar víst mun valda.

9. Og þegar daudans afli mót Áttu loks stríd ad heyja, Hversu lif-krøptug bøls er bót, Brigdulaust kunna segja: Viss um guds náð vil eg deyja.

## No. 155.

Lagid: Gled þig, guds sonar brúd.

Hví skal mér veiklast von? Veit eg guds mildi son Er med oss allar stundir, Okkar senn verda fundir; Óskelfd min augu mæna Á hann í kvaki bæna.

2. Um heimsins gledi og glys Gedjast mér eins og fis; Skjótt missi' eg skemmtun slíka, Skimp met eg hans vidlíka; Þad má létt hismi heita Hjá því, eg eptir leita.

3. Leggi gud ok mig á, Og harda

rauna-þrá, O, eg vil ekkert kæra; Eins má það heill mér færa; Skal mér ei líka' að líða Ljúft, nær hann vill hið stríða?

4. Sál og hold, fjør og fé, Fjarlægt er mitt að sé; Þú, guð, átt það, sem léðir, Og þótt snarlega réðir Líkamann lífi sneyða, Lof þitt eg vil útbreiða.

5. Dauðinn ei deyðir oss, Dýrðar eilífrar hnoss Hann gjørir hrjáðum færa Og hvíld í grøfum væra; Andstreymi, eymd og mæða Eingan þar megna hræða.

6. Nær endast tímans tóm, Með tign og hvellum róm Vor Jesús Kristur kemur, Kær minn frelsari nemur Mig í dýrð, þá ei þrotnar, Þar hann um eilífð drottnar.

7. O, skyldi' eg örvýlnast? O nei, eg trúi fast Míns Jesú øllum orðum,

Er jafnan standa' í skorðum; Þú ert minn, þér eg treysti, Þinn er eg endurleysti.

## No. 156.

Lagið: Heimili vort og húsin með.

Hvað er, sem letur hjartað mitt, Til himins veg þann keppa, O minn drottinn, sem orðið þitt Á leiðir mig, svo hreppa Fái þar líf og fulla nægð, Frí við óvina makt og slægð? Hver vill því hnossi sleppa?

2. Er Jesú ok svo yfrið hart, Og ofþúngt kröptum mínum? Heimtar þá guð svo mikið og margt Mildum í boðum sínum? O nei, minn bezt þú kennir krapt, Kærsti faðir, sem mig hefur skapt, Og krapti auðgað þínum.

3. Í holdi, Jesú, þoldir þú Þá sjálfur freistni alla, Er huga minn vill hindra nú, Og honum þúngbær

falla; Þú vorkennir þvi veikum mér, Vilja þá fúsan hjá mér sér, Þó framkvæmd finnir halla.

4. Elskan þin trúføst eftir mig, Og útbýr krapti neytum; Hvad sterkur verd eg þá fyrir þig, Þeim yl gæddur svo heitum. O, hversu var sú ást þin sterk, Er þreif mig burt úr daudans kverk Med pisl og þúngri þreytu.

5. Æ, skyldi' ei þinnar ástar glód Uppverma sálu kalda, Ad hyllast bod þin holl og gód? Hvad kann eg annad gjalda Verdugra lof, en feta fús Feril þann, sem gekkst, minn Jesús, Og baudst mér eptir halda?

6. Þess vegna gegnum þreingi sér Þin elska sálu mina, Uppmálud standi æ fyrir mér Ást þin, harmkvæli' og pina. O, hversu finnst þá inndælt

mér, Ef elska' eg þig, ad hlýda þér; Þá gjørvøll þýngsli dvina.

7. Mót allri heims og holdsins lyst Hér af verd eg øflugur; Sú trú, ad fékkst mér fridar-vist, Fót minn stydur; Þinn dugur Í mér breyskum sig øflgan tér, Allt megna eg, nær hlýdi þér; Þar vid minn hressist hugur.

8. Allt, hvad mig brestur, baudstu mér, Med bæn, ó gud, ad sækja; Þín fødurmildin opin er, Ef eg þín bod vil rækja; Andvarpan fer þá eingin mín Án bænheyrslu frá stóli þín; Hvad kann þá hug minn flækja?

9. Eptir þad strid, sem eg skal hér Í þínum krapti heyja, Á eg í vonum þar hjá þér, Þegar eg trúr næ deya, Eilífa unun, eilíft hnoss, Inndæll sé mér því sérhver kross; Hvad létt er því ad þreyja.

10. Já, breyskt er hold mitt, heim-

ur slár, Hætt skeidid, tæp min gata; En, gud, þins anda kraptur klár Kann mér aldrei ad glata; Æ svo leingi eg elska þig, Öflgari vill hann gjøra mig, Lætur veg réttan rata.

11. Allir samhuga einum þér Aud-mjúka lofgjørd segjum; Af fúsu hjarta allir vér Undir þin bod oss hneigj-um, Sem holl og létt eru hver um sig; Hjástodar, drottinn, beidum þig, Og þolinmódir þreyjum.

## No. 157.

Lagid: Gæzkuríkasti grædari minn.

Svo skal ei framar nokkur neyd, Né heldur þessa líkams deyd, Mér frá þér megna' ad venda; O drottinn, eg er ástkær þér, Elska vil eg þig stødugt hér, En annars heims án enda; Send mér, Sem þér Þóknast,

gledi Þjáning medur, Þig alvísan Eg vil þó jafnan í øllu prísa.

## No. 158.

Lagid: Guds son kallar: komid til min.

Allt mitt rád til guds eg set, Á mér sinn vilja verda lét, Mér bid eg hans miskun hlífi; Heilsa, vit, líf, sál, heidur, fé Hans vernd jafnan befalad sé, Nú og í eilífu lífi.

2. Minn audnu-hag svo opt og þrátt Ástin þín, gud, vidrétti brátt, Er andvarp eg þér senda; Verdi því á mér vilji þinn, Vel muntu, hjartans-fadir minn, Leida mig allt til enda.

3. Hér ad auk bid eg, herra gud: Hjálp mér, ad geyma vel þín bod, Og þeim eptir ad breyta; Þolinmædi eg þiggja vil, Og þeim vægja, sem gjøra mér til; Virztu' mér nád þar til veita.

4. Hvad verdur mér ad meini, þá Máttugur gud mér stendur hjá? Hvad kann mig þá ad þrjóta, Er sá hjálpar úr allri naud, Öllum sem gefur daglegt braud, Og sælu med sér ad njóta?

5. O, herra Krist, min hæsta von, Hvorki lukkunnar gjøf né tjón Láttu mig frá þér leida; Nád þin ávaxti vora trú, Vid synd og kvølum forda þú, Og gef oss útfør góda.

## No. 159.

Lagid: Ovinnanleg borg er vor gud.

Þú ert minn gud, ei óttast eg, Og ei skal heyrast kveina. Þótt eg færist um þyrna-veg, Pina stjórn sé eg eina; Víslega veit eg nú, Vid mig ad breytir þú, Æ huggar mjúkast mig Miskun þin fødurlig, Er eg svo opt fæ reyna.

2. Þér og náð þinni mig og mitt, Minn guð, eg fel á hendur; Allt hvað eg hefi, það er þitt, Þinu i valdi stendur; Þin stjórn mér þægust er, Það bezta viltu mér; O, herra gæzku-gjarn, Til góðs fyrir þitt barn Meðlæti' og mæðu sendir.

3. Guð fær ei sinum gleymt; i hryggð Geð mitt sá þánki nærir; Von, sem á orð þin er uppbyggð, Aldrei kinnroða færir. Burt ángist øll og sorg, Örugg er guð min borg; Vel eru gjørð hans verk, Ver mig hans geymsla sterk, Og til farsældar færir.

## No. 160.

Lagið: Guðs son kallar: komið til min.

Mitt traust á guði glaðvært er, Guðs náð býðst fyrir Jesúm mér, Eg von lifs eilifs hefi; Oss i náð

taka aptur vann, Og arf hefur í sælu-rann Með sínum syni gefið.

2. O herra, hvílík heill það er, Hlutfall eiga með sjálfum þér, Náð þína' og himin hljóta, Með trú af hreinu hjarta þig Heitt að elska, og vita sig Alls góðs af þér að njóta.

3. Orð þitt eg glaður uni við, Innvortis styrk og sálar-frið Hvert sanntrúuðum heitir; Það huggar lífsins hørmúng í, Heill í meðlæti ver af því, Hugprýði' í háska veitir.

4. Viðhalt mér, drottinn, hjálpráð mitt, Í hreinni trú á orðið þitt Nafns þíns og náðar vegna, Lát það upplýsa veg minn vel, Væga gjøra, þá dregst að hel, Andlátsins mæðu megna.

## No. 161.

Með sínu lagi.

Mitt hjarta, því svo hryggist þú, Í

harmi' og trega velkist nú Fyrir valtan veraldar-auð; Set þína trú á sannan guð, Sem øllum gefur daglegt brauð.

2. Yfirgefa þig ei vill né kann, Alla þørf þína þekkir hann; Hans er himinn og jørð. Minn ljúfi faðir og mildi guð, Mér sendu hjálp í allri nauð.

3. Þú ert minn guð og faðir kær, Þitt barn ei yfirgefið fær; Ást þín er mjúk og mild; Annað, þá mæðir eymdin hørð, Ekkert hef eg traustið á jørð.

4. Ríkur af gózi gleður sig; Guð minn, við þig eg hugga mig, Eg þó óvirtur sé; Það er mín trú og efalaus von, Aðstoð veitir þú þínum þjón.

5. Þitt ríki, drottinn, þrýtur sízt, Þitt vald er støðugt jafnan víst; Á þér er allt mitt traust; Eilíft góz

hefur ekkert tál, Audga med þvi mina sál.

6. Stundlegan heidur eg hugsa' ei á, Himneskan vildi' eg gjarna fá, Hvern Jesús hefur keypt Med sinum dauda' og dapri pín; Drottinn, bid eg, heyrdu til min.

7. Allt þad veröldin er af full, Eignir, góz, silfur eda gull, Stundlegt skraut og skart, Litinn tíma þad lánad var, Líknar ekki sálunni par.

8. Jesú, guds son, eg þakka þér, Þessa vizku þú kenndir mér, Og guds ad gánga' á veg; Veit mér stödugа von og trú; Vænst er sálu huggunin sú.

9. Lof og heidur á hverri stund, Hæsti gud, sé þér á alla lund; Þig, fadir, þess eg bid, Eilifan gef oss andar-frid, Og arf himins, þá skiljumst hér vid.

## No. 162.

Með sinu lagi.

Hver sem ljúfan guð lætur ráða, Líka vonar á hann ætíð, Vill þann drottinn vernda og náða, Víst þó að dynji neyð og stríð. Hver sem við guð sér heldur tryggt, Hús þess er ei á sandi byggt.

2. Hvað stoðar oss með hryggð að klaga? Hvað stoðar oss vort óp og vein? Hvað hjálpar oss, þó alla daga Angra látum oss sorgarkvein? Skál vors mótgángs, sem afmæld er, Aukum með harmi sjálfir vér.

3. Bið, kristin sál, um stund í stilli, Stöðva þitt geð, svo lyndi þér, Að guðs náðar vild á þér fylli, Alvizku hans hvað þekkast er; Guð, sem hefur útvalið oss, Opt til farsældar sendir kross.

4. Fulltreyst og guðs þins gakk á

vegi, Gjør øll þín verk með dyggð og trú; Um blessun drottins efast eigi, Aldrei mun þér þá bregðast sú; Hver sitt traust á hann setja vann, A sandi ekki byggði hann.

## No. 163.

Lagið: A guð alleina.

A guð eg einan Alla set von og traust, Vil með hug hreinan Hann dýrka endalaust; I geymslu' og gætur Guðs eg önd mína fel; Frá hrösun fætur Frelsar hann mína vel, Og í ljósi lætur Sitt ljúfa ástarþel.

2. Sekt synda þúnga Son guðs fyrir mig galt; Hann hjarta' og túnga Heiðri og líf mitt allt; Ef eg hans boði Ætíð trúr hlýðnast vil, Alls einginn voði Önd minni' er skæður til. Hans mig hjálp aðstoði, Við heiminn þegar eg skil.

3. Þér lát mig þjóna, Þú mildi herra og guð, Vel við að una Veg þinn og stunda boð, Að mig ei ginni Illrar veraldar slægð, Né vont eg vinni, Svo verði náð frábægð; Haf þá mig í minni, um mildi' er bið og vægð.

4. Þú mig hughreystir Í hvers kyns sorg og neyð, Sem svo dýrt leystir Með sonar þíns pínu' og deyð. Hvað má við meta Það mæti, allt eg á? Hvað mig hrellt geta, Sem himna frið vann ná? Þinn son varð sigurhetja, Og sigur gafst mér þá.

5. O Jesú, eina Athvarf og vonin mín, Lát mig lífs beina Leið þræða' í dýrð til þín; Ei óttast nái, Í gröf sízt staðar nem; Þig, dauði', eg þrái, Þú vel mig leiðir heim, Svo guðs eg sjái Sælu, í dýrð þá kem.

5. O æðstu gleði, Er eg þá Jes-

úm sinn; Med gæzku-gedi Grædari talar minn: Kom, madur mæti, Hjá mér um eilífd tef Í sóma-sæti, Sem eg þér búid hef; Ædsta eptirlæti, O Jesú, þad mér gef.

## No. 164.

Lagid: Hjartad, þánkar, hugur sinni.

Burt med heimsins ónýtt yndi, Ei er veröld mér svo kær; Aldrei fannst þar leika' í lyndi Lángvinn tign né ró gladvær; Allur í hæd er hugurinn, Hefur sig þángad andi minn; Helzt til létt er heims ágæti, Himin-sælu þýngd ad mæti.

2. Gjörvallt vil eg gladur af segja, Gud minn, þad, sem stundlegt er; Minn skal einginn hlutur hneigja Hug frá skyldu, dyggd og þér; Þó ad heiminn ætti eg, En útibyrgd frá dýrd-

ar-veg Sál min geingi villt í voda, Vildi litid hitt mig stoda.

3. Gud af øllu gódu ríkur, Gnótt eg á, nær hef eg þig, Eg veit frá mér ei þú víkur, Alvøld hønd þin leidir mig, Ef þá kann ad mæta mér Mein, sem þúngt og biturt er; Þó eg í hljódi þykist lída, Þitt er ad bjóda, mitt ad hlýda.

4. Gegnum lífsins eymd og ama Anægdur eg þreyti gáng; Augad horfir trúartama Til þess lífs, er veit í fáng; Sønn hvar gledi' og sæluhnoss, Sonar þins gjøf, er búin oss; Sigur, frid og sæmd um aldir J sitt hlutskipti fá útvaldir.

## No. 165.

Lagid: Hver sem ljúfan gud lætur ráda.

Alvaldi fadir allra þjóda, A þig treystir min frelsud ønd; Eg fel mitt

líf og allan góða Í þína mildu vernd-arhønd; Alvísi guð, bezt allt þú sér, Er til velferðar gagnar mér.

2. Auga mitt sljóskyggnt er mjøg tíðum, Um skammt hugur og dugur þver, En þú, sem stjórnar øllum lýð-um, Aptur hug og dug gefur mér; Bezt hagar øllu, bezt þú sér, Børn-um þínum hvað gagnlegt er.

3. Opt, þá mitt hjarta ángist reyrði, Ottafullur var nauðum í, Mína andvørpun minn guð heyrði, Mér kveykti gleðiljós á ný; Svo vís og góður enn hann er, Ætíð gætir hann vel að mér.

4. Eg fel, minn guð, í umsjá þína Allan velferðar minnar hag; Mér vann Jesús, þinn sonur, sýna Sannr-ar manndyggðar háttalag; O, að eg þyldi eins og hann Andstreymi hvert, sem mæta kann.

5. Omegi daudans ei skal kvída, Eg þó ad bleikum verdi ná, Af því frelsarinn allra lýda Er vinur, sem mig dæma á; Svo sem hann mína eg fel önd, O fadir kær, í þína hönd.

## No. 166.

Med sínu lagi.

Hver sem ad reisir hæga byggd Hæsta guds skjóli undir, Í geymslu drottins, og gleymir hryggd, Gefur sig allar stundir, Sá talar vid gud: Þú tókst vid mér, Treysta vil eg því gjarna þér, Og unna' á allar lundir.

2. Vel mun og drottinn vernda þig Fyrir vélum allra handa; Þó skadleg hætta sýni sig, Sízt mun þér kunna' ad granda, Hans vernd og skjól svo hlífir hér, Í hverri neyd hann sendir þér Sinn styrk og hjálp til handa.

3. Svo mun og líka sjálfur guð Vel sjá til þín og leiða, Á vegum þínum þér veita stoð, Og venda öllu' til greiða, Frá þér burthrinda háska og pín, Að hvergi náir þú fætur þín Á minnsta steini meiða.

4. Hvern sem að lángar mjög til mín — Mildur drottinn svo kenndi —, Hann skal eg leysa' af skaða' og pín, Og skýla með verndar-hendi, Bænheyra hann og hjálpa' í neyð, Honum loks gefa væran deyð, Og líf, þó æfi endi.

5. Lífdaga hans eg leingja skal, Og láta þá ei brátt þrjóta, En hjá mér upp í himnasal Hann mun fullsælu njóta; Þar sýni' eg honum mitt hjálparráð, Hjartans unun og fulla náð, Svo umbun fái' hann fljóta.

## No. 167.

Lagid: Hver sem ljúfan gud lætur ráda.

Fyrir þig, gud, sem veldi vidu Vís stýrir alheims, fram eg ber Af klökku hjarta þakkir þýdar, Þigg gladur kjör, sem léntir mér; Ástríka födurþelid þitt Þekki' eg vid sérhvert sporid mitt.

2. Í inndælt skart þú ár hvert klædir Otölu blómstra', er haudrid ber, Frjóvsamri döggu grundir grædir, Gleymist ei minnsta stráid þér; Skyldir þú geta gleymt mér þá, Gæzku þína sem treysti á?

3. Nei, hjartad gleyma má fyr módur Mót edlis bodi fóstri sín', En þér, líknsami gud minn gódur, Gleymzt fái velferd sanna mín; Vel-gódur lífs eg þreyti veg; Þú ert mín hlíf, ei óttast eg.

4. Eg óttast ei, þá eymd og pína Á heims vedhlaupi varpast mót,

Sorga-ör djúpt þó sálu mína Særi, veit eg minn leiddir fót Þess vegna fram á þrauta-stig, Ad þú, minn gud, leidréttir mig.

5. Vongódur svo minn veg eg feti, Veikan upplífgar huga þú, Ad traust á Jesú ord eg setji Um dýrd med þér, þó lídi eg nú, Minn gud, á himnum þar hjá þér, Þar eg fullsæll um eilífd er.

6. Líknsami fadir, gud minn gódi, Gef þessi örugg von til þín, Hvad sem kann mæta heims um slódir, Hverfi' aldrei úr brjósti mín: Þá gefur, sviptir, gud minn, hér, Gjörir þú allt til bezta mér.

## No. 168.

Lagid: Rís upp, min sál, ad nýju nú

Á þér, herra, hef eg nú von, Hjálp, svo eg eigi verdi' ad smán Hér eda' í

hinu lifi, Frelsa þú mig, Þess beidi eg þig, Þín ást mér ætíd hlifi.

2. Bænheyr þú mig af mildi nú, Miskun og nád enn til mín snú, Flýt þér fulltingi' ad veita, Þá stend og bid Í stórri neyd, Styrks hjá þér einum leita.

3. Hjálp ert þú mín og hlífdin trú, Heilagt ord þitt er verja sú, Er øllum eydir vanda; Þá herrann gud Er hjá í naud, Hver kann þá móti' ad standa?

4. Eilífi gud, ei vík frá mér, Anda minn befala eg þér, Medtak hann þér til handa; O herra trúr, Eymd allri úr Leys mig, þá lífid endar.

5. Herra, eg flý í þraut til þín, Þú einsaman ert adstod mín, Huggun og hjálp mér sendir. Mín tíd og stund, Eign, líf og ønd, Allt er í þinni hendi.

6. Heidur og lof sé, herra, þér, Sem hefur óverdugum mér Hjálpad i hørdu kifi, Og hézt af nád Ohult-um stad I þvi komanda lifi.

7. Allir trúadir, elskid gud, Oss vill hann frelsa' úr hverri naud, Eink-um þá honum hlýda; Hofmódugt ged Vanheidur med Hegningu' án efa bida.

8. Þar fyrir hafid gladvært ged, Gud prisid huga' og raustu med Allir, sem eptir honum Bidid um stund, Þvi ýdar ønd Ur þúngum leysist raunum.

9. Fødur, syni og anda nú Ædst lof og dýrd af hug' og trú Sýngj-um vér allir saman; Veit þú oss, gud, Fylgi og frid, Fyrir Jesúm Kristum, amen.

## No. 169.

Lagid: Náttúran øll og edli manns.

Verdi ætid, hvad vill minn gud,

Vild hans er æ hid bezta, Vís er þeim jafnan vernd og stod, Vid hann er sína trú festa; Hann hjálpar trúr Eymd allri úr, Agar verøld í máta; Þann á honum traust Hefur efalaust, Ei vill né kann forláta.

2. Herra gud traust og heill mín er, Hjálp, von, líf, eilíf sæla; Hvad sem hann vill, þad verdi mér, Vil eg því ei mótmæla; Hans mildi klár Mín høfudhár Hefur øll talid án efa; Hvad hann mér fá Bezt henta sá, Hann vill af nád mér gefa.

3. Þar fyrir auma verøld vid Vil eg fúslega skilja, Til míns drottins í fullan frid Fara eptir hans vilja; Fel mína ønd Í fødurhønd, Hvort farsæld bíd edur voda; Hans ástarþel Mig verndar vel, Og vill í dauda stoda.

4. Súngin þøkk, heidur, sæmd og lof Sé fødur allrar mildi, Sem út

fyrir oss soninn gaf, Synd heims ad bæta skyldi, Og á hann hlóð; Æ, mannleg þjóð, Att það í minni festa; Því hugsa titt Og þakka blitt Þá náð og elsku mesta.

## No. 170.

Lagid: Herra gud í himnaríki.

Vertu, gud fadir, fadir minn Í frelsarans Jesú nafni; Hønd þín leidi mig út og inn, Svo allri synd eg hafni.

---

# 4. Elska til sjálfra vor og náúngans.

---

## No. 171.

Lagid: Kom skapari heilagi andi.

Mósøm samvizka' ef er ad eins Eign mín, hvad kann þá bløskra mér? Hvad fær þá ordid mér til meins, Megn þegar kvidi adra sker?

2. Flekklaus samvizka' og falslaus trú Farsælust hlutdeild mín er þá; Þeim friði', er gefur sæla sú, Svipta kann einginn mér í frá.

3. O hvílík gleði, sagt við sig Með sanni geta': eg í mér fann Girnd til hins illa, geymdi' eg mig, Guði sé lof, eg yfirvann.

4. Æ, hversu þúngt um sjálfan sig, Að segja hljóta þar á mót: Á lasta vondan villustig Viljandi minn eg setti fót.

5. Upp til drottins með hjarta hreint Að horfa' og segja: guð minn, þú Ert æ mitt athvarf ljóst og leynt, Hver lukka veitist stærri en sú?

6. Sjá, allt hverfur, þig helið burt Héðan senn flytur; dauðans flein Hvað sljóvgar? hann fær hægan gjört Hugar-rósemd hjá guði hrein.

7. Sæll, kristni maður, sem að þér

Sálarró þessa finnur hjá; Því sjálf-
ur daudinn hana hér Hrakid fær ekki
burt þér frá.

8. Sá hinn gudhræddi segi því:
Sjór, himinn, lønd og skepna hver,
Sambland þó fyrsta falli í, Fødur-
hønd drottins líknar mér.

## No. 172.

Lagid: Til þín, heilagi herra gud.

Gud, mig skóp ást þín mildileg,
Ad mætti eg sælu njóta, Ef eg trú-
fastur óttast þig, Ottast þín løg ad
brjóta; Vandi eg hjarta' og verk mín
hér, Vottar samvizkan þetta mér;
Hún kann afsaka' og hóta.

2. Inndæla jafnan andarfró Eg
finn mitt hjarta kæta, Nær vilja guds
í veikleik þó Vidleitast hlýdinn sæta;
Samvizka numn sanna hér Sífelldlega
því gefur mér, Ef skyldu gjøri' eg
gæta.

3. Og þessa gledi, yndi og fró Ekkert kann frá mér taka, Hreinskilni mín er hulin, þó Hugsun þá læt eg vaka, Ad gud, minn gud, allt gjørla sér, Gud mín umbun og fadir er; Hún lífgar, hún afsakar.

4. Æ, gódi fadir, einatt þig Eg styggdi margvíslega; Samvizkan þá ásakar mig, Sál fyllist blygdun, trega; Oró, nagandi ángist mér Eptirfylgir, hvar helzt eg er, Og ofsækir alla vega.

5. Já, þó eg hjartans freisti' ad fá Fordæming nidurkafid, heims út í glaum mér gjøri slá, Ad gleymsku brot sé vafid, Sú værd er eingin sálar=fró, Svipula huggun von sú bjó, Sízt fékk hún hug minn hafid.

6. Þann fögnud veitt, er vara má, Víst ei heimurinn getur; Nær endalokin eptir á Íhugar sál mín betur, Eg fæ þess þá med undrun gád, Ad

girnda leid er blómi stráð, En í óheill mig sletur.

7. Æ, lát þá þetta, góði guð, Mitt gjørvallt hjarta hræra, Að þín eg stundi ástrík boð Með alúð geyma' og læra; Faðir, sú ein mín farsæld er, Nær fús kappkosta' að þóknast þér, Dyggð iðka' og dáð þér kæra.

## No. 173.

Lagið: Guðs son kallar: komið til mín.

Dyggða-veg leið mig, drottinn, á, Og dyggða settu marki ná; Styrk mig þess gá og gæta; Hverfi mér náð þín, herra kær, Heims þessa gleði eingin nær Mér þann missir að bæta.

2. Æ, þegar glæpa ann eg lyst, Úr mínu hjarta burtu misst Sønn gleði fer á flótta; Og þá rennur í þánka minn, Það eg skal fyrir dóm-stól þinn, Angráður skelf af ótta.

3. Kenn mér, ó guð, sem gætir mín, Gánga fram eptir boðum þín Örðugar lífsins leiðir; Samvizkunnar þá frið eg finn Og fögnuð eilífan, drottinn minn, Er þú útvöldum greiðir.

## No. 174.

Lagið: Hvar mundi vera hjartað mitt.

Lífsreglur hollar heyri menn, Er himna-sæld girnast ná; Dauða, eilífð og dóminn enn Daglega þeinkið á; Næsta mjög þetta nálgumst senn, Naum er lífs-stund að fá; Lagi því hver svo lifnað sinn, Að lendi hann guði hjá.

2. Óvíst er það, hvort úngur mann Ellidögunum nær; Iðrun sendi því undan hann, Áður en dauðinn slær. Margur hastari helstund fann, Heldur en meintum vær; Lík í dag máske kallast kann, Sá kóngur lifði' í gær.

3. Voga þú ei fyrir vinskap manns Ad vinna, hvad órétt er, Því guds er eins, En ekki hans, Yfir ad dæma þér; Þeim hylli drottins, dómarans, Daglega afla sér, Þá reikníng heimtar lýds og lands, Linkind í málum tér.

4. Ottastu gud og unn, sem ber, Annast náúnga þinn, Ovin þolugur illt ei gjør, Øllum vert gódvikinn, Lát ætíd nokkud ágeingt þér A fram dyggda veginn; Drottni lifir, þá deya fer, Sá deydir vilja sinn.

5. Umgeingni þína' og athøfn bezt Alls konar dyggdum prýd, Þolinmódur, þá veitir vest, Vidmóts hegdan sé blíd; Allt, sem þér dag hvern yfirsést, Idranin bæti þýd; En þad þú margt gott ógjørt lézt, Angri þig fyr og síd.

6. Stunda þú svo ad vera víst, Sem vilt ad haldinn sért, Annars

heims fylgir oss þá sizt, Utan hvad höfum gjört; Í herrans augsýn hvern dag fyrst Hér svo ráðvandur vert, Að þú ei skelfist, þó af Krist Þá dæmist, eins og ert.

7. Set þér lifnaðar leiðrétting, Lífs meðan auðið er; Sá heimsins varast vélin sling, Vel þóknast guði ser; Þakklætis er það áminning, Ef sæld hann gefur þér, En hitt iðrunar uppvakning, Ef þú mótlæti ber.

8. O drottinn kær, sem sjálfur sér Þá sælu, er girnumst fá; Vertu oss nær, svo vinnum vér Vilja þins jafnan gá; Þín dýrð einskæra heiðrist hér, En himnum síðar á Sjáum þig vær, og sýngjum þér Sigur-vers englum hjá.

## No. 175.

Lagið: Guðs son kallar: komið til min.

O guð, hvað reikna manninn má

Mót þér, almættis-tignin há, Er skepnu alla nærir; O, hversu mikil er mín rýrd, Er eg hugleidi þína dýrd, Sem leiptrar ljósi skæru.

2. Af her guds eingla himnum á Hinn allra mesti' er litill hjá Skap-ara sjálfum sínum; En eg hjá þeim? nær ekkert er, Agætid mitt, þad fyrir ber, Skjótt líkast skugga mínum.

3. Gef, herra, ad eg æ hvert sinn allan vidkannist breyskleik minn, Og stundi audmýkt læra, Eins og lausn-arinn ljúfur hér Lífs og deyjandi kenndi mér; Þér, gud, ber einum æra.

## No. 176.

Lagid: Kom skapari heilagi andi.

Þú klagar, bøl finnst þúngbært þér Þess stands, er snaudur lifir í; Hvoss stundar lukku stærri' og sér, Stundar sorgefins eptir því.

2. Hvað viltu syrgja? hví með grát Hjarta þitt særa' og væli hér? Mun það æ heill, vel gef að gát, Sem girnd vors hjarta dró að sér?

3. Neyt þess, sem skamtar guð þér, gjör Gjarna hins sakna', er ekki fær; Sína þraut hafa sérhver kjör, Sérhverjum hag sitt yndi grær.

4. Drottinn á allt, útbýta björg Bezt með vísdómi sönnum kann, Ekki sem ósk er óþörf mörg, En þó sem hverjum hollast fann.

5. Viltu voga að þeinkja, þér Pá hafi gleymt ástríkur hann? Þó að til góðs ei vinnum vér, Veitti hann heill í sérhvern rann.

6. Eyð þú lífinn ekki með Ánægjulausu væli þá, Þitt ræktu kall, haf glaðvært geð, Gjör lífstóm nota bezt sem má.

7. Drottinn, allt ástand mitt og

mig Með gløðu sinni fel og þér, Ánægður feta æfi-stig, Aðstoð þín jafnan fylgi mér.

## No. 177.

Lagið: Á guð alleina.

Til auðs, er eyðist Af møl og ryði hér, Gef, guð, ei leiðist Girndir hjartans i mér; En upp i hæðir Augun mæni til þín, Sem gefur gæði Gjørvøll og forðar pín, Pørfina' því að bæði Þú veizt og fyllir min'.

2. Ágirndin arga Eitruð er lastarót, Fæðir mjøg marga Misgjørð og dæmin ljót. Sá má sæll heita, Sem nægir lánið téð, Og iðju neyta Í kalli dyggur réð. Bezt minn blessa sveita, Blíði guð, ánægð með.

## No. 178.

Lagið: Mitt hjarta, hvar til hryggist þú?

Himneski faðir, høndin þín Helgi og

blessi verkin mín, Öll svo ad þóknist þér, Áhyggju mig illri ver, Öllu grandi forda þú mér.

2. Eg legg í þína líknar-hønd Líkamann bædi' og mína ønd, Treystandi á þig einn; Gef, ad eg sé hjartahreinn, Háski svo mig villi ei neinn.

## No. 179.

Lagid: Einn herra eg bezt ætti.

Þig, gud, sinn fødur þekkja, Þad eitt eg gledi fann; Hver hatur brjóst lét blekkja, Barnarétt missir hann; Í dyggda fótspor seta Frelsarans, hjálp oss vel, Og innbyrdis audsýnt geta Ástúdlegt brædraþel.

2. Einn þú, gud upphædanna, Í eitt bazt menn um heim; Einn er ættar-stofn manna, Einn andi býr í þeim; Allir þér óss fram berum, Allra

bæn heyrir þú, Allir kalladir erum Ad einni von og trú.

3. Ætti' eg þá einkis virda Eindrægnis-bandid téd, Og hróp míns hjarta myrda, En hafa tvídrægt ged? Nei, þó mitt særi sinni Svik og ráng-indi hér, Allt þad med adstod þinni Upp gef eg, sem þú mér.

4. Láttu þitt ord og anda Upplýsa huga minn, Svo efla vilji' eg vanda Velferd brædra hvert sinn, Og styrk mig æ ad geta, Ad dæmi lausnarans, Kærleikans feril feta Til fyrirheitna lands.

## No. 180.

Lagid: Hvar mundi vera hjartad mitt.

Gud, þín stjórnan er gæzka' og nád, Góds hún sérhverjum ann, Falslausrar elsku edla dád Ætid þér gedjast vann; Ofundar hrekkvíst illsku-

ráð Eg þér gagnstæðast fann; Veit, að míns hjarta gæti' eg gáð, Glæp svo eg varist þann.

2. Því skyldi' eg svipta sjálfan mig Sannri ánægju og ró? Skyldi eg mögla þora við þig, Þig, gæzkan rétt-vís þó? Misgjörð mín ljót og marg-faldlig Maklegt sér straff til bjó, En gladdi ást þín guddómlig, Er glæpa straff undan dró.

3. Skal það öfundar olla', að þér Eins fer við bræður mín? Skyldi mér gremjast, gæzka að er Guð minn, hvers ást mér skín? Veit eg þó nokkurn verri mér? Varðveiti náðin þín Sál mína, faðir, svo ei hér Særi öfund-ar-pín.

4. Minn Jesús hefir sjálfur sett Sína það merki á: Elskið hver annan utan prett, Öfund burtsneiðið frá. O hversu inndælt, hversu létt Hans

bodorð finnast má, Hverjum hans ást íhuga rétt, Hans eptirdæmis gá.

5. Innges þú minum anda þá, O drottinn, vilja þann: Að unna góðs og gleðja', ef má, Með góðvild sérhvern mann, Afvenda skaða, ángri, þrá, Afstrikur hvar sem kann, En eitraða gleði aldrei fá Af sorg, er bróðir fann.

6. Þó sýnast kunni' hann sælli mér, Sízt skal eg nafn hans þó Baktali sverta, er sárt hann sker, Og sumum dauða bjó; Æ drottinn, minar varir ver, Svo varist að spilla ró; Lát mig þeinkja, hvað þúnga sér Þraut opt skæð túnga dró.

7. Gef eg þakklátur þina náð Þiggi og gæðin léð, Ofundarlaust svo geti gáð Góðs, er fær øðrum téð; Auði þinn hafi' yfir mér ráð, Og elskuríkt veiti geð, Svo banvæna øfund

burtu máð Bezt geti hans krapti með.

## No. 181.

Lagið: Nú bið eg, guð, þú náðir mig.

Ráðvanda þánka og hjartað hreint Herrann gefi mér ljóst og leynt; Fláráðum heimsins flærðarsið Forða mér, drottinn, þess eg bið; Innrættu mér það áform hjá, Öllum góðfýsi' og kærleik tjá; Lát mig framgánga falslaust hér, Svo fái' eg dýrðar-vist hjá þér.

## No. 182.

Lagið: Sæti Jesú, sjá oss hér.

Veit, ó guð, þín gæzka mér Gjöri ei úr þánka renna; Að líkjast og þóknast þér, Þú mér sjálfur virzt að kenna. Ætti' eg hatri illu að leyna, Er þig mildan fékk að reyna?

2. Blíður faðir allra ert, Allir

børn þin nefnast megum? Ef ei bræðr ur elskum, bert Er, þins kærleiks von ei eigum. Elsku Jesús af oss krafdi, Ást ad deyd sem til vor hafdi.

3. Synd uppgefur þú mér þrátt, Þú afmáir illgjørd ránga. Hver er eg, sem bistur brátt, bródur vid i rétt ser gánga? Synd ef viltu meta mína, Eg mun ei standast hegning þína.

## No. 183.

Lagid: Jesú Krist, þig kalla eg á.

Unn þú oss, gud, ad elska frid, Á medan lifa fáum, Ad í bródernis-sómasid Samlyndir vera náum; Anda þins krapti út oss bú, Ad Jesú líkj-ast keppum, Og ást ei sleppum, Ad brædra gagn vér eflum nú, Og þína blessun hreppum.

## No. 184.

Lagið: Faðir vor, sem á himnum ert.

Kærleiks-verk, sál mín, keppstu við; Kristnum sómir ástunda frið, Þar síðar eigum, børn guðs blíð, Búa saman um alla tíð; Til eindrægni skaptir erum vér, Eindrægni því oss rækja ber.

2. Eins herra þjónar erum vær, Eindrægni stundum nær og fjær; Allir samhuga í ást og trú Innbyrðis skulum lifa nú; O guð, tendra vorn elskueld Með anda þínum fyrir Kristi skuld.

## No. 185.

Lagið: Guð miskuni nú ollum oss.

Láttu mig, guð, sem líf gafst mér, Í leti aldrei falla, Heldur vel iðja, hvað sem ber, Hvert sem þú vilt mig kalla; Iðjuleysið þrátt orsok er Til armóðs, vansa' og klækja, Vislega bauðst því, minn guð, mér,

Mitt brauð af iðn að sækja, Þá skyldu rétt að rækja.

2. Styrk, svo ørþreytist mitt ei magn, Mæðan af von því léttist; Verkiðinn þegar vinn eg gagn, Von hef eg líka', að mettist; Hérvistar brúka hjálp mér tíð Hagkvæmast farsæld minni, Og veit það lukkist ár og síð, Upplífga þol og sinni Ávallt með aðstoð þinni.

---

## 5. Jesú eptirbreytni.

---

### No. 186.

Lagið: Jesú, þínar opnu undir.

Lofgjørð, þakkir, eilíf æra, Endurleystra hjálpar-von, Þú sem gjørðir þig fórnfæra, Þér sé guðs eingetni son; Kenn þú, Jesú mildi, mér, Meðan lifi, fylgja þér, Lífs svo réttan gáng eg geri, Glaður jafnan þar af veri.

2. Þó eg krossi þjáist stríðum, Þér afneita lát ei mig; Gráts á jafnt sem gleði tíðum Gef mér styrk að elska þig; Elska þig til enda lífs, Og í þrautum stundlegs kífs Hörmúng þína hafa' í minni, Huggi það mitt dapra sinni.

## No. 187.

Lagið: Hjartað, þánkar, hugur sinni.

Oss ber kristnum orku neyta, Áform hefja nýjum dug, Eptir Jesú allir breyta Ástundum með lyst og hug; Hlýðum boðum hans, er leið Til heilla oss í lífi' og deyð; Hver skal öðrum elsku veita, Almennings farsældar leita.

2. Sé oss steypt í sorg og mæðu, Af sjálfum þeim, er gjörðum gott; Vél þó brugga vinir næðu, Og verði launin byggða spott, Eptir Jesú hóg-værð hér Hug að laga girnumst vér;

Otraudur sá frelsarans fetar Feril, hann mun stadizt geta.

3. Allskjótt hédan eigum skunda, Eilífd þegar nálgast fer; Veginn dyggda vel ástunda Vors ad Jesú dæmi ber; Komid bædi konur og menn, Kristi fylgjum allir senn, Druggt keppum, áfram þreytum, J guds ótta sældar leitum.

No. 188.

Lagid: Þökk sé þér góð gjörd.

O Jesú, önd min Af ást og lofgjörd brenni; Ord, hegdan öll þín Elsku' og dyggd mér kennir; Daudans þúnga þú pín Þoldir, frí vid syndir, Ad frelsi mér fyndir.

2. Saung-rödd min sizt ein Samt þitt lof útbreidi, Heldur dagfars góds grein, Gud, þinn kraptur leidi Mig, svo varist vond mein, Vel mót glæpum strídi, Og sigri um sídir.

3. Ei skal mér, ei kann I frá þér neitt venda; Þinn eg er, því ann Þér til lífsins enda; Hvar eg fer um heims rann, Hjarta með og túngu Þér þökk skal súngin.

No. 189.

Lagið: Ovinnanleg borg er vor gud.

Gef mér, Jesú, um lífsins leið Lífs-reglum fylgja þínum; Þitt dæmi sé í sorg og neyð Sífellt í huga mínum; Ef rísa móti mér Min syndug girndin fer, Unn mér þó áfram með Oruggt að keppa geð, Uns fagna' eg fundi þínum.

2. Hvílík fagnaðar-fylling þá, Frelsi þitt er eg reyni, Og sé eymd mína alla' og þrá Úti með síðsta kveini. Þú gekkst á undan, eg Eptir þann sama veg Mæddur en glaður geing, Gæfu hlýt æðstan feing, Þá lokið lífs er meini.

3. Óhræddur geing eg áfram þá Um vegu þyrnum stráda, Þitt heit ei bregzt, skeids enda á Eg hlýt fullsælu þráda; Þá unnin þrautin er, Þykir lítilsverd mér Armædan, er eg beid Á æfi stuttri leid; Því eymd eg finn afmáda.

## No. 190.

Lagid: Kom skapari heilagi andi.

Minn Jesú, dyggda-dæmid þitt Draga fús vil eg heim til mín; Hjálpa þú mér, svo hjartad mitt Hafi í minni bodord þín.

2. Þú, sem gjördir og gjörir allt Til góda fyrir brædur þín, Mér vid ásetning sama halt, Sælu þá eflist vonin mín.

3. Lát mig í þessu líkjast þér, Lausnari hjarta-bezti minn, Kærleiki sannur kvikni' í mér, Kenn mér ad stunda vilja þinn.

4. Gjør mig vissan ad brúka bezt, Þau bjódast færi til ad sá Gódgjørd-um út, sem má eg mest, Minnast skammvinnu lifsins á.

5. Herra, uppfylltu hjartad mitt Med helgri girnd ad likjast þér; Mátt-inn ad gefa, þad er þitt, Þú sem bezt fyrir øllu sér.

6. Þá huldu gledi', ad gjøra vel, Gef eg ei burt fyrir nokkurn mun; Hana eg forsmekk hinnar tel Himn-esku, sem eg leidi' i grun.

7. Ad geta feingid gódan vin, Gudi likan á flestan hátt, Þad eru gædi, hverjum hin Himnesku vid þú likja mátt.

8. Óþakklátum og illum mér Otal velgjørdir gud réd tjá; Hans vegna fús hverjum, sem er, Hjálp min skal æ til reidu stá.

9. Ást þin, drottinn, er æfinleg

Við allar skepnur og þína menn; Eg bið, þú leiðir ætíð mig, Ástsemd og dyggð að stunda' í senn.

10. Þú birtir veldi þitt og dýrð Um þessa dásamlegu jörð; Æra sé þér af öllum skýrð, Elska, lotning og þakkargjörð.

## No. 191.

Lagið: Guðs son kallar: komið til min.

Gef, Jesú Kristur, gef þú mér, Að geta svo fylgt og hlýðnazt þér Á allri æfi minni, Að eg í sannri ást og trú, Eins og réttkristnum hæfir nú, Þér, guð minn, þóknast kynni.

2. Og þá pílagríms-gángan mín, Guð, svo eg nái heim til þín, Enda skal einu sinni, Sælu eilífa sýn mér þá, Svo eg fullkomnun himnum á Öðlist af elsku þinni.

## No. 192.

Lagid: Allt eins og blómstrid eina.

Lífs ferli' ad fylgja þínum Fýsir mig, Jesú kær, Vorkenntu veikleik mínum, Þó verdi' eg áleingdar fjær; Þá trú og þol vill þrotna, Þreingir ad neydin vønd, Reis þú vid reyrinn brotna, Og rétt mér þína hønd.

2. Í veraldar vonzku-solli Velkist eg, Jesú, hér; Falli þad opt mér olli', Óstødugt holdid er; Megnar ei móti ad standa Mín hreysti náttúrlig, Láttu þitt ljós og anda Leida og styrkja mig.

## No. 193.

Lagid: Jesú, þínar opnu undir.

Sann-audmjúku, gud, mig gædi Gedi helgur andi þinn, Hvern dag vel svo hugsa nædi Um hrøsun, vansa' og breyskleik minn; Ad eg blygdist æ fyrir

þér, Einn sem hjörtun manna sér, Og náð skærri þakki þinni Það gott allt, mér hlotnast kynni.

2. Góði faðir, lið mér ljáðu, Að líkjast mætti' eg jafnan þér, Arni góðs þeim, böls mér báðu, Blessi þann, mig hata fer; Halt sál minni hógværð við, Hjartað mitt lát elska frið; Minn ef hrasar breyskur bróðir, Bæta lát mig úr með góðu.

3. Gef, eg hlýðni tjái trúa Til lífs enda boðum þín; O guð, lát mér ekkert snúa I frá þér og skyldu mín. Öll mín von á einn er þig, I ótta þínum framleið mig; Þínum merkjum þjóni' eg undir, Þar til okkar verða fundir.

## No. 194.

Lagið: Guðs son kallar: komið til mín.

Guð, hvað er líf mitt? háski, stríð;

Hvad er min æfi? reynslutíd, Freistni hvert fótmál vefur; Frá þér holdid, sem breyskt eg ber, Blekkinn heims-sollur eins frá þér Mitt hlaup til marksins tefur.

2. Skyldi' eg gálaus framgánga þá, Og gleyma stundu vid ad sjá Freistingum, fári, snörum? Hroka-fullt, svikult hjartad er; Hvad fljótt mundi þad steypa mér Í synd og eymd óvörum?

3. O fadir, lát þá anda þinn Upplýsa daufan skilníng minn, Æ betur ad eg þekki Sjálfan mig, heim-inn hættan hér, Hverjum í gegn mér strída ber, Ad sízt mig sigri' og blekki.

4. Yfir mér, gud, já, í mér vak, Aldrei hønd þína frá mér tak, Um megn fram ei lát reynast. Hvad illt eg heyra hlýt og sjá, Helga mér efli

vareygd hjá; Minn gud, hvad má þér leynast?

5. Otal heims vélum illum gegn Eg hef, sem styrkir hug og megn, Jesú, þitt dyggdadæmi; Þú ert minn vegur, líf og ljós, Ad líkjast þér, mitt æ skal hrós; Heims venju' eg sízt þá sæmi.

6. Mín trú á þig er sigur sá, Sem illra heimsins dæma má Eitr-adar örvar vinna; Á þig eg horfi; auk mér dug, Adferd þins strids mér vaki' í hug, Nær freistni kann eg finna.

7. Ef eg stend, herra, er þad nád, Ekki minn dugur, veit því dád, Eg verjist vodaföllum; Gef eingan dæmi gálaus min Ginni frá hlýdni boda þín; Uppvakning séu þau öllum.

8. Eg vil þá strída, vaka trúr, Vanda mig, bidja; gud, minn múr,

Lids kanntu sízt mér synja, Míns Jesú æ fyrir augum mér Allt hafa dagfar, og frá þér Um hjálp auð-mjúkur stynja.

9. Jesús til manna freistni fann, Fyrir mig alla yfirvann Óvini, eg því líka Óvini sigra alla kann, Allt vel eg megna fyrir hann, Ef adstod hans odlast ríka.

10. Já, þúngt er enn, þó stutt mitt stríd, Stutt þessi hætta reynslu-tíd; Veit, gud, eg geti varizt; Eilíft sig-urhrós, eilíft hnoss Af þér, nær sigr-um, geymt er oss; Ekki' er til einkis barizt.

## No. 195.

Lagid: Krists er koma fyrir höndum.

Víst er eg veikur ad trúa, Veiztu þad, Jesú, bezt, Frá syndum seinn ad snúa, Sem mig nú ángrar mest; Þó framast, þad eg megna, Þínum

ordum eg vil Treysta og gjarna gegna; Gef þú mér náð þar til.

## 6. Guðs orð og bænin.

### a) Orðið.

### No. 196.

Lagið: Hjartað, þánkar, hugur, sinni.

O guð, fyrir augsjón þína Auðmjúkir í bæn og trú Komum vér, lát ljósið skína Lífsins-orða þinna nú; Virztu' oss sjálfur vera hjá, Og veita aðstoð, þinum á Orðum hafa góðar gætur, Gef þau hjá oss festi rætur.

### No. 197.

Lagið: Sæti Jesú, sjá oss hér.

Guð, í þinu nafni nú Nálægir hér saman erum; Hjálpa, góði herra þú, Að heiður þinn og dýrð framberum;

Gef, þad hver med gledi finni, Gud, ad ertu hjá oss inni.

2. Vér þá sælir verdum hér Vorar allar lífsins tídir, Og leidumst, nær æfin þver, Upp í himna dýrd um sídir, Hvar ásamt guds eingla sveitum Eilífa þér dýrkun veitum.

## No. 198.

Lagid: Guds son kallar: komid til min.

Kirkju þina vér komum í, Kærasti fadir, enn á ný, Og bidjum ástsemd þina, Af nád oss senda nýjan dug, Ad nædum stunda þig af hug Þekkja, sem þin ord sýna.

2. Ords þins sannleiki, ædsti gud, Alla svo hræri, þin ad bod Med alúd helgri heyrum, Svo þau grandvarir getum bezt Í gódu hjarta jafnan fest, Til farsældar oss og fleirum.

3. Lát sérhvert ord, sem heyrum

þér, Helga vort líf og vilja þér, Svo verði dýrð þér samin; Vora upplífga von og trú, Virztu oss alla að blessa nú; Heyr, faðir, heyr oss, amen.

## No. 199.

Lagið: Heiður sé guði himnum á.

Styrk þú, drottinn, vorn vilja vel, Vér nær í þitt hús gaungum, Svo að hégómlegt hræsnishel Hér finnist með oss eingum; Lát með athygli' og lyst oss þar, Til lærdóms, ráðs og huggunar, Lífsins-orð þín heyra laungum.

2. Lát þekkjanlega þetta hér Þitt orð blessast oss öllum, Lofgjörð vor gef að líki þér, Líkn veit, nær þig ákölllum; Gef, Jesú dyggða gaungum spor, Geymdu þitt orð á meðal vor, Uns upprennur eilífð öllum.

## No. 200.

Lagid: Fadir vor, sem á himnum ert.

Þú elskar þá, ó gódi gud, Sem girnast þin ad stunda bod; Med alúd heyra ord þin veit Oss, sem í þenna søfnumst reit; Hjálpa þú oss, og gef vort ged Gladværri rósemd fyllist med.

2. Virztu med nád ad vera oss nær, Veikleikann styrktu, fadir kær; Kenn oss þig elska einan mest, Oss og náúnga gagnast bezt. Gud, sem einsaman gæzka er, Gef, þig um eilífd prísum vér.

---

### b) Bænin.

## Nó. 201.

Lagid: Gud miskuni nú øllum oss.

O gud, syndarinn eg kem hér Í augsýn bidja þinni; Af hástóli þínum héztu mér, Hyggja ad beidni minni;

Stór og háleit er hugsan sú, Hjarta míns girnd þú alla Uppfyllir; faðir, æ, lát nú Anda þinn mér tilfalla, Og kenna þig rétt ákalla.

2. Avallt skal því mín iðja trú, Á dyggða-braut fram keppa, Mín ósk og stundan sífellt sú, Sáluhjálpina' að hreppa; Þessi velfarnan, ó guð, er Ómissandi sál minni, Öruggur því þá ósk fram ber, Eg vona hún af þinni Aðstoð áheyrslu finni.

3. Hlutskipti mínu, herra, ráð, Hagsæld ei þekki' eg mína; Hitt kannast eg við, hvað þín náð Hefur mér virzt auðsýna; Það er allt gjört til góða mér; Guð, þín stjórn speki skýrir, Hvað við mig skeður, er frá þér, Allra því velferð stýrir Þú, guð og drottinn dýri.

4. Meir þó en herra minn þú ert, Minn faðir líka heitir, Heyri eg

ord þín herma bert, Hollur oss nálægd veitir; O hvad styrkir sú hugsan mig, Helzt þá mitt andvarp grætur, Anægdur veit eg þad um þig, Þú ad mér, fadir mætur, Í hverri neyd gefur gætur.

5. Hjálp fadir, svo í hverri neyd Heit sé mín bænar-idja; Hjálpa mér, nær eg nálgast deyd, Nádþyrstum svo ad bidja; Bænheyr mig, og heyr blídur nú Bæn þessa' af miskun þinni; Bæn mína ætíd blessa þú, Bænrækinn ad hvert sinni Réttkristins frid eg finni.

## No. 202.

Lagid: Gæzkuríkasti græðari minn.

Líknsami gud, sem gefur allt Gott, og hjálpadir mér ávallt, Þá neyd eg nádi kanna; Um míkinn bid eg ekki aud, En nóg afskamtad daglegt braud, Og gedþóknun gódra manna;

Lát mig Þá þig Blíðan finna, Þegar þinnar Þreyðu náðar Leita' eg eptir æfi þjáða.

## No. 203.

Lagið: Hver sem ljúfan guð lætur ráða.

O guð, í auðmýkt kenn mér kvaka; Kraptarins guð, sem himnum á Öllu ræður, virztu' að þér taka Oss, faðir kær, þín börnin smá, Það líknar-nafn vort gjörir geð Glatt, sonar-ótta fyllir með.

2. Því mun eg aumur þora' að kalla, Í þinni verndan læstur hér: Guð, sem von mína' uppfyllir alla, Er stór, og heilagt nafn hans er; Það lof þá stama fram eg fer, Fylking eingla samsýngi mér.

3. Kenn mér fánýtum glansa' að gleyma Og gull-eign jarðar, metnað, lyst, Af munni hjartans ósk lát streyma:

O guð, þitt ríki komi víst; Undir eins og eg ávinn það, Auðnast mér líka gott sérhvað.

4. Kenn mér, þá veröld vond mig ginnir, Að vill hún draga heill mig frá, Svo þoli' og gjöri' eg sérhvert sinni, Hvað sem þín forsjón gott mér sá; Þinn guðdóms-vilji veit oss hjá Verði jörðu sem himnum á.

5. Þig, alls hins góða, bið eg, brunninn: Blessa min störf, gef dag-legt brauð, En þó eg rata eymdir kunni, Auktu mér þol, svo léttist nauð; Og fyrir Jesúm unn mér fá Allt, sem til góðs mér þéna má.

6. Eg óttast, guð, alvizku þína, Sem innstu þekkir hjartans-slóð; Æ, aumka þig, synd alla mína Afpláña láttu Jesú blóð; Þá aðrir gjöra' á móti mér, Í miskun gef eg líkist þér.

7. Og þú, sem snörur þekkir all-

ar, Þær holdið egnir minni sál, Og hættur, sem eg í kann falla Opt fyrir heimsins slægð og tál, Yfirgef þú mig ekki' í neyð, Utrykktu mér af synd og deyð.

8. Þér skal um aldir þakkir færa, Þér eilíft syngja lof og prís, Því ríkið, vald þitt er og æra, Einn ertu góður, stór og vís; O hvað fagnandi himnum á Hallelúja lof sýng eg þá.

## No. 204.

Lagið: Faðir vor, sem á himnum ert.

Hjálpa mér, drottinn, hvar eg fer, Í hverju sem að höndum ber; Fyrir aðstoð og almátt þinn Í gleði breytist harmur minn; Gef, að framkvæmist gagnið mitt, Guð, svo eg prísi nafnið þitt.

2. Lífið er stutt, kenn, minn guð, mér Mínum svo verja dögum hér,

Ad tækifæri aldrei neitt Idju skyldunnar frá sé sneitt. Tíd, sú eitt sinn mér fór burt frá, Fást sídan ei til baka má.

3. Ef ad vellyst min freista fer, Fadir, þinn kraptur líkni mér, Og veiti rád, hug, vilja þá, Vel ad strída og sigur fá; Sú yfirvinning verdur hér Vegur til himna-lífs hjá þér.

4. Lán og hygginði' ef lénast mér, Lát mig þá gjøf vel nota hér; Blessa þú mér þad bytta allt, Vid brúkun rétta þess mér halt, Mér til heilla í hvert eitt sinn Og hjálpar vid náúnga minn.

5. Falli sorg og mótlæti' á mig, Minn gud, kalla eg strax á þig; Því øruggt hæli ertu mér, Alla eg byggi von á þér, Neyd og andstreymi frelsa frá; Fadir, í náð mig líttu á.

6. Loksins þá jørdu ekkert á Ork-

ar mér framar ró að fá, Þegar senn fyrir sjónum mér Sortna við grafar-barminn fer, Enda þá mína alla neyð, O faðir kær, með sælum deyð.

## No. 205.

Lagið: Svo elskaði guð auman heim.

O guð, eg kem fyrir augsjón þér, Aumum bezt líkna virztu mér; Öll gefi brot og illverk kvitt, O guð, náð og þolgæði þitt.

2. Hreint skapa, faðir, hjarta' í mér, Hjarta fullt ótta' og elsku' á þér, Hjarta þökk, auðmýkt, heiðrun fyllt, Hjarta jafnan rósamt og stillt.

3. Verndari' í háska vertu minn, Vona' eg á þig, minn fulltrúinn; Skyldi' ófall nokkurt skelfa mig, Skýli mér hönd þín guðdómlig.

4. Þitt nafn sé æ fyrir augum mér; Önd mín svo fögnuð hafi' í þér,

Við mína' að geti' eg glatt mig trú',
Gef í ást æ sé kröptug sú.

5. Hvað þú mér kennir, heill mín er; Heill sé það mín, að eg, sem ber, Umfram allt stundi orðin þín, Alla trúr ræki skyldu mín.

6. Allt of veikt krapta minna' er megn, Mínum girndum að stríða í gegn; Þú kannt íklæða krapti mig, Eg kann allt sigra fyrir þig.

7. Heims þessa' af gæðum gef þú mér, Guð, svo mikið sem líkar þér; Hóflegan skamt gef þínum þjón, Þó blessa iðju hans og von.

8. Ef hönd þín gnótt mér gefur ör, Gef þau hófsamur brúki' eg kjör, Og með góðvild af gnægtum þín Gleðji fátæka bræður mín.

9. Einlægan gef mér ástvin þann, Óhult hverjum eg trúa kann, Hver

með mér stundi' að hlýðnast þér, Huggun, ráð, dæmi gefi mér.

10. Ef að þín gæzka ætlar mér Æfiskeið leingra' í veröld hér; Öllu, faðir ástkæri, ráð, Aldraðan svipt ei þinni náð.

11. Og þá lífs endi loks að fer, Líkn þín mig taki bezt að sér, Minn skjöldur, hlífð og mikil laun, Minn guð, þá vert fyrir Krist, þinn son.

## No. 206.

Með sínu lagi.

O, guð vor faðir, sem í himnaríki ert, Hátt yfir oss í anda mest, Vilt því tilbeðinn verða, Helgasta nafn þitt hjá oss verði opinbert, Heiðrað og lofað allra bezt, Á himni og á jörðu; Þitt náðar-ríki komi hér; Kenn oss í því að lifa, Og hvað sem ekki þóknast þér, Þar frá virztu' oss að hlífa,

Svo æfinlega ødlumst vér Í þinu ríki' ad blífa.

2. Voldugi gud, þinn vilji verdi jørdu á, Vel, jafnan og á allan veg, Eins og í himnaríki; Því þar kann einginn standast eda koma má, Utan þinn vilja idki mjøg, Og lifi, svo þér líki. Vort daglegt braud oss veit þú nú; Vora sál endurnæra Lát þitt fridarord; frá oss snú Falskenníng', en þad læra, Hvar med þú oss á helga trú Og hjálparveg vilt færa.

3. Forlát oss vora miklu skuld og marga synd, Módgum vér þar med jafnan þig, Þær virztu' af oss ad taka, Svo sem vér fyrirgefum þeim af gódri lund, Sem gjørdu oss mót og styggdu mjøg, Ei viljum þá ásaka. Í freistni þú oss ekki leid, Á rángan veg svo víki, Heldur frelsa' oss af allri neyd; Athøfn vor gef þér líki;

Upplýs og helga oss, þinn lýð, Að erfum vér þitt ríki.

---

## 7. Skírn og kvöldmáltíð.

### a) Á undan skírn.

### No. 207.

Lagið: Halt oss, guð, við þitt hreina orð.

Svo elskaði guð auman heim, Að einka-son sinn gaf hann þeim, Að allir, sem trúa á hann einn, Eilíft líf hafi', ei tapist neinn.

2. Jesús Kristur, vor herra kær, Kom í heiminn, að frelsunnst vær; Sínum postulum sjálfur hann Sagði hjálpræðis-lærdóm þann:

3. Endurfæddur sá ekki er Af vatni og guðs anda hér, Í guðs ríki kann ekki fá Inn að gánga og það að sjá.

4. Því farið út um allan heim,

Til allra þjóða, kennið þeim Friðar-lærdóm og fögnuð þann: Fullnaðar-lausn eg öllum vann.

5. Hverjir sem þiggja þessi ráð, Þeim skuluð veita skírnarnáð Í nafni föðurs og sonar, Og anda guðs, sem allt helgar.

6. Eins sem eg hefi yður sett, Allt kennið þeim að halda rétt, Í trú, kærleika' og kristnum sið, Kvöl og hörmúng ei skelfist við.

7. Vor herra Jesú, varðveit þú Veika kristni í réttri trú; Leys oss frá allri andar-neyð, Í himna frið og fögnuð leið.

## No. 208.

Lagið: Heiðrum vér guð af huga' og sál.

Vor guð, heilagi herra, þér Heiður og pris um eilífð ber, Von sálu-hjálpar veitir þú Í vorri skírn; þig

bidjum nú: Hjálpa oss, fadir, fyrir þér Fram ad gánga, sem skírdum ber, Hólpnir allir svo verdum vér.

---

b) **Eptir skírn.**

No. 209.

Lagid: Jesú, þínar opnu undir.

Fadir, sonur og fridar-andi, Fót minn leid þú hrøsun frá, Skírnar-heit svo vel eg vandi, Virztu nád og styrk mér ljá, Ad lifa svo, ad líki þér, Líf á medan veitist mér, Uns á himnum fæ eg finna Føgnud medal barna þinna.

No. 210.

Lagid: Halt oss, gud, vid þitt hreina ord.

Þetta barn þér befalad sé, Blídi Jesú, vor lausnari; Í þína kristni þad innleid, Þyrm og frelsa frá allri neyd.

2. Ætíd hlíf því med adstod þin Frá ólukku, slysum og pín; Med þinni ást og mildri nád Miskuna því og blessa þad.

3. Veit því med aldri vort og spekt, Ad verdi hlýdid þér og þekkt, Og lifi svo í heimi hér, Ad himneska fái dýrd hjá þér.

## No. 211.

Lagid: Hver sem ad reisir hæga byggd.

Allir foreldrar, ó gud, magn Og adstod hjá þér finni, Sinna afkvæma sálargagn Svo stunda' í veröldinni, Ad segja kunni sídar meir: Sjá nú, drottinn, hér em og þeir, Mér gafst af mildi þinni.

---

### a) Á undan altarisgaungu.

## No. 212.

Lagid: Hver sem ad reisir hæga byggd.

Minn gud, þú sér og þekkir nú Þad

allt, mitt hjarta bidur; Sjá, þitt í audmýkt, ást og trú Altari krýp eg vidur; Sálar helg laungun sé hér mín Sameinud náð og blessun þín, Eykst þá minn andar-fridur.

---

b) **Um útdeilingu.**

## No. 213.

Lagid: Jesú, þín minning mjøg sæt er.

Hvad góðgjarn ertu, Kristur kær, Er kallar oss þínu bordi nær; Samein-adir hér søfnumst vér, Ad sækja styrk og traust hjá þér.

2. Þú vilt oss sjálfur vera hjá; Vér skulum, eins og bod þín tjá, Minnast á kærleik mikla þinn Ad máltíd þessari, drottinn minn.

3. Vér hlýdnumst þessu hvert eitt sinn, Því, herra Jesú, fadir þinn Verøld elskadi' og veslan mig, Ver-øldinni því gaf hann þig.

4. Elskan þín var svo undra-há, Að dauðann leiðstu krossi á; Dóst fyrir bræður þína þú, Þínir hvers bræður minnast nú.

5. Þitt líf og dauði þannig bjó Þínum friðkeyptu sálar-ró. Æ veittu oss með dyggð og dáð, Dýrmæta þá að mikla náð.

6. Blessaðu, Jesú, oss þitt orð, Oss blessa við þitt náðarborð; Opinberlega allir hér Í ást og trú sameinumst þér.

7. Eins og faðirinn eitt með þér, Allir gef þú að séum vér, Og hjartanlega elskum hann, Elskum þig, sem oss leysa vann.

8. Fyrir þig vill vor faðir þá Föðurlega oss gæzku tjá, Og af náð gott uppfylla það, Er hver einn um að réttu bað.

9. Á þig trúum og vonum vær,

Vert oss med líkn og huggun nær; Í lífi' og dauda hlýdnum hér Hjálpa oss til ad fylgja þér.

10. Æ, þá skyldu eg illa braut, Eilífan voda þar af hlaut. Son guds, þinn dómur sannur er: Syndugir standast ei hjá þér.

11. Elska vidkvæmust þrýsti þér, Pjáning og písl ad lída hér; Ad þín-um dyggda unnum síd Allir synd-irnar skiljumst vid.

12. Blessadi drottinn bezti, þú, Blessa enn vora fundi nú, Svo leit-um alls hjá einum þér, Andlega sem oss farsæld lér.

13. Vid æfi lokid stutta stig Styrk oss, drottinn, vér bidjum þig, Med vissu nádar þinnar, þá Þreyttir leys-umst vér hédan frá.

14. Hallelúja, vor gódi gud, Geyma viljum vér öll þín bod, Þér

einum kemur frelsið frá, Frá þér vor guð, hallelújá.

## No. 214.

Lagið: Jesú, þín minning mjøg sæt er.

Auðmjúk nálægir øndin mín, O Jesú Kristur, sig til þín, Og minnist skipun eptir þín A dauða þinn og bitru pín.

2. Elska var það, sem þrýsti þér, Pjáning og písl að líða hér; Hneigðu burt dóstu høfði með, Hjálpræði fékkstu mønnum téð.

3. Tapaðra ekki tølu í Trúi' eg framar að verða því; Guð, þinn faðir, vill fyrir þig, Frelsari, Jesú, náða mig.

4. Mín sál trúir og finnur frið, Fastlega jafnan gleðst þar við, Jesú, eg með þér jarðast á, Jørðunni mun þó rísa frá.

5. Fyrir þinn kærleik þakka' eg þér, Þjáning leidstu til frelsis mér. O, lát forgefins aldrei mig Um þína hugsa pínu' og þig.

6. Upp á margreynda elsku þín Ohult sig reidir sálin mín, Gnægd þinnar nádar gefi mér Góðfýsi til ad hlýdnast þér.

7. Afvormid þad, sem eg hef nú, Eptir ad fylgja þér, Jesú, Hvort sem mér geingur med eda mót, Min sé laungun af hjartans rót.

8. Og þó eg villist eitthvert sinn, Yfirgef mig ei, drottinn minn, A réttan aptur stig mig styd, Stødugt á sama halt mér vid.

9. Veiztu bezt, Jesú, vanmátt minn, Veit, ad eg geymi lærdóm þinn; Þegar ad høndum þjáning ber, Þolgædi þitt sé dæmid mér.

10. Med eptirlaungun ondin min

Upplyptir, Jesú, sér til þín; Um þinna boða leið mig leið, Lífsins á meðan renn eg skeið.

## No. 215.

Lagið: J dag eitt blessað barnið er.

Eg kem, ó herra', og eptir þér Af ángri mæddur leita; Virztu því enn af miskun mér Mildi og náð að veita; Að þínum kropinn er eg trón, O, þú guðs og mannsins son, Hjartað mitt nú hughreystu. Syndanna ángur særir mig; Sál mína friða', eg trúi á þig Einn með þeim endurleystu,

2. J lifandi trú eg leita' að þér, Sem léttir synda byrðum; Vor syndasekt afplánuð er, Að þar með guðsbörn yrðum. Um hörmúng þína hugsa' eg nú Og hjálp, er mönnum veittir þú, Min heill er af þér orðin, Þá fyrir mig þú fórnaðir þér, Fod-

urnum gedþekk aptur er Øll endur-
leysta jørdin.

3. Gled þig því hjarta mitt i mér, Misverk þín bætt hann hefur, Náð þér og mildi mestu hér I máltið sinni gefur; Ef hrópar, þinni' hann ansar bón: „I huga styrkur vert, minn son, Kvitt skulu brot þín blifa; Upp á minn reiða átt þig deyð, Ætið skaltu þeim, fyrir þig leið, Með hreinu hjarta lifa".

4. „Þér gefst hjálpræði' og heillin nú, Yfir henni' i trú skalt vaka; Fyr-
ir óvarúð ei lát þú Þinn æru-krans burt taka, Sjá, hér eg mig innlifa þér, Eg er vintréð, blif á mér; Æ skaltu ávøxt bera; Eg vil hughreysta' og efla þig, Fyrir elsku þina' og trú við mig Sigursæll vist skalt vera".

5. Herra, þín boð eru' heillin mín, Halda þau lát mig feginn, Veit, fyr-
ir dauða og verk øll þín, Sá vilji

styrkjast megi, En upp frá þessu unntu mér, Allt mitt hjarta ad gefa þér, Þinn dauda þakka' og prísa; Lát mig svo helgun æfast í, Og endurbótar-verkin ný, Medan lifi, auglýsa.

## No. 216.

Lagid: Jesú, þín minning mjøg sæt er.

Vid þína nádar-máltíd mér Mæta býdur þú, Jesú, hér, Svo ad, eins og þú manst til mín, Minnast skuli eg einnig þín.

2. Heimur mig því hindradi frá, Hans glys eg framar stundadi' á. Hvad opt freistar mín hold og blód, Ad halda af réttri gæfu-slód.

3. Æ, þá eg gleymi þinni nád, Og þad til góds hef veika dád, Gætir ei skyldu gleymskan blind, Glæpugur bæti' eg synd á synd.

4. Æ, hjálpa mér rétt hyggja' ad

því, Hvernig þú umgekkst veröld í; Þá missir veröld mitt afhald, Missir þá syndin krapt og vald.

5. En það eg braut þér ávallt mót, Angrar mig nú af hjartans rót. Æ, skyldi' eg vera vinur þinn, Veikan, hvikulan mig sem finn?

6. Já, í von þori jeg og trú Jesú þinn að minnast nú. Skal hann ei minnast mín, sem þó Mig fyrir sekan leið og dó?

7. Komi nú þúnga þjáður hér, Og þreyttur hingað komi hver. Þeir öðlast frið, sem trúa traust, Og trega syndir hræsnislaust.

8. Upp á þín kem eg eigin orð, Og mæti, Jesú, við þitt borð; Bænheyr míns hjarta harmaraust, Hjá þér, á þér er allt mitt traust.

9. Gef oss að minnast ætíð á Endurlausn, sem þér feingum hjá;

Gef oss, herra, á himnum stað Hjá þér; Af miskun bænheyr það.

## No. 217.

Lagið: Kristi, vér allir þökkum þér.

Frelsari góði, fyrir þitt borð Framkrýp eg þessu sinni, Pína þínu og efstu orð Auðmjúkur hef í minni; Nafn þitt vegsama vil eg hér; Vera má hver, sem treystir þér, Fullviss, að miskun finni.

2. Er eg þess verður, að þá náð, O Jesú, reyna fái? Elska eg þig af allri dáð, Umbót svo vinna nái? Er mín trú þér svo þóknanleg, Það upprisinn á síðan eg Dýrð þína, son guðs, sjái?

3. Þú rannsakar og þekkir mig, Þú veizt af gleymsku minni; Of sjaldan minnist eg á þig Í hryggð og velgeinguinni. Æ, hvað dárleg mín

illskan er; Eg veikur treysti, Jesú, þér, Ad fyrirgefning finni.

4. Medtaktu, drottinn, mína trú, Medtak þad heit, eg gjørdi, Helgist þér allt mitt hjarta nú, Helgist þér mitt framferdi; Sjálfur hér mína sálu prýd, Svo eg maklegur alla tíd, Guds son, þinn gestur verdi.

5. Þú sem í minníng' þína hér Þessa baudst oss ad neyta, Svo allir jafnan ættum vér Eptir þér, Jesú, breyta, Láttu oss þannig lifad fá, Ad lærdóm þinn vér stundum á; Virztu krapt þar til veita.

## Minnstu, ó madur, á minn deyd.

Sjá No. 76, og fleiri ad framan prentada sálma um Jesú pínu og dauda, No. 70, 74 og 75.

---

### c) Eptir útdeilingu.

### No. 218.

Lagid: Jesú, þinar opnu undir.

Jesú, sem ad daudann deyddir, Og daudlegum gafst lífid mér, Þú ad bordi lífs mig leiddir, Lausnar-pantur feinginn er; Efl þú mína ást og trú, Auk mér sálar-rósemd nú; Þig mitt lífid heidri' í heimi, Hjálp veit, þér eg aldrei gleymi.

---

## 8. Daudinn, upprisan, dómurinn.

---

### No. 219.

Lagid: Hver sem ljúfan gud lætur ráda.

Hver veit, hvad fjærri' er æfi endi? Ódfluga tíminn burtu fer; Brádlega má ske beri' ad hendi Burtfarar-kallid daudans mér. O gud, þá daudans dregst ad nótt, Deyja gef þú mér vel og rótt.

2. Má ske í nótt þú munir kalla Mína sál í eilífdarrann, Og hreysid líkams fyrri falla, En fela sólu hafid kann. O gud, þá daudans dregst ad nótt, Deyja gef þú mér vel og rótt.

3. Kenn mér þá vizku, vel svo telja Vegferdar minnar daga hér, Ad þinn eg stundi veg ad velja, Vakni til sælu' og lífs hjá þér. O gud, þá daudans dregst ad nótt, Deyja gef þú mér vel og rótt.

4. Vid elsku heimsins unn mér vara Æ mínu hjarta taka á; Þegar þú kallar, þori' eg svara Þá: mig tilbúinn, herra, sjá. O gud, þá daudans dregst ad nótt, Deyja gef þú mér vel og rótt.

5. Veit þú, ad einginn hlutur hrífi Hjartad mitt þínum ótta frá; Oll skal mín vera lyst í lífi, Líka í dauda

von þér á. O guð, þá dauðans dregst að nótt, Deyja gef þú mér vel og rótt.

6. Virztu með Krists verðskuldun hylja Vel mínar syndir, faðir kær; Þeim, sem iðrast og vanda vilja Verk sín, miskunin æ er nær. O guð, þá dauðans dregst að nótt, Deyja gef þú mér vel og rótt.

7. Komi því minnar æfi endi, Eg af heiminum glaður fer, Á míns frelsara fund eg vendi, Finn þig, ó guð, náðugan mér; En þegar dauðans dregst að nótt, Deyja gef þú mér vel og rótt.

## No. 220.

Lagið: Allt eins og blómstrið eina.

Hversu mig leysast lángar, Lifandi guð, þú sér, Og frá holds fjötrum gánga Í frelsi mitt hjá þér. Ef finn eg ángist eina, Otalfalt böl og

vei, Harm sál og hjartað reyna,
Hægist þeim, nær eg dey.

2. Fús heli fáng eg breidi, Fæla
mig það ei kann, Fyrst Jesús drott-
inn deyði, Dyr lífs sem opna vann.
Nær guð svo vill mér vegni, Vilj-
ugt eg dey með þel; Hans kalli glað-
ur eg gegni; Gott er að deyja vel.

3. Allt þó mér veita vildi Veröld
ágæti sitt, En eg hér ei við skildi,
Óhapp það væri mitt. Á himnum
allt er betra, Eg fagna, þegar má
Fara til feðra setra, Fyr komnum
búa hjá.

4. Mín burtför má ske græti Mér
léntra vina geð, Og þeir, eg við skil,
væti Veinandi minn nábeð; Ef dauð-
inn út mig kallar, Öflug sú huggun
er, Þá finn eg aptur alla, Sem ást-
kærir voru mér.

5. Í stríði' hins stránga dauða,

Styrk veittu, fadir, mér, Lát bøli linna nauda, Lifs neyd þá hættust er; Svali, nær sídast anda, Sálunni fridur þinn, Þá sendri þér til handa Þæg verdur burtførin.

## No. 221.

Lagid: Hver sem ljúfan gud lætur ráda.

Æ, voknum, daudinn ádur en kall- ar Oss á óvæntri hédan stund; Aldr- adir bædi' og úngir falla Í sótt, og hraustir hels í blund. Sin afdrif fyrir einginn sér, Ætíd vidbúinn sæll því er.

## No. 222.

Lagid: Upp á fjallid Jesús vendi.

Gladur hédan vil eg venda, Vært í jardar skaut á ný; Neyd med lífi ná mun enda, Næsta feginn verd eg því, Audnist mér ad lyktum lenda Lífnarhøndum drottins í.

2. Hvað má framar auka ótta? Eg með ró vil dauðann sjá, Sem úr lífs mig færir flótta Til frelsarans, hvern að vin eg á; Sál, við aðför andláts nóttar, Í guðs vernd sig fela má.

3. Sá fullkomnað hér allt hefir, Hann mun annast líf mitt hér; Jesú, styrk þín gæzka gefi, Til grafar trúr eg reynist þér, Vel viðbúinn, kært þá krefur Kallið dauðans önd af mér.

## No. 223.

Lagið: Hjartað, þánkar, hugur, sinni,

Kristi', er lézt á krossi lífið, Og krapti með það aptur tókst, Dauða míns að duga' í kífi, Dáð og krapta þú mér jókst. Hel fær grandað hvergi mér, Ef hlýðnast eg og treysti þér; Mig, í trú sem fer þín feta, Flytur það til lífsins betra.

2. Lífsins fjör þá magnlaust mæð-
ist, Mér gröf opnar kjöltu sín, Ógn-
un dauðans hvergi hræðist, Horfi' eg
glaður upp til þín, Fel ókvíðinn frelsta
önd, Frelsari minn, í þína hönd,
Feta helstig fúsu geði, Fullur af hugg-
un, von og gleði.

3. Þú ert, drottinn, ljós og lífið,
Líkn og traust er orðið þitt; Þú mér
hefur heit það gefið, Að hold einúngis
rotni mitt; Í vegsemd eg upp mun
stá, Ávallt fremd í dyggðum ná,
Ávallt kröptum æðri safna; Eingu má
við sæld þá jafna.

## No. 224.

Lagið: Gæzku guðs vér prísum.

Sjá, Jesú, vegferð vora Umvafða
hættu' og þrá; Veit oss varlega' að
fara, Vertu oss ætíð hjá, Óhult um
dauðans dal Vér svo braut þúnga

þreytum, Þér loks í gledi mætum,
Og fyllum frelstra tal.

## No. 224.

Med sinu lagi.

Allt eins og blómstrid eina Upp-
ver á sléttri grund, Fagurt med
frjóvgun hreina, Fyrst um dags morg-
un-stund, A snøggu augabragdi Af-
skorid verdur fljótt, Lit og blød nid-
ur lagdi, Lif mannlegt endast skjótt.

2. Svo hleypur æskan únga O-
vissa daudans leid, Sem aldur og
ellin þúnga, Allt rennur sama skeid.
Innsigli eingir feingu Upp á lifs-
stunda bid, En þann kost undirgeingu
Allir, ad skiljast vid.

3. Daudinn má svo med sanni
Samlikjast, þykir mér, Slingum þeim
sláttumanni, Er slær allt, hvad fyrir
er, Grøsin og jurtir grænar, Glóandi

blómstrid frítt; Reyr, stør sem rósir vænar Reiknar hann jafn-fánýtt.

4. Lífid manns hratt fram hleypur, Hefur þad einga bid, Í daudans grimmar greipur, Grøfin tekur þar vid; Allrar veraldar vegur Víkur ad sama púnkt; Fetar þad fús sem tregur, Hvort fellur létt eda þúngt.

5. Hvorki fyrir hefd né valdi Hopar dauđinn eitt stryk, Fæst sízt med føgru gjaldi Frestur um augnablik; Allt hann ad einu gildir, Þótt illa líki' eda vel; Bón ei né brædi mildir Hans beiska heiptar-þel.

6. Menn vada' í villu og svíma, Veit einginn neitt um þad, Hvernig, á hverjum tíma, Eda hvar hann kemur ad. Einn vegur øllum greidir Inngáng í heimsins rann, Margbreyttar lízt mér leidir Liggi þó út þadan.

7. Afl daudans eins nam kreinkja Alla í veröld hér; Skal eg þá þurfa' ad þeinkja, Hann þyrmi einum mér? Adams er edli runnid Í mitt náttúrlegt hold; Eg hef og þar til unnid, Aptur ad verda' ad mold.

8. Hvorki med hefd né ráni Hér þetta líf eg fann; Sálin er svo sem ad láni Samteingd vid líkamann; Í herrans höndum stendur, Ad heimta sitt af mér; Daudinn má segjast sendur, Ad sækja hvad skaparans er.

9. Nú vel, í herrans nafni, Fyrst naudsyn ber til slík; Jeg er ei þeirra jafni, Sem jördin geymir nú lík. Hve nær sem kallid kemur, Kaupir sig eingínn frí; Þar læt eg nótt, sem nemur, Neitt skal ei kvída því.

10. Eg veit, minn ljúfur lifir Lausnarinn himnum á, Hann rædur öllu yfir, Einn heitir Jesús sá; Sigr-

arinn dauðans sanni Sjálfur á krossi dó, Og mér svo aumum manni Eilíft líf víst til bjó.

11. Með sínum dauða' hann deyddi Dauðann, og sigur vann, Makt hans og afli eyddi, Ekkert mig skaða kann; Þó leggist lík í jörðu, Lifir mín sála frí, Hún mætir aldrei hörðu Himneskri sælu í.

12. Jesús er mér í minni; Mig á hans vald eg gef, Hvort eg er úti' eða inni, Eins þá eg vaki' og sef. Hann er mín hjálp og hreysti, Hann er mitt rétta líf; Honum af hjarta' eg treysti, Hann mýkir dauðans kíf.

13. Jeg lifi' í Jesú nafni, Í Jesú nafni' eg dey; Þó heilsa' og líf mér hafni, Hræðist eg dauðann ei; Dauði, eg óttast eigi Afl þitt né

valdid gilt, I Kristi krapti' eg segi: Kom þú sæll, þegar þú vilt.

## No. 226.

Lagid: I Jesú nafni uppstá.

O minn herra, hjálp mér, þá Lífsins skamtur er á enda, Ei vill hjólid leingur vendast, Og eg spennist oki frá, Unn mér þá ad eyddum døgum, Andlits þíns eg sjái dýrd, Eydist synd, ángist og kløgun Asamt minum hjúpi' i jørd.

## No. 227.

Lagid: Olbúngar Júda annars dags.

Gef eg mig allan á guds míns nád, Geymi hann allt mitt efni og rád; Hvad helzt mér kemur høndum ad, I hverjum stad, Hans miskun gjørvallt fel eg þad.

2. Minna lífdaga stærd og stund

Stendur í guðs, míns føðurs, hønd; Nær sem hann vill, þá vil eg strax Vera til taks, Glaður bíða þess góða dags.

3. Af því eg veit og eflaust finn, Endurlausnarinn lifir minn, Það er mín trú, hans kvøl á kross Keypti lausn oss, Hvann farsældar æðsta hnoss.

4. En þó að lágt mitt liðna hold Liggi, fúni og verði' að mold, Samt finnur ekki sálin deyð Né sorgar leið, Því hún er frí frá allri neyð.

5. Hvað er lík manna? mold og jørð, Máttarlaus, dofin, køld og hørð. Hver maður fæðist hingað ber, Hver helzt sem er, Hefur ekkert í burt með sér.

6. Hann kann að vera hraustur í dag, Heill og vel fær, í gleðihag, En á morgun sjúkur og sár, Svo til það gár, Líka má ske framliðinn nár.

7. Allt eins og blómstrid gult og grænt, Med glans er stendur fagurt og vænt, A augabragdi er ordid þurt, Einga ber kurt, Fellur, visnar og fýkur á burt.

8. Med þeim skilmála madur hver Af módurlífi fæddur er: Hann skal burt deyja hédan víst, Þá varir sízt; Verdur hann sæll, er vid þvi býst.

9. O madur kristinn, hygg ad hér, Hugsa þig um, medan tíminn er, Nú er þér bodin nádin stærst, Guds elskan ædst, I þessu lífi líkn sú næst.

10. Ef ad þú idrast efalaust, A Jesúm setur von og traust, Þá er hans nád þín heill og hlíf, Hjálp, vernd og líf, Svo aldrei kannir eymda-kíf.

11. Af augum þínum øll þín tár Astrík hans þerrar høndin klár, Inndælan føgnud helgum hjá A himn-

um þá Endalaust muntu finna og fá.

12. Gledjumst hér við, øll guðs børn trú, Góð og fullviss er huggun sú; Heimvon er kær, því hér er allt Í heimi valt, Eilífan fognuð erfa skalt.

13. Unn þú oss, guð, að iðrast hér, Á meðan náðartíminn er. Drottinn, gef hæga dauðatíð, Frið fyr og síð, Eilíft líf með útvøldum lýð.

## No: 228.

Lagið: Um dauðann gef þú, drottinn, mér.

Mín lífstíð er á fleygi-ferð, Eg flýti mér til grafar, Innan naums tíma nár eg verð Nakinn lagður án tafar; Dauðleg manneskja, dvel ei þá, Dauða þinn fljótt að minnast á; Þau ráð er þørf að hafa.

2. Eins og þú vildir óska þér Í dauðans síðstu mæði, Að lifað hefðir,

lífdu hér, Í lukku' og þrautum bædi; Hefd, vøld og metord held eg þá Heldur létt verdi metum á Vid himna vegin gædi.

3. Þó ad oss sæki sótt og hel, Samt megum vér því trúa, Ad ef hér lifad høfum vel, Heim er oss gott ad snúa, Til drottins, hvar í dýrdar=vist Dýrdlegir munum fyrir Krist vid sælu' og blessun búa.

## No. 229.

Lagid: Hver, sem ad reisir hæga byggd.

Líkt skugga burtu líf manns fer, Leid þúng verkar mótlæti, Æsku=blómid stutt einatt er, Yfrid hvikul vor kæti; Menn fædast, vara' og falla frá, Fáir sjøtíu árum ná, Ef fleirum, er fágæti.

2. Grøfin vort hold til geymslu fær, En góds ad vænta megi, Og

dauða verði' oss dúrinn vær, Drottins orð bregðast eigi, Sem það fyrst voktun setur í, Síðan líf eilíft gefur, því Uppvoktu á efsta degi.

## No. 230.

Lagið: Herra guð í himnaríki.

Höndin þín, drottinn, hlífi mér, Þá heims eg aðstoð missi, En nær sem þú mig hirtir hér, Hönd þína' eg glaður kyssi.

2. Dauðans stríð af þín heilög hönd Hjálpi mér vel að þreyja, Meðtak þá, faðir, mína önd, Mun eg svo glaður deyja.

## No. 231.

Með sínu lagi.

Nú látum oss líkamann grafa, Og eingan efa á því hafa, Á efsta degi' að upprís hann Í dýrð, sem aldrei bregðast kann.

2. Holdid er jørd og af jørdu, Ad jørdu einnig aptur verdur, Af jørdu rís þad efalaust, Alla þá vekur drottins raust.

3. J guds ríki øndin lifir, Eilíf miskun henni hlífir, Jesú fyrir sáru krossins kvøl Kvitt vid syndir og daudans bøl.

4. Hans (hennar) mótlæti, hryggd og mæda Hefur nú øll endíng góda, Ok Krists um sína æfi dró, Er nú framlidinn, lifir þó.

5. Eilífan frid øndin hefur, Allt til dómsdags holdid sefur, Af jørdu gud þá uppreisir þad Odaudlegt, heilt og forklárad.

6. Lúinn skildist hann (hún) vid heiminn, J himna-sælu er nú kominn, A lifandi gudi lifdi í trú, Lifir því víst med honum nú.

7. Sofi hann (hún) nú hér í fridi,

Heim vér gaungum frá þessu leidi; Sem bezt jafnan sig sidi hver, Svo daudinn oss velkominn er.

8. Þar til hjálpi oss herrann Kristi, Hver oss med pinu' á krossi leysti, Frá dauda, synd og hættum heim; Heidur, lof, dýrd sé kóngi þeim.

## No. 232.

Lagid: Fadir vor, sem á himnum ert.

Hér á jørdu ei hefur tøf Hugur minn, þegar sé eg grøf; Sjón þeirri glædist ávallt af Upprisu von, sem Jesús gaf; Sofnar líkami' og lífid manns, Lifnar sídar med dýrdar-glans.

2. Mikill dagur oss mæta á, Munu grafirnar opnast þá; Lifandi' og daudir, lausnari minn, Leidast skulu fyrir dómstól þinn; Þeir einir standast þá fyrir þér, Sem þér í trúnni lifdu hér.

## No. 233.

Med sínu lagi.

Um daudann gef þú, drottinn, mér, Eg daglega hugsa megi, Og ad mín æfi á enda fer, Eg víst því gleymi eigi. Upplýs mitt hjarta, herra minn, Ad hrædast kynni' eg dóminn þinn, Er uppkvedst á efsta degi.

2. Eins og þverhönd er æfin breid, Allfátt mig kann ad hugga; Litils er vert mitt lífsins skeid, Launsvik óvinir brugga; Fánýtt er þad og fallvalt mjög, Eg fæ því ei á nokkurn veg Vid líkara líkt en skugga.

3. Vort lífsins blóm er sorg og sút, Og svo sem grasid vallar, Líka sem ræda lídur út, Eda lesnar sögur snjallar. Sem fuglar á burt fljúgum vér, Fljótt, eins og þá straumur fer, Gud menn úr kífi kallar.

4. Þótt margir menn í heimi hér

Hégómlega sig mædi, Til einkis gjøra þeir allt það sér, Fyrir auð og ríkdóms gædi, Og vita' ei, hver það hljóta skal. Herra, kenn mér mitt daga-tal, Hjá þér svo huggun nædi.

5. O guð, þú ert mín aðstoð bezt, A þig minn andi treystir; Mín er sú bón og þørfin mest, Mig frá ó-førum leysir; Hjálp mér í dauðans dapri pín, Drottinn, varðveittu sálu mín, Og til lífs mig uppreisir.

## No. 234.

Lagið: Jesú, þínar opnu undir.

Vonin kæra, eilífð eina, Arfleifð mín, þá varð eg til; Glæpa næra glóð óhreina, En gæta þín, er dára-spil; Hver vill þar um hugsa þjóð, Og helgunar ei velja slóð, Sem til vísta gleði greiðist, Gjørvøll lyst þá jarðar eyðist?

2. Á, guð, þig minn andi kallar, Áheyrn ljá nú bænum mín: Aldrei mig lát auman falla Orði frá og boðum þín; Fallinn reis mig fætur á, Fljótt afleys og miskun tjá; Fyrir hinna seku sauða Syndir minn leið Jesús dauða.

3. Veit mér brúka vel í haginn Vænstu náðar gefnu tíð, Svo við ljúka sérhvern daginn, Sjáist dáða verkin fríð, Að guðrækinn aldrei eg Út af kræki dyggða-veg, Inn í blíða eilífð lánga Ugglaus síðan vil eg gánga.

4. Fær þá stríð í friði enda, Forn ánauðin kyrrð í ró; Einginn kvíði' og klögun henda Kann, hvar dauðinn aldrei bjó; Ummyndaður, alheill þá Eg hugglaður loksins má Frelsarann í fegurð líta, Fundinn þann ei tímar slíta.

## No. 235.

Lagid: Far, heimur, far sæll.

Mér, heimur, far frá, Þvi nú þreytist sál min ad sveima þér hjá, Og glaumur þinn metandi ekki neitt er Mót unadsemd himins, sem lofud er mér, Mig heim þángad lángar, þvi hér leidast fer :,: Hégóminn einber :,:.

2. Seg mér satt: hvad er, Sem heimurinn fláródi heilla-nafn lér? Reikandi skuggi og skýjaflug hratt, Skjótt uppþotin bóla, sem hjadnadi' og datt, I sút vafin missýning sannkøllud hér, :,: Hégóminn einber :,:.

3. Hvad audurinn er? Sá afgud, sem dárunum dýrmæti lér, Og tældi svo marga mjøg frómleika frá, En fékk þó ei mettad þann, fýsti þvi ná; Þú, rikdómur, ert, eins og reyndist þú mér, :,: Hégóminn einber :,:.

4. Hvad gildir heims makt, Hans

óskapa-veldi, hans oflæti stakt? Hvað opt er það øfundað, ofsókt og hrjáð? Hvað opt glatað, umbilt og hatað og smáð? Þinn skerfur, þú dárlega dramb-semi, er :,: Hégóminn einber :,:.

5. Afl, aldur, hvað er? Hvað snilli? hvað heilbrigði' og heppileg kjør? Hvað unnusta mannanna, aðstoð og ráð? Hvað erviðis ákafi, mæða, mann-dáð? Hvað er það, nær dauðinn oss út kalla fer? :,: Hégóminn einber :,:.

6. Því far þinn veg nú, Þú heim-ur fallvalti, og hjálp þín ótrú; Eg sný hug til himins og hann stunda á, Til herra míns Jesú, minn frelsara' að sjá; Þar hjá þeim útvøldu' hann hét og bjó mér :,: Víst sjálfum með sér :,:.

7. Þar mun eg það fá, Sem hér á jørðunni' ei heyrði né sá, Þann ríkdóm, þá virðing, sem varanleg er, Þá vegsemd og gleði, sem aldregi þver,

Þá einkis eg sakna, því ávinn gjør-vallt, Þar guð er mér allt, Minn guð er mér allt.

8. Sæl verður sú stund, Eg síð-asta burtfarar sætan fæ blund, Nær sála min duptinu sig skilur frá, Til síns guðs og skapara upplíða má; Sú komi sæl stundin, mér komi' á hans fund; Kom, dauða kær stund, Kom mér á guðs fund.

---

## 9. Fyrirbænir.

### a) Fyrir øllum yfir høfuð.

### No. 236.

Með sinu lagi.

Gef þinni kristni góðan frið, O guð, um allar tíðir, Því ekkert høf-um vér annað lið, Einn þú fyrir oss stríðir, Sjálfur guð, vor sannur faðir.

2. Þú einn heilagan hug og ráð Og hreint framferði veitir; Gef oss það hjarta' af þinni náð, Þíns orðs alleina leiti, Eptir því í öllu breyti.

3. Þó vor misgjörð sé mörg og stór, Með náð virztu það bæta, Í líkn og miskun lít til vor, Lát oss ei hegning sæta, En fyrir Jesúm mildi mæta.

4. Um það biðjum vér, öll þín börn, Að frið viljir oss gefa, Með þinni hönd og mildri vörn Móti óvinum oss hlífa, Þér til lofs svo mættum lifa.

## No. 237.

Lagið: Hjartað, þánkar, hugur, sinni.

Guð, þú kannt og vilt oss veita, Vora það sem bætir þörf, um aðstoð þína ekki neita, Allra blessa kall og störf; Auki krapta oss þín náð, Að efla bræðra heill með dáð, Að vér

gøgnumst æ sem flestum, Unn oss, gud, vér hug á festum.

2. Kórónu þeim þú baudst ad bera, Byrdi létta gjørdu hans, Þér til heidurs hann lát vera Heill ríkis og Íslands, Fús sérhverjum gefi gaum, Er gjørir rétt, og sannleiks taum Dregur, efli lán svo lýda, Laungun hans sé, þér ad hlýda.

3. Valdstjórn bjóda virztu' á landi, Vizku þræda rétt á mid, Ad vernda góda', en varna grandi; Veit hjálpræði þitt og lid; Þeim oss dyggda lýsa' á leid, Léna tryggd, en forda neyd; Sín embætti veit þeim vanda Vel af mætti' og nád þíns anda.

4. Blessa þá, sem byggdir yrkja, Blessa þeirra sveita' í frid, Med vellidun virzt þá styrkja, Vid forsjálni, heidur, grid, Hvern ærlegan idjumann Í stétt sinni blessa hann;

Lát það vera sérhvers sóma, Sæmd vors efla lands og blóma.

5. Guð, þitt orð og andi leiði Oss á dygða-vegi hér; Aðstoð nema oss þú greiðir, Ekkert megnað fáum vér; Þér að þóknast, unn þú oss, Svo öðlast mættum dýrðar hnoss, Það trúlyndum þínum gefa Þjónum síðar munt án efa.

## No. 238.

Lagið: Jesú, þínar opnu undir.

Faðir, þeink til þeirra', er gráta Þúnga mótgángs undir hér; Virztu krapt þinn vera láta Vægð og styrk þeim nauðir ber; Allra kjör um lá og lönd Leika, guð, í þinni hönd, Þú kannt græða, þú kannt særa, Þú kannt hryggja' og endurnæra.

2. Í verndar þinnar skjóli' og skugga, Skulum vér lifa sorga-fri

Fyrir ótta, fyrir ugga, Fridi gódum jafnan í. Gud, þin miskun eilif er; Eins framvegis gef oss hér, Allt hvad þurfum og til þinnar Avallt þénar dýrdarinnar.

## No. 239.

Lagid: Heidrum vér gud af huga' og sál.

Vors herra Jesú verndin blíd Veri med oss á hverri tíd; Gud huggi þá, sem hryggdin slær, Hvort þeir eru fjær eda nær; Kristnina efli og auki vid, Yfirvøldunum sendi lid, Hann gefi' oss øllum himna-frid.

## No. 240.

Lagid: Gjørvøll kristnin skal gledjast nú.

Þín hátign, gud, um eilífd er Af dýrdarstól himnanna, Í nád til jardar samt þú sér, Sendir heill byggdum manna; Æ, vér þig bidj-

um allir nú, Að vort föðurland blessir þú, Veitir frið, velferð sanna.

2. Gef vorum kóngi gæfu' og ráð, Gagn stunda landa sinna, Að elska frið, en efla dáð, Og þegnum heill ávinna; Kall sitt að rækja, kenn svo hér, Kórónu' að lífs í dýrð með þér Veitist og vegsemd finna.

3. Vors kóngs ráðgjöfum veittu náð, Vísdóm og aðstoð sanna, Og stjórna þeirra iðu og dáð Öllum til gagnsemdanna, Svo allir góðir eignist frið, Og með réttvísi geymist við Árásum illra manna.

4. Faðir, lát rigna foldu á, Frjóvgunar krapt af hæðum, Umgirð vort land, og geym það frá Grimmum hernaði' og skæðum; Guð, þú með speki gjörir allt, Gef oss að treysta þér ávallt, Bæði' í meðlæti' og mæðum.

5. Gef, þegni hverjum geðjist hér,

Gaum skyldu sinni ad veita, Á sjó og landi brauds, sem ber, Og blessunar þinnar leita, Ástundi svo med ást og dád Adstod, huggun og þarfleg rád Voludum jafnan veita.

6. Láttu oss, drottinn, líkjast þér, Og líf vort dyggdum prýda; Gef öllu því, sem gjøra ber, Góda framkvæmd, heill blída, Fødurland rétt uns finnum vér, Hvar fáum betri styrk en hér, Þér, fadir, þjóna' og hlýda.

## No. 241.

Lagid: Gudi lof skal ønd min inna.

Frid veittu voru landi, Voldugi fadir, fyr og síd, Yfirmønnum øllu grandi Og undirgefnum forda lýd. Þá lídur ad lífsins enda, Og linnir heimsins stund, Gef oss þinn guddóms-anda, Sem gledji vora lund; Vort athvarf allt í heimi Og adstod drottinn er,

Hans hønd oss hlífi' og geymi Við háska' og nauðum hér.

## No. 242.

Lagið: Sólin upprunnin er.

Lát landið frjóvgun fá Fulla og sæta, Réttinn sinn framgáng sjá, Og sannleiks gæta. Guð gefi mér minn deildan verð á meðan, Og til þess, eg við grøf Aflegg minn ferða-staf, Og held burt héðan.

## No. 243.

Lagið: Hver sem ljúfan guð lætur ráða.

Kóngsins lífdagar fjølgun fái Fyrri og síð í blessun hér; Hans stjórn lukku og heillum nái, Hans kyn blómg-ist, uns tíð øll þver; O guð, vor faðir, oss heyr nú: Vér æskjum þess, hann blessir þú.

2. Umkring hans sæti sífellt skíni Sannleiki' og náð réttlæti með; Þín

adstod hann med heidri krýni, Heill og fridur hans lifgi ged; O gud, vor fadir, oss heyr nú: Vér æskjum þess, hann blessir þú.

## No. 244.

Lagid: Hver sem ljúfan gud lætur ráda.

Heidur, frid, lukku, lán og gædi Legg yfir þann, sem kóngur er, Landa-stjórn hans og hjarta bædi, Himneski kóngur, líti þér; Landa-búum hans legg þau rád, Ad lukku fái' og gæfu nád.

---

### b) Á strids-timum.

## No. 245.

Lagid: Væri nú gud oss ekki hjá.

Sé gud med oss, vér eingri þá O-lukku þurfum kvida; Hann má traust setja hver einn á Í hryggdum mædu-tida; Hann, sá gódi gud, hjá oss er,

Hann frelsar oss, því skulum vér Hans gladir hjálpar bida.

2. O gud, þú hefur opt það gjört, Er menn sízt vænta kunnu; Já, opt þá ský umkringdu svört, Inndælust ljós upprunnu; Von þegar komin var í þrot, Vér þinnar hjálpar feingum not, Mein farga oss ei unnu.

3. Vér bidjum þig, vor blídi gud, Bæn vora heyr sem fadir: Set takmark strídi, sorg og naud, Send oss frid, svo ad gladir Þitt frelsi sjáum, þitt í hús Þakklátur gángi hver og fús, Þér prís ad hefja hradir.

Gef þinni kristni gódan frid.
(Sjá No. 236.)

---

## c) Í skædum stór-sóttum.

## No. 246.

Lagid: Væri nú gud oss ekki hjá.

O gud, hvers nád og adstod blíd

Er þeim vís, sem þig bidur, Þú sendir oss nú sorgar-tíd, Svo burt vor hverfur fridur; Angistin girdir um oss, Því Allmørgum daudinn kastar í Grafar-nidmyrkur nidur.

2. Oss nidurlúta' í naudum því Nýjar hørmúngar græta; Daudanum hljótum hartnær í Hverju fótspori mæta; Einn vinur flýja annan má, Og bródir fordast bródur sjá, Síns lífs sjálfur ad gæta.

3. En verdi, ó gud, vilji þinn, Var hann og er þad bezta; Vægdar þig bidjum vér hvert sinn, Von høfum á þér festa; Þó ædi daudinn enn á ný, Øllu til góda stýrir því Þín fødur-mildin mesta.

4. Þeirra styrki þinn andi ønd, Er hédan sviptast eiga; Rétt þeim í dauda hjálpar-hønd, Ad hafi trú ódeiga; Vön um fullsælu vek þeim hjá, Værd

andar lát þeim gefast, þá í fridi fara mega.

5. Ó drottinn, minnstu mæddra vel, Mildi gled alla þinni; Veit oss hreintrúad hjartaþel, Hrind frá oss efa-sinni; Gef, ad í kvøl og kæti vér Kappkostum, ad oss daudinn hér Vidbúna vel æ finni.

---

## d) Í landplágum.

## No. 247.

Lagid: Jesús Kristur er vor frelsari.

Réttláti gud, hvers hegning strída Hrædilegt er ad sjá og lída, Í þinni hendi er himinn stór, Hafid, jørd, elding, vindar, snjór.

2. Hvad sem þú bÿdur, hlÿdir, kemur, Hvad þú vilt afmá, sést ei fremur; Árfæld, hallæri, audnu, þín Almáttug stÿrir forsjón þín.

3. Æ gud, sjá nú, hvad yfir dyn-

ur; Undir hörmúngum land vort stynur, Þín börnin kveina' og barma sér, Bodi daudans því geyst um fer.

4. Mönnum og skepnum missist fridur, Menn og skepnur því stynja vidur; Hvorttveggja þetta, herra; þó Höndin almáttug þín til bjó.

5. Lifandi gud, sem lífid léuar, Og lífs heill vorri sér hvad þénar, Minnst vor í nád og vægd oss sýn, Vér treystum upp á gæzku þín.

6. Bjód þú landplágum, hættu, hryggdum, Ad hversa burt frá vorum byggdum; Födurland vort og fólk allt hér, Fadir, í miskun tak ad þér.

7. Bjód himni, jörd og hafi líka, Herra, oss færa blessun ríka; Forþéntu straffi væg oss vid, Vort land umgirtu þínum frid.

8. Gef oss framför í gódum dyggdum, Gæt vor vid syndum, kvöl og

hryggdum; Vernd þin oss geymi' um vøtn og lønd, Vér felum oss í þína hønd.

---

e) **Fyrir deyjandi.**

## No. 248.

Lagid: Öldúngar Júda annars dags.

Þeim, sem daudinn nálægist nú, Nádugi drottinn, hjálpa þú; O, hvad hørmúngin hart þá sker; Hvad jardneskt er, Ekkert þá framar hugg- ar hér.

2. Þinn kraptur styrki þeirra lund, Sem þúngann báru dags um stund; Nú er lífs dagur enda á; Æ, láttu þá Kvøldværdir gódar, fadir, fá.

3. Einginn svo hladist eymdum hér, Ad vonar sjónir missi' á þér; Send veikum hægd og legg þú lid, Lát sálar frid Lina ofraun og gefa grid.

4. Æ, lát þá minnast á það vel, Að nú síðasta' er rauna-jel, Og hvern einn líka hyggja' að því, Að heimi í Auðstreymi við er enginn frí.

5. Þitt orð þeim sýni sannleik þann, Sigur á deyð að Jesús vann, Og að oss til bjó samvist sá Þér sjálfum hjá; Gef þeim traust setja allt þar-á.

6. Veit þeim öfluga von og traust Um vegsemð með þér endalaust, Og þá farsæld, sem er þér hjá, Þitt aug-lit sjá, Og meiri æ fullkomnun fá.

7. Vert þeirra guð, og gef þeim náð, Gæð þá við andlát styrk og dáð; Líkamans þegar bresta bönd, Í blíða hönd Þína, guð, meðtak þeirra önd.

---

# III. Sálmar til vissra tíma.

## 1. Áraskipti.

Einn guð þér allir prísið (Sjá No. 31).

### No. 249.

Með sínu lagi.

Guðs vors nú gæzku prísum, Góðir réttkristnir menn, Með saungum líkn hans lýsum, Lof segjum honum enn Fulltingi fyrir sitt, Sem hefur af gæzku sinni, Hver einn trúi' eg það finni, Á þessu ári' oss veitt.

2. Miskunsemd hans og mildi Vér minnumst glaðir á, Og virðum víst, sem skyldi, Hans velgjörninga þá, Er hann nú þetta ár Oss gefið hefur öllum, Konum bæði og köllum, Og kunnugt fyrir oss stár.

3. Voldugur drottinn veitti Voru á landi frid, Allt fólkid einnig fæddi, Og gaf, hvad þurfti vid, Af hans miskunar-hønd, Því byggd og bæjum vildi Blessun fadirinn mildi Gefa um gjørvallt land.

4. Oss hefur vardveitt alla Af fødurlegri nád; Ef vildi' hann yfir oss falla, Sem vor er mørg ódád, Med jafnri mædu' og pín, Fyrir laungu værum vér deyddir, Af sorg og eymdum eyddir, Hver fyrir syndir sín.

5. Sí-ljúfur svo sem fadir Svo er hann mildur víst, Vér fáum frelsi gladir Fyrir vorn drottinn Krist Med réttu trausti' og trú; Hann af oss sviptir syndum, Setur skamt hryggdarstundum, Veslum hjálp viss er sú.

6. Allt gott þú einn oss gefur, O gud vor himnum á, Allt hvad

andardrátt hefur, Allt skal þér lofgjørd tjá; Í Jesú nafni nú Þín bidja børn enn fremur: Blessa árid, sem kemur, Allra þørf uppfylltú. :,: Í Jesú nafni nú þín bidja børn enn fremur: Blessa árid, sem kemur, Allra þørf uppfylltú :,:.

## No. 250.

Lagid: Herra, þér skal heidur og lotning greida.

Eitt á enda ár vors lífs er runnid, Enn oss sendast guds af nádar brunni Líkn, hjálprædi, Lífsins gædi, Lán og nædi, Hvarf þad hræda kunni.

2. Hjartad dansi, honum lofgjørd inni, Hátt til annsi túnga, mannvit, sinni, Hver med gáti Gøfgi kátur, Guds nád játi, Lída' ei láti' úr minni.

3. Honum sálin hlýdni sverji visa, Hans vort málid æ skal gæzku prisa;

Vort þakklæti Veri', hans mæta Vilja' að gæta, Ást svo ætíð lýsa.

4. Honum felum hagsæld árs komanda; Hann sér vel um oss, hvað mun þá granda? Oss hann seka Ei útrekur, Allan speki Hans burthrekur vanda.

5. Alvöld mildin, öllu þú sem ræður, Enn góðvildar seð oss þinnar gæðum; Auðga dyggðum, Hamla hryggðum, Hrind burt styggðum, Bú oss byggð í hæðum.

## No. 251.

Lagið: Lofið guð, lofið hann, hver sem kann.

Eitt nú er Útrunnið lífsins ár; Lof sé þér, Lífs herra' og faðir klár, Allt þig lofar endalaust, Anda sem hrærir, Vetur, sumar, vor og haust Vegsemd þér færir; Hver dags-sól Heill veita' og gleði Heims um ból Hvervetna

rédi, Líkn og skjól Ljúfur oss tédi Gud, hvers mildi gøfgum vér. :,:Tíd og eilífd heidri hann, Hans kærleik prísi :,:.

2. Greida ber, Gud, fyrir lidna tíd Þakkir þér, Þín geymdi' oss nádin blíd; Gud og fadir vor þú varst, Varnadir grandi, Umsjón fyrir øllu barst Í voru landi; Frjóvsemd af Fylltir og gróda, Enn lézt haf Audlegd frambjóda, Fridur gaf Oss farsæld góda, Allt í settri ordu stód; :,: Allt forsjónar-auga þitt Aleit í mildi :,:.

3. Allir nú Enn felum, drottinn, þér Allt, hvad þú Oss hefur gefid hér: Ønd, líkama, audnu, líf, Øll vor heimkynni; Gud, vort athvarf, hjálp og hlíf, Hønd geym oss þinni. Vel munt því, Vor gud, oss leida, Bjørg á ný Byggdum tilreida, Landi í Líkn,

heill útbreida; Þér fulltreystum allir enn, :,: Ad þú blessir árid nýtt, Oss sem nú gefur :,:.

4. Utbreid þú, O drottinn, krapti med Traust og trú, Til þín ad fáum séd, Orda þinna ljóma ljós Leid villtum beina; Dyggd og vizka vort sé hrós, Vegsemdin eina; Gef oss frid Gódum ad halda; Send oss lid, Sitt hverjum gjalda, Alla vid Ást, nád margfalda; Af jørd' og hafi braudi' útbýt; :,: Hvern med trú sín stunda størf Styrk, gud, og blessa :,:.

5. Kóngs vors lønd Krýn farsæld, drottinn kær, Þín sé hønd Þeim æ til verndar nær; Valdsmenn þeirra vizku prýd, Veit styrk af hædum, Ad farsæla landa lýd, Létta burt mædum; Gef þeim fá Gledi þá kanna, Avørt sjá Embættis-anna, Blessun sá Um byggdir manna; Hvers eins blessa

stétt og stand; :,: Einn hvad bera' ei orka má, Adstodi fleiri :,:.

6. Gef oss náð, Guð, medan lifum hér, Vort allt ráð Vanda til dýrdar þér; Oss i dyggdum efli sú, Afstýri føllum, Í Jesú bidjum nafni nú, Neyd hrind af øllum. Íslands lýð Almáttug leidi Forsjón blíð, Farsæld útbreidi Árs hver tíð, Óhøpp hjásneidi. Guð, þig heidri gjørvøll lønd, :,: Þig vegsami ár og øld Allur lífs-skarinn :,:.

## No. 252.

Lagið: Gæzku guðs vér prísum.

Þøkk, góði guð, vér færum Með gledisaungum þér, Hátíðar-hljómi skærum Hugkátir tjáumst vér; Heyr með velþóknun þú, Faðir, það lof, er ljóðum, Lypt munns og sálar hljóðum, Á nýju ári nú.

2. Þú gafst oss lands og lýða Ljúfan, ó herra, frið, Og lagðir bless-un blíða Bjargræði sérhvert við; Þitt væga visdóms-ráð Oss hefur ætíð leidda, Og alla stigu greidda Með föður mjúkri náð.

3. Þegar til þín oss snerum, Þín miskun tók oss við; Af himni hresstir erum, Huggun þú gafst og frið. Hugkæti helgri með Þér bljúgir þakkir iðjum, Þig, drottinn, enn tilbiðjum, Þitt prísum gæzku-geð.

4. Gjör nú, ó guð, það biðjum, Gef oss blessun í ár, Með oss í öll-um iðjum Æ sé þín gæzka klár; Hvern blessa, hvers eins stand, Lát visdóm vara' og dyggðir, Vellíðan kefji hryggð-ir, Blessa kóng, lýð og land.

## No. 253.

Með sínu lagi.

Rís upp, mín sál, að nýju nú, Nýja

lofgjørd uppbyrja þú, Því nú er nýtt ár komid, Nýr skeinkur þér Nýgesinn er, Nýrunnid himna-blómid.

2. Lof sé þér, gud, fyrir lidid ár, Lífs-heillin mín øll í þér stár, O þú, minn andar-kraptur, Sem vægdir mér, Svo enn eg er A nýtt ár kom-inn aptur.

3. Þú hefur verndad vedhlaup mitt Vel, svo eg gæti hnossid hitt, A nú umlidnu ári, Líkama' og ønd Þín líknar-hønd Leiddi úr hættu og fári.

4. Einn varstu traust og unan mín, Ein mig verndadi gæzkan þín, Eg gekk í geymslu þinni; Hagsæld og ró Þín hønd mér bjó, Og huggun sálu minni.

5. O mín sálar-heill hjartanlig, Haltu því sama fram vid mig A ári inngángandi; Handleidslan þín Sé hlífdin mín Vid háska' og øllu grandi.

6. Ný miskun ári nýju á Nýja mér kveyki laungun hjá, Þér einum þjóna, hlýða; Mitt kall og stétt Trúr rækja rétt, Nór þiggja', ef vilt hið stríða.

7. Þá æfi-árum hallar hér, Hjástoð bezt, faðir, vertu mér, Gef endíng glaða nauða; Athvarfið mitt Skal orðið þitt, Eins í lífi sem dauða.

8. Allt það gott, sem mér unntir þú, Almáttug hønd þín geymi nú, Og blessi mig og mína; Þitt andlit blítt Um árið nýtt Yfir mér láttu skína.

## No. 254.

Lagið: O drottinn allsvaldandi.

Þøkkum vér guði glaðir Af góðu hjarta, huga' og trú, Allir sem innsafnaðir Erum í drottins-húsi nú; Hann oss gaf Líf, og lénti Líknsemd

af, Hvad sem þénti, Ei hann svaf, Allt sá bezt, er henti.

2. Vor gud, þér vegsemd tjáum Vardveizlu þina fyrir og nád, Framar en skynjad fáum Forsjón þin hefur ad oss gád; Fyrir hlif, Heilsu, gródur, Hjálp vid kif, Næring, fódur Þér eilif Þøkk sé, fadir gódur.

3. Æ, fremur, en þig bidjum, Oss réttu þina fødur-hønd, Ad allt til lofs þér idjum, Andi þinn styrki vora ønd; Auk oss dád, Audgast dyggdum, Um vort lád Varna styggdum, J sorg oss nád Send frá efri byggdum.

4. Lát hvern ársdaginn eina Æ kenna, jafnan sért oss med, Og menn i øllu reyna, Ad stjórn þin mild þá fær á séd. Fadir, vér Forsjá þinni Felum hér Lif, heimkynni, Allt hjá þér Adstod, Blessun finni.

# 2. Missiraskipti.

## a) Vor-sálmar.

### No. 255.

Lagið: Gæzkuríkasti græðari minn.

O herra guð, eg þakka þér, Þú hefur hlíft og stjórnað mér Á nú umliðnum vetri, Háska og slysum varnað við, Veitt blessun, næga hlífð og lið Mér og mínu aðsetri. Drottinn, drottinn, Eg kann eigi Út að segja Ástar-anda Miskunar þinnar mér til handa.

2. Samt hef eg syndgað mikið og mjøg Móti þér, hátign guðdómleg, Minn guð, minnstu þess eigi, Lát yfirgnæfa gæzku þín, Gjørðu enn framar vel til mín, Hvað eg efa aldregi. Drottinn, drottinn, Mín hefur gætt Og meinin bætt Þín miskun ríka, Unn, mér hún fylgi' á eptir líka.

3. Missirid er nú umlidid, En hid nálæga tekur vid, Þvi bid eg, herra hýri, Ad mig leidi þin hjálpar-hønd Hættulaust yfir mein og grønd, Og athøfn allri stýri. Drottinn, drottinn, Ad øndu minni Máttur þinn Og mildi gæti, Líkaminn sømu lid-semd mæti.

4. Inngáng bædi og útgáng minn, Aform og hegdun sérhvert sinn Farsæl þú, gud minn gódi, Mér og minni svo stjórna stétt, Ad stundi' eg hana vel og rétt I þinnar forsjár flódi. Drottinn, drottinn, Leid þú mig Um lukkustig Frá lasta-voda, Virztu mig ætid i øllu stoda.

5. Allt hvad eg gjøri og gjøra læt, Gud minn blessadur, ad þvi gæt, Svo farnist farsællega; Reisur minar og rádahag, Rædu og ástand nótt og dag Annastu alla vega. Drottinn,

drottinn, Leyf þú ei Eg lífs á vegi Løstum sinni, Mig fel eg þér og mitt heimkynni.

6. Leid þú mig, gud, þann vissa veg, Sem vísa ord þín guddómleg, Um alla æfi mína, Geym mig í sannri gudrækni, Gef þú, ad eg innlæstur sé Í vernd og vøktun þína. Drottinn, drottinn, Leyfdu mér, Ad lifa hjá þér Og lausnar-degi Fagna, náð þína svo mikla megi.

## No. 256.

Lagid: Gudi lof skal ønd mín inna.

Vetur er enn á enda, Eilíft lof sé þér, fadir kær, Þú lézt oss lukku henda, Og lagdir þad til, sem þurftum vær; Þú hefur øll vor efni Annazt vid fári' og naud, Verndad í vøku' og svefni, Og veitt oss daglegt braud; Varnad voda og føllum, Vedrum og

húngurs-pín, Afstýrt stórslysum øll-
um, Og stodad vel børnin þín.

2. Einginn kann yfirvega Alla
blessun, sem veittir þú, Andlega og
stundlega A þessum lidna vetri nú;
Heilsu, lán, heill, bjargrædi Høfum
enn þegid vér, Margs háttar gagn og
gædi Gafst þú oss, drottinn, hér;
Þú hlífdir háska' og grandi, Hélzt
byggd og skepnum vid; Þú veittir
voru landi Verndun á alla hlid.

3. Þakklætis-offrid þýda Þiggdu
nú af oss aptur á mót, Fyrir ást og
ásjá blída, Øll velferli og nádarhót;
Svo fyrir son þinn mæta, Sendan
til lausnar oss, Þú lézt hann borga
og bæta Brotin vor øll á kross; J
honum allt hid góda Oss veittir,
drottinn, þú; Vér gjørum þakkir bjóda,
Þad er vort offur nú.

4. Hver kann ad tjá og tína Trú-

festi þinnar sérhvern vott, Eda med ordum sýna Allt, sem landsbúum veittir gott? Auga þitt ad oss gádi, Eyra þitt heyrdi' oss vel, Høndin þín hjálpa nádi, Hýrt var þitt ástar-þel. O, þú drottinn alvaldi, Allt gott er lézt í té, Hér og um allar aldir Æfinlegt lof þér sé.

---

## (Eptir gódan vetur).

## No. 257.

Lagid: Kær Jesú Kristi.

Guds gæzku prísa Geimar, høf og stord, Lof hans auglýsa Lifandi manna ord; Himnanna hersveitir Herrans votta dád; Allt gott enn oss veitir Ástin hans og nád; Merkin tída hentug hann Høgum lýda setja vann, Vorum hlýda kjørum kann Kæla' og sólar brád.

2. Oss enn framleiddi Eitt um vetrar-skeid Gud og lífs greiddi

Gánginn heim í leid, Vodanum afvendi, Vedrin gjørdi hæg, Leika lét í hendi Lífsins medøl þæg; Gaf fárádum huggun hann; Hressing þjádur jafnan fann; Oss í nádum veitast vann Vegnan gegn og næg.

3. Med hverju má eg, Minn gud, heidra þig? Ekkert til á eg, Attu sjálfur mig; Þitt eg þér skal bjóda, Þad er min ønd og líf, Prís þinn lystugt ljóda, Lán hvort reyni' eda kíf. Offur greidi' eg þakkar þér, Þig tilbeidi; vertu mér Lífs um skeid, sem eptir er, Unan, von og hlíf.

4. Ný nádar-gædi Nýju sumri á, Líf, føt og fædi, Fadir, virztu ljá; Gagn, sem geingid stydur, Gefi' oss himininn; Frami, heilsa, fridur Fylgi' oss út og inn. Fénadar-hjørd ei finni naud, Færi jørdin øllu braud, Lands umgjørdin láti aud Ladast ad oss sinn.

5, O Jesú, á þér Öll mín grundast von; Haf bústað hjá mér, Heilagi guðs son, Einkum lífs við lotin Láttu anda þinn, Þegar eg máttar þrotinn Þeinki' á dauða minn, Huggun seðja hjartans þel, Hugann gleðja deyðs við el; Heim þá kveðja kann eg vel, Og koma í himininn.

6. Þar sífelld sæla, Sem ei bregðast kann, Og líf inndæla Æ við leikur mann; Alla' án enda gleður Ástin drottins heit, Unun æðstri meður, Í þeim dýrðar reit; Eymda-róli frelsuð frá Fyrir stóli lambsins þá Höfuðbóli himins á Heilög dvelur sveit.

## No. 258.

Lagið: Guði lof skal önd mín inna.

Lof syngið, göfgið glaðir Guð, vorn skapara prísa ber, Sem með oss fer sem faðir, Framleiddi jörð og himna-

her; Gøfgid þann gud, hvers haldizt Grunnlausa hefur nád Frá eilifd og um aldir, Allir hans miklum ráð; Vor-føgnud blitt útbreidir Bod þitt, ó gud, vor gud, Þér lofgjørd, Þøkk og heidur Því sýngur ønd vor gløð.

2. Voldugur, vis og gódur, Veturinn, fadir, lézt framgá, Her náttúrunnar hljódur Hvild tók og sem í dvala lá; Med vorblóma blidum vakti Bending þín hann til lifs, Hýrt brosti og burt hrakti Blid sól þraut vetrarkifs, Ylgjøfum enn útfleytir, Øllum því gledi ljær, Fjør, hressing, frjóvsemd veitir, Farsæld um byggdir græv.

3. Gud, allrar gæzku lindin, Gledst enn náttúran øll vid þad, Í daggardropum sendir Dýra frjóvsemd hér ofan ad; Strax blómi skógur skrýdist, Skraut jardar nýsked læst Inndælum urtum prýdist, Eingid er blómstrum

glæst, Lopt hlýtt, ylmur ágætur, Öll lada til vor hnoss Vorgæda', er, gud, þín lætur Gæzka útbýtast oss.

4. Um vøllu' og grænar grundir Gæzku þinnar bergmála róm Otal þúsund þúsundir Med þrá-samstillt-um gledihljóm; Lof þitt um loptid dunar, Lofa þig blómstur strád, Fjall, laut og lækja-buna Lof róma þinni nád; Hvert hljód føgnudi fyllt er, Fagran æ sýngur prís, Oss því ad þakka skylt er Þína tryggd, gud alvís.

5. Ei skal þó túngan eina, Algódi fadir, prísa þig; Hjartad í ástum hreina Hefji med gladværd til þín sig; Sífellt skal vor ósk vera, Med verkandi' ást og dyggd, Þér vora þøkk ad færa, Þjóna gladir med tryggd; Vér lífstóm vort þér helgum, Vor skal ástundan sú, Ad lærum, fúsir fylgjum, Fadir, því, skipar þú.

## No. 259.

Lagid: I Jesú nafni upp stá.

Ný upprann þín sumarsól, Vottur til um eilífd eigi Ad í minni grøf eg þreyi, Vor gud, athvarf vort og skjól; Ur ham vetrar følum færir Fold þín alvøld máttar-hønd; Uppyngd skepnan hýr sig hrærir Um hafid, lopt og ylnud lønd.

2. Gud, þín lindin gæzku ný Med árdøgg foldu fredna kætir, Frjóvum med kvøldskúrum vætir, Sólar vermda høllum hlý; Tímar árs í ordu', er settir, Enn nú skiptast, lof sé þér, Þraut skammdægra ljós þitt léttir Líka af nordur-búum hér.

3. Þú upp lýkur þinni hønd, Gledur, blessar, gnægtum fyllir Gæda þinna', en harma stillir Þeirra skepna', er þágu ønd; Þín af feiti' og frjóvsemd drjúpa Fótspor, þá í skýjum gár,

Ástar undra afgrunn djúpa Opið hverri skepnu stár.

4. Lautin, brekkan brosir hver, Sáðgrös, ótal urtir gróa, Oss að seðja' og gleðja, þróast, Skógur bjørg og skjólið lér; Í ótal lækjum að oss streymir Unaðsemdum náttúran, Af þér fyllt þá gleði geymir Gnótt, Er tæmast aldrei kann.

5. Hver finnst góður, guð, sem þú? Trúfast, ørlátt hvar er hjarta, Á hverju føðurnafn eins skartar? Vér undrumst þína ást og trú; Án þín, guð, vér glatast hljótum, Glæp-ugt líf vort til þess vann, Vér þó lífs og náðar njótum Rægta, er mildi þín oss ann.

6. Øllum lýsir ljósið þitt; Eing-an vantar ástar-gæði; O, þín náð er vort lofkvæði, Og þín vægð, sem oss lét fritt. Guð tilbiðjið, gøfgið,

kvedid, Guds nád prísid; virdid menn, Hvad margt gott vor gud oss tédi, Gott hvad margt vill tjá oss enn.

## No. 260.

Lagid: Gudi lof skal ønd min inna.

Nú skal enn í guds trausti Uppbyrja nýjan missira-hring. Lífsins hertoginn hrausti, Hafdu gát á oss allt um kring. Nýja blessun nýtt sumar Nú lát oss færa hér, Hvad um lopt, haf, jørd sveimar, Hlýda má, drottinn, þér; Lát nýja nádarstrauma Nýkomna frjóvga tíd; Virztu vernda og geyma Veikstaddan Íslands lýd.

2. Gef þú oss farsæld góda, Gef þú oss enn í landi hér Af jørdu gras og gróda, Gagn sjávarins og heilsu-kjør, Blessun um byggdir allar, Bjód andar, líkamans, Enn heill-

um oss tilfalla, Abúum þessa lands, Svo glaðir náum njóta Næringar, lífs og auðs, Þá skal ei þökkin þrjóta Þágu vors daglegs brauðs.

3. Kóngsins tign stöðug standi, Styð þú, drottinn, hans ríkis-ráð; Friðurinn forði grandi, Forsjón þín blessi Ísaláð; Völd, kirkju, kristindóminn, Kenning, trú, líf vort hér, Eilífi lífsins ljóminn, Leið allt til dýrðar þér; Vorn inn- og út-gáng bæði, Öll verk og ferðalag, Byggðir og öll bjargræði Blessa þú nótt og dag.

4. Alla lands yfirherra Í þína felum verndar-hönd, Eign og embætti þeirra, Og alla menn um þessi lönd. Íslands vörn enn veri Þín voldug hjálpin sterk, Oss svo hér einginn geri Áhlaup né skemmdarverk; Þig ef menn vita vera Vorn

skjöld á alla hlið, Þá mun alls eing-
inn þora Oss spretta fingri við.

5. Í stjórn og umsjá vorri, Ytri og innri friður sé; Ytri í höndlun hverri, Hinn góð samvizka láti' í té; En sá eilífi friður Oss gefist himnum á; Þín hjörð, ó herra, biður, hana í náð lít á, Vor heill, athvarf og verja Vertu í landi hér; Svo skal sumarið byrja Með sönnu trausti' á þér.

---

b) **Haust-sálmar.**

## No. 261.

Lagið: Gæzkuríkasti græðari minn.

O guð heilagur, heilagur, Heilagur guð og drottinn vor, Blessaður um aldir alda, Þér offra eg þakklæti nú, Þig ákalla með bæn og trú, Þér vil eg gott lof gjalda; Guð minn, Guð minn, Skylt er mér Að þakka þér Og þig að prísa; Upp, upp minn saungur, guðs ást að lýsa.

2. Lof sé þér, heill og hjástoð mín, Himneski guð, fyrir miskun þín Og veitta velgjørð alla, Sem nú umliðna sumartíð Sýnt hefur mér þín gæzkan blíð, Og lét mér allt vel falla. Guð minn, Guð minn, Mig hefur leitt Og meinum eytt Þín mildin ríka, Byggð mína varðveitt og blessað líka.

3. Upplokinn fann þinn ástarbrunn Eg og þitt náðardjúpt afgrunn, Minn drottinn, mér til handa; Þaðan kom mér øll þørfin mín, Því prísa eg nú gæzku þín, Og vil þér vegsemd vanda. Guð minn, Guð minn, Allt hvað er Í annum mér, Þér einum unni; Lof þitt sé jafnan í mínum munni.

4. Allan mig, drottinn, offra' eg þér Á nú komanda vetri hér Og alla æfi mína; Lát mig umflýja lastaverk, Leiði mig jafnan hønd þín sterk, Geym mín fyrir gæzku þína. Guð

minn, Gud minn, Hvar eg er, Og hvert eg fer, Og hvad eg gjøri, Skil aldrei vid mig, hirdir hýri.

5. Allt þad, sem ekki þóknast þér, Þad virztu taka burt frá mér, Vel svo þínum vilja hlýdi; En þad, sem þér er þægilegt, Og þénar til þinnar dýrdar frekt, Gef mér þad, gud minn blídi. Gud minn, Gud minn, Verk min øll Og vegnan holl, Sem mál og minni, Farsælist af þér úti' og inni.

6. O herra, tak þad allt frá mér, Er mér kann snúa burt frá þér, Svo okkur einginn skilji; O drottinn, gef mér aptur þad, Er mér kann þér ad snúa ad, Er þad min 'ósk og vilji. Gud minn, Gud minn, Virzt æ hér Ad vera med mér, Minn herra hýri; Eilífst lof sé þér, drottinn dýri.

## No. 262.

Lagid: Gudi lof skal önd min inna.

Lof sé þér, drottinn dýri, Dögum og öldum stjórnar þú; Há-sumar-timinn hýri, Hann er kljádur á enda nú; O, hvad ótal mörg gædi Oss gaf þín nádin blíd, Líf, heilsu, föt og fædi, Farsæla sumartíd, Trú klára' í kyrrd og fridi, Kristindóms medöl öll; Þín hjálp vard hverjum ad lidi, Svo hrepptum ei slysaföll.

2. Med mjög margföldum gædum Miskun þín krýndi sumars-tíd, Frjóv-semd af himna-hædum Hefur á jördu audnazt lýd; Land og sjór gagn og gróda Gefid hefur oss nú; Áhlaupi illra þjóda Oss hefur fordad þú; Yfir- og undir-stéttir Ásá þín milda hönd, Í þína umsjón settir Almenni-legt tilstand.

3. Þér gjörum þakkir færa, Því di

fadir, af hug' og trú, Lof þitt efliſt og æra Vid allt þad, sem oss veittir þú; En hvad á hverjum degi Høfum styggt veldi þitt, Minn gud, minnstu þess eigi, Misverkin øll gef kvitt, Lát oss ei glæpa gjalda, Gef heiløg þekkjumst rád, Fadir, vid oss framhalda Fulltingi virztu' og nád.

4. Herra, lof þér sé, þýdi, Þinn fyrir son, er dó á kross; Þú blessar lønd og lýdi, Læsing atvinnu upplaukst oss; Fyrir lif og lukku' alla, Lid, heilsu, vernd og fé, Er þú lézt oss til falla, Æfinleg dýrd þér sé; Svo skal sumarid enda, Sýn oss þig nádugan, Og virzt oss veturinn senda Vægan og farsælan.

## No. 263.

Lagid: Ris upp, min sál, ad nýju nú.

Sjá, blóminn sumars á burt er, I-

klædast vetrar búning fer Náttúran, dimma dægra Og hretin hörd Lífs lada hjörd, Leita ad skjóli þægra.

2. Sjá, vér medtókum sumri á Svo margföld gædi' af landi' og sjá, Bjuggumst vid lopts óblídu, Bjugg-umst vid þörf, Vor bæja-störf Budu ad verjast strídu.

3. Sjá, ad lifum og sérhvad gott, Sem þegid höfum, gæzku vott Þekkj-um drottins dásaman; Oss hættum af Hreif, blessun gaf, Hann leiddi oss alla saman.

4. O gud, þig prísar sinni' og sál, Sérhvad, sem bærir raustu' og mál, Og skepnu skarar snjöllu; Þér þakkar allt Lán þúsundfalt, Þú sem vidheldur öllu.

5. Vertu vor hlíf, heill, unan öll, Allt, hvad lifir um dali' og fjöll, Til þinnar mildi mænir; Gef blessun,

brand, Burt visa naud Og böli, sem ró oss rænir.

6. Æ lifa svo ad liki þér, Léna oss styrk, svo fáum vér Fölnadri foldu medur Ad hvílast vært, Uns hróp þitt skært Heiminn til lífs uppkvedur.

## No. 264.

Lagid: Syrgjum vér ei sáluga brædur.

Öll náttúran enn fer ad deyja, Ilmur horfinn, saungfuglar þegja, Kulid skekur kvistu berfnauda, Kveina stráin fölnud mót dauda.

2. Hingad sól döpru hornauga vendir, Hvert geislana blíd fyrri sendi, Foldin stirdnar, fyr sem réd gróa, Felur skugginn ljós, jördu snjóar.

3. Enn lifir þó aldanna fadir, Ó-umbreyttur; forsjá hans gladir Felum vér oss; fulltraust þad getur Fridad enn og geymt hér í vetur.

4. Nokkrum yndis-nægtum þó svipti Náttúrunnar dauf hátta-skipti, Alvöld speki' og elska nærgætin Akvardadi, hvad sem oss mætir.

5. Veturinn er velgjörd frá drottni, Vakir hans forsjá, aldrei svo þrotni; Það hverri til gagns er og góða, Hans gæzka mun skepnunni bjóða.

6. Hann baud, vetrar-húmid oss færi Þær heillir, sem gledji og næri; Herrans nægtir hollar oss fæda, Hann réd oss mót vetrinum klæda.

7. Foldar í skauti fredmu hann lætur Felast kvikar urtanna rætur, Uppyngdar, þá út vetri hallar, Í æskublóm nýtt lífsins hann kallar.

8. Þínum enginn þekkir af gjörd-um Þúsundasta partinn á jördu, En af því stóra, sem vér þó sjáum, Sanna hjartans ánægju fáum.

9. Fagnid, ord guds fúsir ad

geyma, Fadir ormanna kann oss ei gleyma; Stig hans boda gángid hug-gladir, Gud er sumar og vetur vor fadir.

## No. 265.

Lagid: Gudi lof skal ønd min inna.

Kominn er kaldur vetur, Kom þú til med oss, drottinn minn, Líf vort, eign og adsetur Annist miskun og krapt-ur þinn. Oførum, illum dauda, And-streymi, sorg og þrá, Styrjaldar stór-um voda, Sturlun samvizku frá, Húngri, drepsótt, hallæri, Hardind-um, dýrri tíd Forda oss, fadir kæri, Fylgi oss nád þín blíd.

2. Gef þú oss gódan vetur, Gef þú oss hagstæd vedrafoll, Gef þú oss gott adsetur, Gef þú oss þarfamedøl øll; Annast þú ekkjur allar Og fød-urlausan hvern, Annast þá, á þig kalla, Aumstaddra sértu vørn; Unn oss þitt

ord ad læra, Og synda forðast vél, Oss hjá þér unn ad vera, Unn oss ad deyja vel.

3. Blessa þú byggdir manna, Blessud velferli lát oss fá, Blessudu braudi sanna, Blessun guds orda unn oss ná; Blessa vor brjóst og sinni, Blessa vor verk og mál, Blessa vor bæja-kynni, Blessa þú líf og sál, Blessa þinn barna-skara, Blessa þú hús og menn, Blessa oss, vondu vara, Veturinn blessadu' enn.

4. Frá ædstum tignartróni Þín trúfest náð enn gæti vor; Þér hver einn hlýdinn þjóni; Hønd þín oss leidi sérhvert spor; Innri og ytri fridur, Eining í hverri stétt Haldist oss einnig vidur, Og alls konar høndlan rétt; Geym oss vid glæpaføllum, Grandi, fári og neyd, Sídan úr eymdum øllum Í eilífa dýrd innleid.

---

## (Eptir gott og ardsamt sumar).

### No. 266.

Lagid: Lofid gud, lofid hann, hver sem kann.

O vor gud, Er nú jardyrkjan hér Utendud, Allir því færum vér Þér, vor fadir, þøkk og pris, Þú oss blessadir, Stjórnin þín er væg og vís, Vér sýngjum gladir, Frjóvgun lands Forsjón þín greiddi, Gagnsemd manns Góda til reiddi, Skepnum hans Skadsemd frá leiddi; Lífs bjørg søfnud saman er. :,: Allt, hvad hefur andardrátt, Einn gud vegsami :,:.

2. Sól þín skein Sannhlý um hvolfid blátt, Kulda-mein Krøptug í hverri átt Burttók hún, en himininn Hlýtt regn oss færdi, Breiddi jørd út barminn sinn, Blómleg grøs nærdi; Yrktum vér Ardsama reita, Vonin hér Vorn gladdi sveita; Gudi ber Greida þøkk veita; Starfid borgad

vort er vel. :,: Allt, hvad hefur and-ardrátt, Einn gud vegsami :,:.

3. Lof sé þér, Launadir, drottinn, þú Allt vort hér Erfidi og mædu nú; Idni hjá þér ávallt fann Ást og nád kæra, Heill lézt þú i hvern einn rann Himininn færa, Víst ert sá Verndar-inn þjóda, Sem vilt oss ljá Vætu, þurrk, gróda, Er þér hjá Upphaf alls góda; Þér ber æra, þökk og prís; :,: Allt, hvad hefur andardrátt, Einn þig vegsami :,:.

## No. 267.

Lagid: I dag þá hátíd holdum vér.

Lof sé þér, hjartans hróp vort því Heyrdir þú, fadir þjóda; Starf vort borgar nú blíd á ný Blessun af jard-argróda; Hvert stráid, lauf og blómst-ur ber Verlega vitni, ad mikil er, Drottinn, þín gæzkan góda. Vér þökkum þér, Þig lofum vér.

2. Heyskap vorn blessad hefur vel Hönd þín ad þessu sinni, Því sýngjum lof med þakklátt þel, Það medtak af náð þinni; Gef oss forsjálni', ad gjarna hver Gáfur, sem veitti náð þín ør, Á beztan hátt brúka kynni, Og þakka þér, Þig prísa hér.

3. Lát vorar hendur bjóða braud Bjargþrota þurfamönnum, Svo léttum undir annara naud Med ást og kærleik sönnum; Þegar vér afgángs höfum hér, Hugsa lát oss, ad skyldugt er Bágstöddum bjarga grönnum, Svo þökkum þér, Þig prísum hér.

4. Lif medan varir, lát oss þér Líkjast í kærleik hreinum, Í fögnud himna framar vér Fullkomnun hans þá reynum; Þó kunnum nú þinn kærleik sjá, Klárlegar skín hann himnum á; Þér sé, gud, æra einum; Vér þökkum þér, Þig lofum vér.

## No. 268.

Lagid: Gæzku guds vér prísum.

Vér þökkum þér, hinn gódi, Þig prísum vér, ó gud, Ad þú af þínum sjódi Þarflegt oss veitir braud, Oss geymir æ og nú; Allt þad, sem fram þú færdir, Forsjón þín ávallt nærdi; Gódur, vor gud, ertú.

2. Land vort blessa, lífs herra, Legg fædu' á sérhvert bord, Lát blessun þeim ei þverra, Sem þitt vardveita ord, Örbyrgum adstod tjá; Gef audgum gjafmilt sinni; Gef eining, svo menn kynni Síns njóta' í fridi fá.

---

## (Eptir bágt sumar og í hardæri).

## No. 269.

Lagid: Jesús Kristur er vor frelsari.

O gud, sem rædur öllum gædum Af jördu, vötnum, sjó og hædum;

Þín hønd útbýtir, herra kær, Hvers kyns gáfum, sem þiggjum vær.

2. Allt vald þú, drottinn, ætíð hefur, Øllu, sem lifir, næring gefur; Þegar upp lýkur þinni hønd, Þá mettast allt, hvað dregur ønd.

3. Þegar útsendir þú þinn anda, Þá nýjast ásýnd jarðar landa; En ef krapt dregur undan þinn, Oss sparar jørðin gróða sinn.

4. Í sumar margur sá og reyndi, Sinn ørlæti nú að leyndi Náttúran annars nógu rík, Neyð er verðskulduð af oss slík.

5. Vér kjósum gæða-kjør, en sýnum Kaldsinni mikið gáfum þínum; O guð, refsa því ei, sem ber; Einginn fyrir þér saklaus er.

6. Gef oss ánægðu enn með sinni Úthlutun móti taka þinni, Og óski

svo vort andvarp stillt: Æ verdi, drottinn, hvad þú vilt.

7. Í hug til þinnar hjálpar stefn-um, hagtær þú vorum litlu efnum; Björg lífsins drýgi blessan þín, Bjód frá oss víki húngurs-pín.

8. Blessa vort land og bæg frá mædum, Bjód þú einnig, ad rík af gædum Opni náttúran oss sitt skaut, Og vid hallæris fordi þraut.

9. Til þinnar, drottinn, mildi mænum, Miskun þín hyggi' ad vor-um bænum, Veit þú oss hjálp mót voda' og neyd, Vertu vor gud í lífi' og deyd.

## No. 270.

Lagid: Kom hér, mín sál, og kynntu þér.

O drottinn kær, hvad veiztu vel Vankvædi gjörvöll mín; Mér hjálpar ær, hvar helzt eg dvel, Hjástod og

gæzkan þín, Halt mér stødugum vid þinn veg; Víst þín af hjarta ef leita eg, Ró gefst, en raunin dvín.

2. Mig þó heimsæki margføld naud, Mædan ef ángra fer, Þó dag-legt hljóti' ad bresta braud, Svo bannist naudþurft mér, Raskast þó ei mín hugar-hægd, Hef eg alls konar gæda nægd, Því drottinn líkn mér lér.

3. Haf því í skorti gladvært ged, Grátin og hugsjúk ønd, Fimm þús-und litlum mat því med Mettadi Jesú hønd; Herrann skerf þínum hefur ei gleymt, Heldur þér nóg til vista geymt, Þó úrrædi virdist vønd.

4. Hvad hann þér gagna sjálfur sér, Sannlega muntu fá, Heims-nægta þó ei heppnist þér Herra-bord vid ad stá, Lát þér nægjast í lægra sess Lífs-uppeldis ad neyta þess, Sem skamtar hønd hans há.

## No. 271.

Lagid: Gæzkuríkasti grædari minn.

Pad er svo margt og mikilsvert, Minn drottinn, sem þú hefur gjört Mig vid um mína daga; Allt var þad gott, eg þakka þér; Pín forsjón mild útbýtti mér Pví, sem bezt hér nam haga; Fadir, Fadir, Veiti' lid mér, Pad eptir er, Og øllum líka Guddómur þinn og gæzkan ríka.

---

### c) Eptir allgódar og ardsamar vertídir.

## No. 272.

Lagid: Gudi lof skal ønd mín inna.

Frá þér, ljósanna fadir, Flýtur øll gjøf, sem nefnist gód; Vér sjáum vonarglađir, Pú veittir allt, sem hentar þjód; Á þitt ørlæti mænir Allt, hvad lífs hræring ber; Hæd, vøtn, laut, Hálsar grænir Herma oss: stórt þad

er; Hafid baudst heita skyldi Hirzla audæfa þin; Þadan þin midlar mildi Mørg gædi skepnum sin.

2. Þinu lifs eptir ordi Ad þeirri hirzlu søfnumst vér, Sem børn ad fødurbordi, Blessunar þinnar leitum hér; Enn gaf þin ørlát mildi Oss þadan gódan plóg; Hver er, sem ekki skyldi, Upphrópa: þú gafst nóg? Dýrd sé þér, gud, sem gefur Gott allt til sjós og lands; Allt, hvad andardrátt hefur, Efli pris skaparans.

3. Hver kann þér, herra, næga Herma vegsemd og þakkargjørd? Þin safnar forsjón fræga Fiskum hafs, sem menn saudahjørd; Mitt i sjós ólgu-øldum Opnar sig hønd þin gód, Med gædum svo margføldum Mettir þú landsins þjód; Því hættulegri heita Hér vor erfidis kjør, Þess betur þrátt vorn sveita Þin borgar mildin ør.

4. Lof þér, guð, allir inni, Allt má nefna þins kærleiks vott; Lát oss nú líkjast þinni Líknsemd í því að gjöra gott; Gef oss með gáfum þinum Góða ánægð og frið, Hallæri, háska, pínum, Herra, oss forða við; Gef að vér lifum glaðir, Greið þú oss allt í hag; Vér þinni forsjón, faðir, Felum oss nótt og dag.

## No. 273.

Lagið: Jesú Kristi, vér þökkum þér.

Prísi drottinn allt hvað er, Öllu sem næring gefur; Af brunni hafsins björg oss lér, Blessað enn land vort hefur. O guð, hvað værum vér án þín; Virzt oss framvegis gleðja Með þinni líkn, uns líf vort dvín, Lands heillum góðum seðja. Lát oss annt að gjöra gott, Gjöf þína svo rétt brúkum; Þakklætis sýnum þar með

vott, Ad þurfamanns tár af strjúk-
um. Drottinn, þér einum dýrdin
ber; Vér þökkum þér, Þig lofum vér.

---

**(Eptir bágar vertídir og í fiski-
leysi).**

No. 274.

Lagid: Hver, sem ad reisir hæga byggd.

Gud, þinni stjórnun hæfir hrós Í
hryggdum, skorti, mædum; Þín hefir
höndin líknar ljós Lykil ad öllum
gædum; Nær þeim upp lýkur, lætur
lýd Lukkufæld hreppa' á hverri tíd
Af hafi, jörd og hædum.

2. En ef þú lýkur aptur þá, Ör-
byrgdin víss er líka, Lífs næring
hverfur landi frá, Læsist hafsskautid
ríka; Nálgast þá húngurs-neydin sár;
Nú hefur margur þetta ár Mátt reyna
mædu slíka.

3. Féssjód sinn hafid furdu-tregt

Fékk oss; vér megum klaga, Líkams að lúð er fjörið frekt Forgefins marga daga; En verði, drottinn, vilji þinn, Veiztu, hvað þínum hvert eitt sinn Börnunum helzt kann haga.

4. Vér möglum ekki móti þér, Miklu heldur oss fleygjum Í þinn forsjónar faðminn hér, Felum oss þér og segjum: Æ faðir, mikla mildin þín Miskuni oss og forði pín, Vongóðir vér svo þreyjum.

5. Það oss ei liði þánka úr, Ef þykir atvinnu bresta, Að skinið fylgir eptir skúr, Og skort opt nægtin mesta; Þú hefur allt í þinni hönd, Þér felum bæði líf og önd, Neyð bæti náð þín bezta.

---

## 3. Morgunsálmar.

### No. 275.

Lagid: Þér þakkir gjørum.

Ljómar ljós dagur, Lífs kætist hagur; Sjá, ljós sveit vekur, Sól nótt burt hrekur; Enn fødur alda Eilífum gjalda Þøkk skal þrefalda.

2. Lof hátt skal hljóma, Hjálp og náð róma Guds geymslu beztu, Gæzkunægð mestu; Þolgódir þreyjum, Þar til burt deyjum, Synd hatur segjum.

3. Vort kall vel rækjum, Vort gagn rétt sækjum, Óttumst guð, eina Elskum dyggd hreina, Sátt og samlyndi, Sem er lífs yndi, Bæn og blídlyndi.

4. Verum vongódir, Vel þolinmódir Þrautir af þreyjum; Þó hér stríd heyjum, Sízt drottinn sefur, Sinni náð hefur Heitid, hjálp gefur.

5. Mitt líf, minn andi, Mín raust syngjandi, O guð upphæða, Um þinn pris ræða, Vel sé við tamin; Vegsemd skal samin Þér og þøkk, amen.

## No. 276.

Lagið: Gæzkuríkasti græðari minn.

Með friði nóttin fráleið svørt, Fyrir mér aptur sólin bjørt Lýsir og glatt mig getur; Í mætti' og gæzku mikill þú, Með krapti þínum, guð, enn nú Oss tíð og takmørk setur; Dýrð ber, Því þér, Vernd og náð Og vizku dáð Mér virztu senda, Hvern dag í blessun hér byrja og enda.

2. Í svefni guð mín vørnin var, Eg vissi' ei af mér sjálfum þar, Og háskann ei aðgætti; En móti hvers kyns hættu' og pín Herrann var sjálfur verndin mín, Hans forsjón fár upprætti, Krapt með Glatt geð Nýjan

gefid Hann nú hefur Heilsu minni;
O gud, eg treysti umsjón þinni.

3. Í nafni Jesú ángurs frí Eg byrja þennan daginn, því Hann verdur mér hagstædur; Guds vilja ef ad eins eg ann, Allt mér til góda leidir hann, Lífi og lukku rædur; Hann mér Hjálp tér; Herrann rádi, Herrans nádin Hjá oss veri, Hans allt, sem lifir, lof framberi.

## No. 277.

Lagid: Hver sér fast heldur.

Hátt upp í hædir Mitt hjarta lypti sér; Gud, sem nú gædir Mig gledi, lofa ber; Nýjan dag vott um nýja eg sé Nád, nú sem lætur :,: Nádugur gud í té :,:.

2. Hans nádi heyra, Þá hóf eg andvarp klökkt, Fúst fødur-eyra, Fann mína naudsyn gloggt, Þá fyrsta byrj-

ast þorsin vann, Um ássjá bad eg, :,: Og amen sagdi hann :,:.

3. Gud, hverju gjalda Gjøf þína má eg nú? Þøkk þúsundfalda Þér ber eg fram í trú, Ad um mig hugad enn er þér, Gef gáfur þínar :,: Ad gódu verdi mér :,:.

4. Enn framar feti Færist eg lífs á skeid, Gef, æ eg geti Gengid fram dyggda leid; Takmark míns lífs sé takmark þad, Oss fýsi' ad finna, :,: Nær flytjumst eilífd ad :,:.

## No. 278.

Lagid: Himna rós, leid og ljós.

Dagur er, Dýrka ber Drottinn gud minn; Nótt er lidin, Lof sé gudi, Ljós skín; Gledur enn Marga menn Myrkra flóttinn; Líf og sál, Líka mál Lofi drottinn.

2. Fyrir þinn son Og sælu von

Sé þér hæst lof, Mig þú spardir, Meinum vardir, Minn gud, Mér gafst frid, Líkn og lid, Leid svo nóttin; Líf og sál, Líka mál Lofi drottinn.

3. Mig hefur leitt, Og meinum eytt Miskunin þín, Hverja stundu' A heimsins grundu Hér til, Mér vert hjá Mildur, þá Eg missi þróttinn; Líf og sál, Líka mál Lofi drottinn.

4. Eg bid þig: Annast mig Enn í dag nú, Fyrir þann sanna Sálvin manna, Son þinn, Veit mér nád, Vernd og rád, Vægd og lidsinn'; Líf og sál, Líka mál Lofi drottinn.

5. Helgan dug, hreinan hug Hjá mér uppkveyk, Þér ad hlýda, Líka lida Lán dags, Og þúngann med Þolugt ged Þreyja hlýdinn. Gódan dag, Gladan hag Gefi' oss drottinn.

6. Hvad eg hér Forma fer, Farsælist vel, Utgáng, framgáng, Inn-

gáng blessa Æ minn, Og í náð Allt mitt ráð Annast' hvert sinn. Góðan dag, Glaðan hag Gefi' oss drottinn.

7. Eg fel þér Allt, hvað Mér Aður gafst þú; Sé þinn dugur Mér máttugur, Minn guð, Bæti sá, Bezt sem má, Breyskan þróttinn. Góðan dag, Glaðan hag Gefi' oss drottinn.

8. Líf og önd, Efnin vönd, Eg nú þér fel; Öllu illu, Voða' og villu Ver mig; Sómi' og dýrð Sé þér skýrð Sífellt, guð minn. Líf og sál, Líka mál Lofi drottinn.

## No. 279.

Lagið: Faðir vor, sem á himnum ert.

Ljósið dags fagurt ljómar enn, Líf breiðir út og gleði' í senn, Minn fyrsti þánki því nú sé, Þakklæti guði' að láta' í té, Að eg upprisinn, frór og frí Farið get til míns verks á ný.

2. Í værdar skauti sætt eg svaf, Svefninn mér nýja krapta gaf Minn líkama', sál og hús mitt hér Í hendi geymdir, drottinn, þér; Sú fødurlega forsjón þín Fordad hefur oss neyd og pín.

3. Hér fyrir sál og málid mitt, Minn gud, vegsamar nafnid þitt; Mins hjarta traust og athvarf allt, Á medan lifi' eg, vera skalt; Því hvern, sem á þér hefur trú, Herra, ei yfirgefur þú.

4. Hjálp, eg uppfylli hér í dag, Hvad þú baudst og minn styrkir hag, Ætíd stunda med allri gát Annara' og mína velferd lát; Fótsporum Jesú fylgja hér, Svo fái' eg himna-dýrd hjá þér.

## No. 280.

Lagid: Hver sem ljúfan gud lætur ráda.

Lít eg enn daginn létta húmi, Loptid purpura-geislum strád, Sem lík eg

ádan lá í rúmi, Líf nýtt þigg af míns födurs náð; Sé, tilbið, undrast yfir því, Ad hlotið hefi fjør á ný.

2. Þessi reynsla, þó þegi annað, Þar um órækt mér gefur skil, Medur undrun svo má eg sanna, Mikill og vís ad guð er til, Alvaldur, góður, øllum nær, Umsjá holla sem skepnum ljær.

3. Hann lætur skepnur lúnar deyja, Líf nýtt uppýngdum gefur þeim; Um augnablik ad eins hér þreyja, Um eilífð fagna' í betra heim; Deyja hlýt eg, svo himna-víst Hold mitt upprisið fái gist.

4. Við von þá styrkur vil eg bíða, Og vernd míns drottins treysta hér, Mót heimsins løstum herkinn stríða, Hins leita, sem þar uppi er, Holdið temja, sem himnum á Helgaðri sálu fylgja má.

5. Æ, styrk mig, fadir, upp svo risi, Og lifi þér, sem skepna ný; Þíns ords og dæmis ljós mér lýsi, Lastvar svo gángi fram i því; Upprisnum, lifs nær útlegd þver, Er mér þá sæla vifs hjá þér.

## No. 281.

Lagid: Hjartad, þánkar, hugur, sinni.

Ast þína, gud, enn mér bodar Upprennandi morgunsól; Þig ad prisa', er vardir voda, Væra lédir hvild og skjól, Fyrst skal idja' og munnsins mál; Min af blundi hressta sál Lyptir sér i himna-hædir, Um hátign þína' og miskun rædir.

2. Blunds i fadmi' eg lá sem lidinn, Likn þin vakti' og til min sá, Endurnæring, nædi' og fridinn Nádug veitti þin forsjá; Enn mér nýtt gafst aptur fjør, Otal bjóst mér heilla-

kjør, Er þú vildir ad eg hlyti Upp-
vaknadur og þeirra nyti.

3. Lífs þess krapta áttu alla, Er
mér gafstu nýtt í dag; Til þín þeinkja'
og þig ákalla Í þrautum skal og gledi-
hag; Lífs míns fadir, løgin þín Lífs-
regla sé jafnan mín, Yfirvegan ástar
þinnar Unadsemdin sálar minnar.

4. Eg vil þín med lotníng leita,
Og lífs vid sporid finna hvert, Í
elsku' og dyggd þér eptir breyta, Eins
hreinskilinn leynt, sem bert; Þú minn
vilja' og veikleik sér; Vertu aldrei
fjærri mér; Leid mig svo fram lífs
hvern daginn, Loks ad dýrdar erfi'
eg haginn.

## No. 282.

Lagid: O fadir himneski' og eilífi gud.

Uppris mitt hjarta og í mér hvad
býr, Uppris mín túnga og máli rétt

stýr, Upprisi lofsaungur andheitur, nýr, Upprisinn dagsroda nótt flýr.

2. Eins og lík andvana eg lá í nótt, Ekki neinn finna réd líkama-þrótt, Dauda og lífs er æ millibil mjótt, Mér lét þó guds verda nád rótt.

3. Hans réttri leidi mig höndin í stétt, Hún í dag greidi minn fóta-stig rétt, Hún öllum sneydi mig hamingju-prett, Hvergi svo veidi mig tál sett.

4. Lát oss, gud, nema ad lifa svo hér, Lífsins svo dagana telja, ad vér Allir, þá deyjum, ó drottinn, hjá þér Dýrdina erfum med lífs her.

5. Fús skal eg, drottinn, þó bída, sem ber, Bera dags-þúngann, en lid veittu mér; Eilífur sómi og þökkin sé þér, Þig lofi hvad, sem ad lífs er.

## No. 283.

Lagid: Sólin upprunnin er.

Enn til ljóss alvald þitt Á ný mig færdi Af dúrsins dái', og mitt Dug hresstum nærdi Líf, sem ad lá Lúid á fótskør þinni; Vernd þín, sem vidhélt mér, Vottar, eg enn sé þér, Minn gud, í minni.

2. Því skal mín þakklát sál Þér aldrei gleyma, Hegdan, hjarta og mál, Holl bod þín geyma; Med nýjum dug Í dag hún fast ásetur Ad stunda dyggd og dád; Drottinn, gef veikum nád Ad breyta' æ betur.

3. Eg er í hættum heim, Hans glys mig letur, En móti óvin þeim Adstod þín hvetur; Eg megna allt, Ef þinn kraptur mig stydur; Súrt ef mér sendast vann, Sykra þad aptur kann Þitt fylgi og fridur.

4. Aldrei yfirgafst þú Þann á þig

treysti; Vera skal vissa sú Von mín og hreysti; Í kvöld eg mun Ást og náð lýsa þinni, Að hélzt mér á þeim stig, Að óttast, faðir, þig, Svo frið eg finni.

## No. 284.

Lagið: Hver sem ljúfan guð lætur ráða.

Hýr aptur morgunblíða brosir, Breiðir út heill og fögnuð sinn; Við annir heims sig önd mín losi, Og til þín skundi, drottinn minn, Fyrst allra þökk svo færi þér, Föðurlega sem við hélzt mér.

2. Hollt í svefnværðum hlaut eg næði, Hreppti nýtt líf og krapta þar; Hús mitt, líf, velferð, lánið, gæði Læst í míns föðurs höndum var; Mín gætti forsjá föðurlig, Fékk ei skaðræði nálgazt mig.

3. Þigg í náð, faðir, þá sem flýtur Þökk af viknuðu brjósti nú; Hepp-

inn er sá, sem hælis nýtur Hjá þér, og setur á þig trú; Æ skaltu vera athvarf mitt, Aldrei bráist mér fulltingi þitt.

4. Æ, hjálp mér, svo með alúð vandi Allt mitt framferði vel í dag; Að trúr í minni stétt eg standi, Stundi heill mína og bræðra hag; Leið mig á fótspor lausnarans, Sem leiði mig til himna-ranns.

5. Með hugfró eg þá hlaup mitt þreyti, Herra, þín forsjá leiðir mig; Eg veit þitt heitorð aldrei breytist: Elskar þú þá, sem stunda þig; Þú ert minn faðir ástargjarn, Eg fyrir náð þitt kjörið barn.

## No. 285.

Lagið: Sæll dagur sá.

Sú kemur stund, Kröptug fram þegar alla Af grafar-blund Guðs sonar

raust mun kalla, Og eilífs lífs eda dóms vekja til. Eg verd, min sál, Einn med i þeirra skara; Lífs leid er hál, Líkn drottins enn þó sparar Þig, þess ei dyl.

2. Enn vard þér vært, Vægd drottins enn þitt hefur Fjør endurnært, Og fødurtryggdar gefur Þér merki ný; manstu til hvers þad sker? Guds ástar-ged Gjøri þér til hans snúa, Ad fáir séd, Undir eilífd sig búa Hver skuli hér.

3. Þér vaki sá Þánki jafnan i brjósti, Synd fæli frá, Fýsi dyggd ad kappkostir: Eilífd eg flyzt vid andartak hvert nær. Hann greidi þér, Gjørdir allar svo starfa, Ad stundir hér, Ódrum og þér til þarfa, Vel vinnist þær.

4. Rótfest hjá mér, Minn fadir, áform þetta; Kenn mér, ad hér Hef eg ei bústad réttan; Mitt fødurland

er mínum gudi hjá. Þángad svo eg Þannkunum hvern dag snúi, Þann þrædi veg, Þar til mig jafnan búi, Lid þitt mér ljá.

## No. 286.

Lagid: Jesú, þínar opnu undir.

Dagur austurlopt uppljómar; Ljóss-ins herra, dýrd sé þér, Mikla vernd og milda dóma Miskun þín oss jafn-an tér; Morgunrodans blídri brún Blessud enn nú gledur hún; Af sæng upprísum sælir, gladir, Ad sýngja lof þitt, hjartans fadir.

2. Skapari þar ed lýds og landa Lífs og heilsu veitir hnoss, Láti' hann sannleik, ljós og anda Leida, skína' og styrkja oss, Ad þjóna sér í þeirri stétt, Þar hann hefur oss í sett; Sérhvert bøl, sem mér kann mæta, Miskun virdist hans ad bæta.

3. Guð, hvað sem í öllum áttum Oss til heilla skaptir þú, Eptir sinum eðlisháttum Efli vora farsæld nú; Gef oss þennan góðan dag, Góði faðir, sjá vorn hag; Oss þín blessuð gæzka geymi Gæðin full í betra heimi.

## No. 287.

Lagið: Endurlausnarinn vor Jesú Krist.

Guði sé lof fyrir ljósið glatt, Liðin með værð er þessi nótt, Eg vil upprísa, Og minn guð prísa. Gæti vor guð.

2. Hans verk því eru himinn og jörð, Hér með er ljós og dimman gjörð Mót mörgum voða Mönnum til góða. Gæti vor guð.

3. Svo marga lofgjörð segi' eg þér, Sem þú gafst andartakið mér Um æfi mína, Fyrir alla blessun þína. Gæti vor guð.

4. Mínum misgjørdum, gud minn, gleym, Gud minn, lát mig ei deyja í þeim, Mín verk ad stunda Veit mér án synda. Gæti vor gud.

5. Svo lát mig vera, sem þú vilt; Sé æ þitt nádarheit uppfyllt Á mér og mínum Med krapti þínum. Gæti vor gud.

6. Gef mér ad skynja, ad endast á Æfinnar skeid og lífsins þrá; Minn drottinn gódi Mér øllum rádi. Gæti vor gud.

7. Eg fel mig nú og øll guds børn Almáttugs guds í skjól og vørn, Í himnaríki Hann oss inntaki. Gæti vor gud.

## No. 288.

Lagid: Sá vitnisburdurinn valdi.

Hvern skyldi líf mitt lofa, Ef lífs ei høfund þann, Er lét mig lifa' og sofa, Og lífga þar med vann; Skylt

er og ljúst mér líka, Ad lofa hinn gæzkuríka, Því verdur þess er hann.

2. O, ad mitt áform vekti, O gud, ad lofa þig; O, ad eg ætíd þekkti, Hvad annt þér sé um mig. Hjálp, gud, á hverjum degi Hver ein mín athøfn segi, Ljóst ad eg lofi þig.

3. Mun þá einn morgun fagur Mig vekja af þægum blund, Hinn mikli dómsins dagur, Þá drottins fødur-lund Loffæld mig lætur gledja, Lífs gledi' og heillum sedja Um eilífdar alla stund.

---

## 4. Kvøldsálmar.

---

### No. 289.

Lagid: Þøkk sé þér gód gjørd.

Sólin rann, ljós leid, Ljúfur gud mig stydja Í dag vann og neyd Allri burt ad rydja, Af því hans er greid

Öllum líkn; að biðja Enn skal mín iðja.

2. Veit mér þrótt veg þinn Vel, ó guð, ástunda, Og að skjótt eg finn Enda lífs, ígrunda, Svo hefji rótt hug minn, Héðan burt þá skunda, Til fegins-funda.

3. Veik mín dáð æ er, Afl og menntir dvína, Gjörvallt ráð, guð, þér Gef eg mitt; auðsýna Virztu náð í nótt mér, Nú eg fel í þína Umsjón önd mína.

4. Mér ei neyð mun þá Mæðu' og kvíða valda, Ef lífs skeið og þrá Endar helið kalda, Gefst mér þreyð, guð sjá, Gleði' og dýrð margfalda Um aldir alda.

## No. 290.

Lagið: Kristur reis upp frá dauðum.

Dags-vökn er enn nú endi, Og

nætursvefn fyrir hendi; Svo breytist allt í heimi hér, En himnesk gledi stadføst er. Gæti vor gud.

2. Eilífi einvalds-herra, Eg vil þér þakkir gjøra, Ad sendir Jesúm, soninn þinn, Sáluhjálpara' og hirdir minn. Gæti vor gud.

3. Þú hefur á þessum degi Þyrmt mér, en glatad eigi, Annazt svo sem þitt einka-barn; O gud, hvad þú ert nádargjarn. Gæti vor gud.

4. Eg vil þó annur játa: Eg má ei barn þitt heita; Hróp synda minna í himininn Hefur opt stigid, fadir minn. Gæti vor gud.

5. Þú gafst mér blessun þína, Þá nád hef eg syndum launad Í dag sem øll mín æfikvøld; Æ, mína þúsund punda skuld. Gæti vor gud.

6. Fadir, ó fadir náda, Fadir sannleiks og dáda, Fyrirgef øll mín af-

brot leið Fyrir árnan Jesú, pínu og deyð. Gæti vor guð.

7. Annars eg ei má sofa, Ellegar náðir hafa; Hver vill vænta sér værð og frið, Vera ósáttur þó við guð. Gæti vor guð.

8. Gleym þú því glæpum mínum, Guð minn, en krapti þínum Vernda þú mig, svo vil eg traust Vel sofa' og hvílast háskalaust. Gæti vor guð.

9. Sál, æru, auðnu, lífið, Og allt það, þú hefur mér gefið, Gef eg í þína gæzku-vörn, Guð minn, varð-veit þú öll þín börn. Gæti vor guð.

10. Jesú, meistarinn mildi, Mín óskar sál og vildi Himneska ró og hvíldir fá Heilagra þinna landi á. Gæti vor guð.

11. Guð gefi oss góðar nætur, Guð hjálpi' oss vel á fætur; Á hann vér setjum traust og trú, Tryggð

hans selum oss allir nú. Gæti vor gud.

## No. 291.

Lagid: Lángar mig i lifshøll.

Hvild er þægust þjádum, Þvi hún hressing til býr; Guds ad gæzku-rád-um Gjørdist nóttin møgr hýr; Skær frá lýdi' og ládum Laungum þegar sól flýr, Aptur verd ad snýr.

2. Lof þeim lifs foringja, Lif sem geymir vort þrátt, Sætlega skal sýngja Sál og túnga min hátt, Nýrri nád umkríngja Nú mig lætur sinn mátt, Og hlynnir ad dátt.

3. Nú á falla nótt vann, Nádir lúdir fá menn, Allan hennar óttann Yfirgnæfir verd enn, Lifs umferdar flóttann Farsæl endar hvild senn, Laun fáum þá þrenn.

4. Mina daga mig lær, Minn gud, telja svo hér, Ad eg skynji, allnær

Er sídasta kvøld mér; Endíng þegar øll fær Æfistundin, hjá þér Þú betra líf lér.

5. Mér hlíf minn gud vel eg Mínum lífs á vegi, Aldur hvar sem el eg, Eins á nótt og degi, Forsjón hans mig fel eg, Fyrir tign hans hneigi, Og ædst lof segi.

## No. 292.

Lagid: Sólin upprunnin er.

Upp dregst ad auga-brá Enn daud-ans bródir; Mig gleyminn minnir á, Og mælir hljódur: Minning daud-ans Dag hvern ný hjá þér vaki, Hef eg þad huga' innrætt Haft, og í dag þess gætt, Ad enda' eg taki?

2. O sál' ódaudleg mín, Efldi' eg heill þína? Hugsan sú: hverful dvín Hérvistar-lína, Jók hún mér megn Mót girndum heimsins blindum, Og

hvatti' ad idka dád, Adhyllast guds mins rád, En sjá vid syndum?

3. Væg, fadir, væg í nád, Væg þú mér sekum; Lát brot min ljót af máð, Létt sektum frekum; Sjá hjarta sært, Synd hatar, til þín leitar, Sem einka-athvarfs síns, Í nafni sonar þíns Um nád ei neita.

4. Mig fødur-forsjón vann Fram í dag leida, Í nótt þvi annast kann, Og meinum eyda; Hels-dúr mig frá Heimi þá svæfir kaldur, Önd dýrd-leg, frelsud, frí Fullsælu lifir í Eilífda' um aldur.

## No. 293.

Lagid: Hjartad, þánkar, hugur, sinni.

Ljóss á vængjum leid einn dagur Leingst í vestrid frá oss inn; Einn þú veizt, hvort annar fagur Í austri rennur nokkurt sinn, Herra gud, sem

hefur rétt Himinljósum miðin sett, Ótal vizku-verkin ljóma, Vald og gæzku' er þína róma.

2. Þér af hjarta þökkum glaðir Þennan liðinn sæla dag; Öllum meinum af verndaðir, Allra leizt í mildi hag. Gef, að minnumst allir á, Enn nær dauða bar oss sá; Gef því lífið vel svo vöndum, Viss sé hlífð í þínum höndum.

3. Blund á oss lát sætan síga, Sig hér þinni föðurvörn, Í nótt sem má ske nákøld hníga, Nú þín auðmjúk sela börn. Sofni augað dauðadúr, Draumi sálin vakni úr, Frá nátt-dægra dimmu hafin, Dýrðarljósi þínu vafin.

## No. 294.

Lagið: Kom andi heilagi.

Til hafs sól hraðar sér, Hallar út degi, Eitt skeiðrúm endast hér Á lífsins vegi.

2. O guð, hvort annað nú Enn þá vor bíður, Auglýsir eingum þú, Oðar en líður.

3. Nóg er, að vitum vel, Vort líf að endi, Og að það eins og hel Er þér í hendi.

4. Að um oss annt sé þér, Að sért vor faðir, Hughraustir vitum vér, Víssa nóg það er.

5. Pó dagsins skundum skeið Skjótt fram að nóttu, Brátt hennar líður leið Að ljósri óttu.

6. Svo lífið braut er breið Til bana-kífsins, Og dauðinn eins er leið Aptur til lífsins.

7. Svo lífa sérhver á, Sem sál-ast eigi, En andast eins og sá, Sem aldrei deyi.

8. Í þína umsjón nú, Ástríki fað-ir, Felum líf, byggð og bú, Blund-um svo glaðir.

## No. 295.

Lagid: Hver sem ljúfan gud lætur ráda.

Míns guds fødurleg mildi sparad Mig hefur enn nú þennan dag, Líf mitt frá øllu vondu varad, Vikid fyrir mig øllu' í hag; Þakklát og audmjúk því min ønd Þína minnist vid fødurhønd.

2. Mig ørlát saddi, mér nam svala, Mér lédi klæda- og húsa-skjól, Ad heyra' og sjá og hugsa' og tala Hjá mér enn krapta máttug ól, Brjóst mitt vakti og breysklegt ged Bendíngu þinna orda med.

3. Æ, hver fær huga yfirfarid Ástgjafir þínar, fadir minn? Æ, held eg vel, þad hafdi' eg svarid, Hlýdinn ad reynast sonur þinn? Notadi' eg gædi', er gafstu mér, Gud minn, sem vissi' eg þóknast þér?

4. Fyrirgef brot min, fadir kæri,

Fyr en mín augu lykja sig; Þinn andi sátt og svølun færi, Samvizkan þegar klagar mig; Sjá, allt mitt athvarf, øll lífs von Er sá, fyrir mig leið, þinn son.

5. O drottinn, þinni umsjón anda, Eignir og líf mitt nú eg fel, Fullviss að ekkert fær mér grandað, Forsjón þín allt því geymir vel; Á fætur þá eg aptur rís, Enn skal þér sýngja lof og prís.

6. Allt eins deyjandi eg mun hneigja Í trausti Jesú høfuð mitt, Eg mun þá sofna', en ekki deyja, Eignast vaknaður ríki þitt, Hvar þig, ó guð, um eilíf ár Einglanna prísar raustin klár.

## No. 296.

Lagið: Rís upp, mín sál, að nýju nú.

Fyrir gott allt þig gøfgum vér, Guð, sem oss náð og miskun tér, Eg þó

sé mørgu minna, Líknsamt ged þitt Lofkvædi mitt Láti nád hjá þér finna.

2. Hjálp í dag tédir mikla mér, Mig hjartanlega tókst ad þér, Bænheyrdir blítt sem fadir, Mig og mitt hús, Miskunarfús, Frelstir og forsorgadir.

3. Allt hvad eg er og andi sá, Í mér gladvær sem hugsar á, Ad þín dýrd eflast nædi, Allt hvad minn hag Efldi í dag, Eru þín meddeild gædi.

4. Eptir þinni elsku og mátt, Annastu mig um þessa nátt, Sjá ei til synda minna; Í daudans neyd, Allsherjar gud, Adstod láttu mig finna.

## No. 297.

Lagid: Gæzkuríkasti grædari minn.

Nú geingur sól ad gylltum bed, Gánga vil eg því feginn med Ad hvíldar hægu rúmi; Víst hefur allt

nitt vinnulag Verid án slysa þennan dag, Frá birtingu' hans ad húmi. Gud minn, Þjón þinn, Færir þér Af hjarta hér, Þad hefur hann eina, Þúsundfaldlegar þakkir hreinar.

2. Þad er svo margt og mikils-vert, Minn drottinn, sem þú hefur gjørt Mig vid um mína daga; Allt var þad gott, eg þakka þér; Þín for-sjón mild útbýtti mér Því, sem bezt hér nam haga; Fadir, Fadir, Veiti lid mér Þad eptir er Og øllum líka Guddómur þinn og gæzkan ríka.

3. Gef þú oss hæga hvíldarstund, Svo hver og einn vid lokinn blund Frelsist af líkams-lúa; Erfidid létt-ist æ hvern dag Af von um dýrd og sæluhag, Vid beztu kjør ad búa, Hjá þér Þá vér Notin sjáum Full og fáum, Fadir þjóda, Þess sem í heimi gjørdum góda.

4. O drottinn, vertu allra hlíf, Annastu, drottinn, þeirra líf, Sjúkleiki sem að þjáir; Gef þú oss hjarta gott, með auð Gleð þú oss, svo að hjálp í nauð Hver einn fátækur fái. Ánægt, Þér þægt Hjartalag Um hvern einn dag Og hógvært sinni Gef þú oss øllum af gæzku þinni.

## No. 298.

Lagið: Á guð alleina.

Minn tími stendur, Minn guð, í høndum þín; Enn er á enda Eitt stig af vegferð mín; Leiðtogi tryggur, Tryggð þín enn reyndist mér; O, hvað øruggur Er sá, sem treystir þér, Fyrir øllu', er á liggur, Einn þú bezt honum sér.

2. Þigg mitt þakklæti, Þér sem gløð færir ønd Allt fyrir ágæti, Er þín mér veitti hønd; O, hvað eg

minni Er ást og þinni tryggd, Saurg-
ad hef sinni Af synda vidurstyggd;
Vægd þó nád þín vinni, Og vidrétti
mína dyggd.

3. Sjá, synd eg hata, Þú sér mitt
hjarta-þel; Eg bid minn bata, Bod
þín ef ræki vel; Veikum þú vægir,
Vilja álítur minn, Hjarta það hægir
Hræddu vid breyskleik sinn; Nádin
sú mér nægir, Nálægan þig ef finn.

4. Nú fer ad nóttin, Nádþurfi' eg
leita þín; Gud, þinn á þróttinn Þor-
góð von stendur mín; Sízt mun mig
saka, Þá sit í skjóli því; Þú veizt
ad vaka, Svo værda njóti' eg frí,
Og mig ad þér taka; Í það hæli eg flý.

5. Í deyd öruggur Er hver, sá
treystir þér; Leidtogi tryggur, Tryggd
þín þá reyniſt mér. Minn tími
stendur, Minn gud, í höndum þín,
Ef vilt, útendud Ad skjótt sé vegferd

mín, Fel eg í födur-hendur Frelsada' sál af pín.

## No. 299.

Lagid: O fadir himneski' og eilífi gud.

Himinsól vendi í hafsins skaut inn,
Húmid oss bendir til værdar um sinn,
Leid svo til enda einn lífs-dagur minn,
Líkn vaunstu senda mér, drottinn.

2. Þér, blídi fadir, lof þýdasta ber,
Þú mig verndadir, og øllu frá mér
Grandi vísadir, þín gnæfandi hér
Gæzka blessadi, hvad mitt er.

3. Þú, sem vel greidir mér gæfunnar stig, Gjør pad eg beidi: þín fødurhønd mig Annist og leidi; mín ønd ørugg sig Í lífi' og deyd reidir á þig.

4. Øll skal svo hrundin burt ángist og þrá, Er værdarstundin mér gledileg þá, Sídasti blundur þó sígi mig á, Sælum guds fundi mun eg ná.

## No. 300.

Med sinu lagi.

Sá ljósi dagur liðinn er, Líður að nætur=stund; Himneski faðir, hjá oss ver, Hægan gef þú oss blund. Gleðji oss guð í himnaríki.

2. Gæzkan þín allvel geymdi oss Og góð verndaði' í dag, Mýkti í náð mótlæti' og kross, Miskun þín sá vorn hag. Gleðji oss guð í himnaríki.

3. Þar fyrir allir þakkargjørð Þér færum, drottinn, vér; Heiðri þig menn, himinn og jørð, Og hvað sem skapað er. Gleðji oss guð í himnaríki.

4. Svo margt brutum vér móti þér, Megnum ei telja það, Orð, hugrenningar, verkin vér Vanda ei gáðum að. Gleðji oss guð í himnaríki.

5. Fyrirgef oss nú, faðir kær, Það frømdum þér á mót, Oss nýjan dugnað aptur fær, Iðrun að

gjøra' og bót. Gledji oss gud i himnaríki.

6. Adgæt þú oss nú enn í nótt, Oss verndi mildin þín, Ad sofna kynnum sætt og rótt, Sviptir frá allri pín. Gledji oss gud í himnaríki.

7. Þá líkaminn hvílist, haltu þó Hønd þinni yfir mér, Gef þú, ad allir ødlumst ró, Oss forda meinum hér. Gledji oss gud í himnaríki.

8. Ad morgni aptur uppvek þú Oss á hagkvæmri tíd, Svo af oss þá í sannri trú Sýngist þér lofgjørd blíd. Gledji oss gud í himnaríki.

9. En þegar endast æfitíd, Og kemur vor dauda-stund, Veit oss, Jesú, hún verdi ei strid, Væran gef sídasta blund. Gledji oss gud í himnaríki.

10. Á enda heimsins oss sért hjá, Innleid í dýrd med þér; Lát oss ei-

lífan søgnud sá Og frid, þegar deyjum vér. Gledji oss gud í himnaríki.

## No. 301.

Lagid: Jesú, þínar opnu undir.

Hvíldir nætur-húmid bodar; Herra, sál mín gledst í þér, Enn þín stýrdi øllum voda Alvøld hønd í dag frá mér; Heilsu, blessun, fjør og frid Fann eg andar-tak hvert vid; Síns guds ástar-undrum lýsi Ond mín þakklát, lofi, prísi.

2. Var eg í dag, sá vera skyldi? Vitna þad, mitt hjarta', í kvøld; Avann óþreytt míns guds mildi Mig ad fordast glæpa vøld? Æ, 'eg blygdast, auga þitt, Alskyggni, sér dagfar mitt; Æ því gjør þad yfirvega, Æ því meir eg fyllist trega.

3. Fús þú brotin fyrirgefur, Fadir svo menn elski þig; Í þad skjól mín

önd sig vefur, Auðmjúk, trú-góð huggar sig Við míns Jesú kvala-kvöld, Þá kvittaði' hann mín synda-gjöld, Fyrir hann eg vænti vægðar, Og veit það eitt til hugar-hægðar.

5. Ljá mér, faðir, fylgð þíns anda, Að framkvæmt geti eg áform mitt, Æ því meir mig allan vanda, Sem afbrot fleiri gafst mér kvitt; Eg sofna, veit senn af mér ei, Eg er þinn, hvort lifi' eða dey; Í föðurhönd, minn faðir, þína Fel eg líf og sálu mína.

## No. 302.

Lagið: Gef þinni kristni góðan frið.

Guð faðir, sem oss geymir vel, Gæzku, mátt þinn eg prísa; Þitt enn að lofa ástarþel, Og miskun þinni lýsa, Skal mín þakklát vanda vísa.

2. Eg, sem þíns anda ástgjöf hlaut, Er þínum tryggðum minni, Vesall

til þeirra vægda', er naut, Vann ei af miskun þinni, Synd uppgafst mér enn eitt sinni.

3. Gud, heiløg vera, góð og trú, Gud minn, gud fedra minna, Frá móðurlifi minn varst þú; Æ, mætti' eg verdur finnast, J tølu barna teljast þinna.

4. Leid mig þitt endurlifnad barn, Lát andar-frid mig næra; Nú sofna' eg, fadir gæzkugjarn, Gef mér hvild trygga' og væra; Til dóms lát mig ei dúrinn færa.

5. Fadir, oss háska forda og neyd, Fel eg þér mig og mina; Þér treysti' og ad mér tek þinn eid; Tryggd hef eg reynda þina, Aumum miskun enn munt sýna.

## No. 303.

Lagid: Himna rós, Leid og ljós.

Gudi vér Hefjum hér Helgan kvøld-

saung, Dagur líður Fagur, friður, Fæst því Hvíldin hæg, Þjáðum þæg, Því skal hvert sinn, Líf og sál, Líka mál Lofa drottinn.

2. Eilíf náð Allt vort ráð Annazt hefur, Slysaföllum Afstýrt öllum Oss frá; Syngi þér Allt, hvað er, Æðst lof, guð minn; Líf og sál, Líka mál Lofi drottinn.

3. O, hvað mjög Opt hef eg Illa mót þér Dyggðum hafnað, Syndum safnað; Sál min Kallar því Eymdum í A þig, guð minn; Lífið hér Leiðist mér, Leys mig drottinn.

4. Veit mér ró, Frið og fró, Faðir í nótt, Lát ei hræða Mig né mæða Mein þúng; Kraptur hér Með sé mér Máttugur þinn; Góða nótt, Gott og rótt Gef oss, drottinn.

5. Bljúg er mín Bæn til þín, Bezti guð, enn, Að mig geymi Hér

i heimi Hønd þin; Verndin þin Vørnin min Veri hvert sinn; Góda nótt, Gott og rótt Gef oss, drottinn.

6. Eg fel þér Allt, hvad mér Adur gafst þú, Sálu' og lifi Hjálpi' og hlifi Hønd þin; Allt hvad er Medur mér Mikli pris þinn; Lif og sál, Lika mál Lofi drottinn.

---

## 5. Bordsálmar.

### a) Fyrir máltid.

### No. 304.

Med sinu lagi.

Fadir á himna-hæd, hver fyrir Jesú nád Elsku þina oss vottar, Ønd og likama mettar.

2. Hvad um lopt, haf og jørd Hefur tilsetta ferd, Forsorgar þú og fædir, Fjølgar, annast og klædir.

3. Med lofgjørd og lotning vér,

Líka sem kristnum ber, Þiggjum í dag þakklátir Þitt lán, sem að oss veitir.

4. Lát oss í hreinum hug Halda oss við þinn veg, Svo með samvizku góðri Seðjumst vorn fóðri.

5. Hjálp oss nú, herra kær, Svo heiður þinn eflum vær; Fyrir frelsarann Kristum, Faðir, á þig treystum.

---

Vér þökkum þér, hinn góði.
(Sjá No. 268).

---

b) **Eptir máltíð.**

## No. 305.

Lagið: Kristi, vér allir þökkum þér.

Guð, vor faðir, vér þökkum þér Fyrir þinn son, Krist, vorn herra, Af mildi þinni, sem margföld er, Manneskjur virðist næra, Og allar skepnur, sem eru með önd; Oss hefur satt þín milda hönd, Lof sé þér æ og æra.

2. Herra, sem mettað hefur nú

Hold vort, er deyja hlýtur, Sál vora einnig sedjir þú, Sem aldrei deyr né þrýtur; Ord þitt er hennar afl og megn, Ad strída synd og løstum gegn, Uns med þér nádar nýtur.

3. Himnafødur á hverri tíd Heidrun mesta sé framin, Sá oss kvittadi syndir vid Fyrir soninn til vor kominn; Hjálparann Jesúm, herra vorn, Hver oss þin gjordi óskabørn, Ætíd lofum vér, amen.

## No. 306.

Med sinu lagi.

Heidrum vér gud af huga' og sál, Hans lof vor túnga sýngja skal, Ad sína miskun sýndi ljóst, Saddi oss vel med drykk og kost; Sá ollu holdi fædu fær, Fætt hefur oss nú drottinn kær, Pad allt hans mildi þøkkum vær.

2. Þökkum honum nú, þjónar hans, Það er æ skylda sérhvers manns; Játum, að oss elskaði hann, Af náð sinni skapaði mann; Með húð og holdi, blóði' og beini' Byggð er sú helzta skepnan ein, Og síðan gefin sálin hrein.

3. Guð hefur veröld vel tilreitt, Vanta lét ekki' á næring neitt; Fjöllin og dali frjóvgar hann, Fénaðinn gras ei vanta kann; Ver af jörðunni vín og brauð, Veitir það hvert ár mildur guð, Og hjálpar svo af húngurs-nauð.

4. Fiska veita oss vötn og sjór, Verður af þessu björgin stór, Eggin og fugla eignumst vér, Oss til at-vinnu skapað er Naut, geitur, svo og sauða-fé, Sjálfur guð lætur oss í té, Svo að vor næring nógleg sé.

5. Þökkum honum og þiggjum nú, Það hann gefur oss sanna trú, Höf-

um því æ í hjarta sett, Halda hans boð í vorri stétt, Svo jafnan øll hans heiløg hjørð Heiðri hans blessað nafn á jørð; Það skal vor allra þakkargjørð.

## 6. Brúðkaupssálmar.

### a) Á undan hjónavígslu.

Í nafni Jesú athøfn má (Sjá No. 48).

### No. 307.

Lagið: Gæzkuríkasti græðari minn.

Fyrstu brúður til fyrsta manns Framleiddi mildin skaparans. Ó, hjónabandsins herra, Af þínum himni þau álít, Þitt sem nú koma fyrir auglit, Efl heill og heiður þeirra, Í heim Æ þeim Virzt liðsinna, Lát þau finna Líkn af hæðum, Blessa þeim lífsins lán og mæðu.

## No. 308.

Lagið: Heimili vort og húsin með.

Þér, lífsins herra, guð, vor guð, Göfgun og lotníng sýnum, Þú skapar ljós og lífs fögnuð, Líka með krapti þínum Ástir tendrar í úngdóms-barm, Allt eins fullorðins styrkir arm, Og heillum auðgar sínum.

2. Frábærlega jörð fögur er, Full með öll hentug gæði, Þau ef að eins rétt þekktum vér, Og þekkt hver brúka næði, Armæðan sjálf oss yndi fær, Á meðal þyrna rósin grær, Lífstjón líf betra græðir.

3. Hver sá hér vina situr í krans, Sem ei með gleðitárum Velgjörðir telji verndarans, Veittar á barndóms-árum? O guð, þær reiknað einginn fær, Í dag þó vilt þú mikla þær Með náðar-nægðum klárum.

4. Þar fyrir prísum þrávallt vér

Þig, fadir allra lýda, Gamlir og úngir greida þér Gofgun um heiminn vída; Á himni' og jordu' i hverri átt Hljómi sú lofgjørd dag og nátt: Blessad sé nafn guds blída.

5. Blessa þann dag, nú eigum á Ástanna gledi' ad sæta, Og brúdhjóna-lags, er byrjast á, Í blessun virztu gæta; Blessa hvern aldur, stétt og stand, Styrk og blessa vort fodurland, Lát eining ást innræta.

## No. 309.

Med sinu lagi.

Heimili vort og húsin med Nema herrann byggja vildi, Árlega blessi bú og fé, Bjørg svo hver hljóta skyldi Af gæzku hans og guddóms-nád, Sem gjarnan eftir allra rád, Annars vor idja' ei gildir.

2. Nema gud sjálfur styrki stad,

Og stjórni borg og landi, Hlífi og gæti øllu ad, Svo eingu stofnist vandi, Gefi og sjálfur gódan frid; Gagnlaust er þó ad vaki lid, Fær eingu fordad grandi.

3. Litid ávøxt og ydar børn, Af gudi þau hafid þegid, Hagkvæma fá þau hjálp og vørn, Hans lán og gáfur segid; Forsjón vill hann þeim veita vel, Vis þeirra fæda' hún ávallt er, Sjálfir þad sanna megid.

4. Eins og ad pílur ekki fár Ofl-ugur hefur í hendi, Þángad sem hugdi hann sér til fjár, Sérhverri frá sér rendi, Mátt guds og vilja merkir þad, Mann og kvinnu úr ýmsum stad Til samvista hann sendi.

5. Sæll er sá mann, þeim gefur gud Gæfusamt lánid barna, Óvinum kvídir ekki vid, Þeir ýfa hann ei gjarna; Ófund og neyd ef hann vill

hrjá, Hjástod örugga hefur sá, Volædi sér ad varna.

6. Födur, syni og anda sé Ædst dýrd um jörd og himin, Eins sem hún var ad upphafi, Au enda verdi framin; kenn oss ad halda kristinn sid, Kvittast og skiljast syndir vid; Sá þad vill, sýngi amen.

---

## b) Eptir hjónavígslu.

### No. 310.

Lagid: Gæzkuríkasti grædari minn.

Þau féllu ad þínum fótum hér, Fadir, einum treystandi þér, Gódra því adstod ertu; Þad bandid tryggda blessa þú Blídri med födurhendi, nú Sem trúlynd teingir hjörtu; Æ med Glatt ged Lífsins feta Gef þeim götu' Og gledi næga Í þíns fridar skauti og skjóli þæga.

## No. 311.

Lagid: Gæzkuríkasti græðari minn.

O gud, þín mild og heiløg hønd Hjúskapar gaf á jørdu bønd, Þig bidjum, helgur herra: Gef þessum hjónum heill og náð, Hjartans eindrægni, iðni, dáð, Þeirra lát yndi' ei þverra, Þau leid, Þeim greid Hjálp ad bera, Hvad sem sker, Svo heit adgæti, Vongóð í hryggdum, vør í kæti.

---

## 7. Katekisatións-sálmar.

---

### a) Á undan katekisatión.

## No. 312.

Lagid: Kristi, vér allir þøkkum þér.

Í nafni Jesú nú, vor gud, Nálæg þér børn þín standa; Ord þitt í gledi eins og naud Oss færir líf til handa; Svo þad til gagns vors sanna vér

Séum fúsir ad læra hér, Gef øllum oss þinn anda.

## No. 313.

Lagid: Heidrum vér gud af huga' og sál.

Alvísi gud, lát ord þitt blitt Utbreidast heims um løndin vitt; Góda þeim úngu gef sem fyrst Til gudrækni og dyggda lyst; Þinn kraptur ædri øllu er, Ungum og gømlum kenn því hér, Gódi fadir, ad gedjast þér.

---

b) **Eptir katekisatión.**

## No. 314.

Lagid: Gæzkuríkasti græbari minn.

Nádugi gud, vér þøkkum þér, Þad oss úr myrkri leiddir hér, Og kveyktir ljós þitt klára, Kenndir oss þekkja þig og hann, Þú hvern útsendir, lausnarann, Strax á tíd æsku-ára; Gjøf sú Gef þú Avøxt færi, Ad vér lær-

um Lífa' og deyja, Frelsarans bodvrd sem fyrirsegja.

---

Vér bidjum þig, ó Jesú Krist.
(Sjá No. 130).

---

## 8. Konfirmatións-sálmar.

---

### a) Á undan konfirmatión.

### No. 315.

Lagid: Ovinnanleg borg er vor gud.

Þessi dagur, ó gud, vor gud, Gef vel oss blessast nái, Vid þig oss bind og vid þin bod, Veit trúarstyrk hver fái; Fadir, hér fyrir þér Fólk úngt og gamalt sér; Oss, fadir, álít þú Med ædstu mildi nú, Andi þinn lid oss ljái.

2. Þitt legg þú úngum ord í munn, Innra þess kraptur brenni, Ad trúna' og hennar atrid kunn Æ fölskvalaust medkenni. Þeir fyrri færdust þér,

Fyrir þeim báðum vér, Skírðust til þíns nafns þá, Þig, guð, nú treyst-um á, Von sú uppfyllast vinni.

3. Náðar-sáttmál ánýja þú Nú við börn þessi' og síðan, Lát já það, sem þau segja nú, Sízt þeim úr minni líða; En breyskt þó er sérhvert, Einn þú máttugur ert, Hjálpa með styrkri hönd Hverri frómlyndri önd, Til enda trúrri' að bíða.

4. Og nær þau húsum feðra frá Flytjast í veröldinni, Trúarbrögð Jesú þú lát þá Þeim vera' í fersku minni, Svo hlýðin þjóni þér, A þig treysti' einn, sem ber; Yfirgafstu' aldrei þann, A þig sig reiða vann, Og föðurlíkn fela þinni.

## No. 316

Lagið: Gæzkuríkasti græðari minn.

O faðir, son og andi, þinn Orð-

inn stendur sáttmálinn, Eg þó mín orð ei haldi; Æ, minn mig jafnan á minn eið, En ef eg skeika af réttri leið, Unn mér það ángri valdi; Hver þá Hér má Vita, guð, Að veitir náð, Því viljum glaðir Á sáttmál þitt treysta, tryggvi faðir.

---

b) **Eptir konfirmatión.**

## No. 317.

Lagið: Lofið guð, Lofið hann hver, sem kann.

Drottinn, þú Drottinn, að hátign stór, Æskan nú Einlæg en hvikul sór Þínum merkjum undir æ Og dyggð-ar stríða. Seg þú: börnum lið eg ljæ, Læt þau heill bíða. Guð er hjá, Guði ef hlýðið; Faðir sá Sér, hvað bágt líðið, Drugg þá, Elskuð börn, stríðið; Sterk er drottins hjálpar-hönd; :,: Yðar faðir elskar heitt Elsk-endur sína :,:.

2. Dyggda-skeid Skundid nú, kæru børn, En sú leid Er hætt og villu-gjørn; Hættri villu þurfid þér Þó sizt ad kvida, Ljós á vegum ykkar er Ord drottins blida. Guds forsjá Greidir veg ydur, Hættum frá Hver-vetna rydur, Alla þá Almáttug stydur, Sem ljúft er, ad drottinn leidi sig. :,: Hann er sæll, sem hlýdir fús Himnanna gudi :,:.

3. Varnir, hér Hlustid ord drottins á, Hrædizt þér, Ad hneyrla børnin smá; Drottins raust af hæstu hæd Hátt dunar þannin: Mín skal hegníng hitta skæd Hneyrlunar-manninn; En hver sá, Er villtan leidir Veginn á, Veg sjálfs sins greidir, Sælu' ad fá, Sem gud tilreidir Þeim, er kærleiks vinna verk. :,: Gjøri hver ad gæta sín, Gud drottinn allra :,:.

## No. 318.

Lagid: O drottinn allsvaldandi.

Gud, fadir orma' og anda, Eilíf, trúföst veran merk, Óbifud ord þín standa, Þó alheims falli bygging sterk; Veit oss trú Vel ad halda, Ef veik-ist sú, Styrk margfalda Vid oss þú, Og veikleiks lát ei gjalda.

# 9. Reformatións-sálmar.

## No. 319.

Lagid: Væri nú gud oss ekki hjá.

Gud, ljóssins fadir gódi, nú Göfgi þitt nafn vort hjarta, Ur ljótu myrkri oss leiddir þú Í lærdóms-skin Jesú bjarta; Þá myrkurs skýldi þoka því, Þú sagdir: verdi ljós á ný, Drógst svo frá dimman svarta.

2. Þína kirkju stríddi' illskan á, En, gud, þú nádir styrkja; Hug og dug gafstu þínum þá, Þeir lýstu' upp

veginn myrkva, Svo frelsi' og ljós oss féll í skaut, Flýja hjátrúar-veldið hlaut; Sem klettur stód þín kirkja.

3. O gud, lát oss ei optar sjá Aldanna myrku daga, Og lát kennendur aldrei fá, Oss sem á tálar draga, Svo allir kristnir, eins og ber, Þig elski, þekki' og hlýdi þér, Og þínum elskulega.

4. Öll blessan, drottinn, er hjá þér, Oss blessa þú af hædum, Kirkjunnar ætíd vørdur ver, Vernda frá ófrid skædum; Á jørd trú manndyggd oss skal þá Undirbúa, svo himnum á Ljóssins gud lofa nædum.

## No. 320.

Lagid: Allt eins og blómstrid eina.

Gód stendur, gud, þín kirkja, Grundvøllud, føst, óhrærd, Hana vannst stydja og styrkja Gegn strids ofríki'

og flærd. Illskunnar megnt ofbeldi Ei hús þitt bifa má, Mótstendur myrkra veldi, Merkum byggt sannleik á.

2. Líknsami fadir ljósa, Oss leidd-ir fund þinn á; Allir, sem inngáng kjósa Í hús þitt, gjarnan fá. Þá baudstu, burtu lída Blindni og hjá-trú vann; Lofgjörd þér ljúkum blída Í ljósi því, upp sem rann.

3. Ó gud, oss unn ad læra, Hvad ertu mildur oss, Og í nyt ord þín færa, Svo ödlumst dýrdar-hnoss; Æ medur oss þitt skæra Orda-ljós, drott-inn, geym, Lát þess fridar-bod færa Farsæld um allan heim.

---

## 10. Kirkjuvígslu-sálmur.

---

### No. 321.

Lagid: Í dag eitt blessad barnid er.

Þig innilykja, ó gud, kann Ei jörd-

in, hús né stadir, Himnanna einginn himinn vann Þig, himna, taka, fadir; Alla hluti þú ætíd sér, Einnig þann søfnud, sem ad hér Þig dýrkar, þig ákallar; Vor hjørtu bljúg sig hefja nú Himnanna til, hvar sjálfur þú Drottnar um aldir allar.

2. Í nafni Jesú oss lít á, Eptir hans fyrirheitum, Hús þetta blessa, heyr oss, þá Hér þinnar nádar leitum. Hér heyrum vér þitt heilagt ord, Hér setjumst vér vid Jesú bord, Hér dyggdir helgar lærum; Þú, fadir, rétt oss þína hønd, Þinn andi styrki vora ønd, Ad gódan ávøxt færum.

3. Margur, sem hryggd í brjósti ber, Hvern buga mótgángs hlekkir, Athvarfs leitar og hjálpar hér, Hans mædu bezt þú þekkir; Leid hann, ó gud, af ángist út, Og lát hvern þann, er þjakast sút, Frelsis-stund finna

þína, Svo hann með gedið glatt á ný Gángi musteri sjálfs þíns í, Þakklæti þér að sýna.

4. Þig biðjum vér í þessum stað, Þú, faðir allra þjóða: Vort blessa land og vernda það, Veit því frið og heill góða. Í nafni Jesú oss heyr þú, Í nafni Jesú von og trú Á hans orð ætíð festum, Að þú oss veitir, herra, hér, Hvers í hans trausti biðjum vér, Og oss er æ fyrir beztu.

5. Á síðan, guð, með eingla her Um eilífð samstemmandi, Fegri lofsaung vér færum þér Á farsældarinnar landi; Þar fáum vér þig sjálfan séð, Og son þinn, Jesúm Kristum, með, Sem megum vin vorn kalla; Þar gefur þú oss frið og frægð, Fögnuð, vegsemd og gæða nægð, Drottinn, um eilífð alla.

## 11. Fridarsálmur.

### No. 322.

Lagid: Herra, þér skal heidur og lotning greida.

Bjódid lof þeim, böli og neyd afventi, Burt er strid, sem oss med naud umspennti, Bæna gádi, Grimmd afmádi Gud alrádi, Og sina nád oss sendi.

2. Herrann ædsti hýr oss gaf, ad fridur Frá himni sté til vorra landa nidur, Hann oss kætir, Hvad sem mætir, Hryggd upprætir, Barn adgætir, er bidur.

3. Gud, med lotning þér sé þökk vor samin, Þinn lofstir um öll heims löndin framinn; Þig, er gridin, Gæfu-lidid Gafst og fridinn, Enn tilbidjum, amen.

## 12. Huggun í sjúkdómi.

---

### No. 323.

Lagid: Af djúpri hryggd ákalla eg þig.

Eg farsæld lífsins ádur sá Á mínum gledi-døgum, Ótal gladværdir átti' eg þá Í eptirlætis-høgum; Vil eg því nú veikleika med Vardveita jafnan rósamt ged, Þó særist sorgad-sløgum.

2. Eg má syndara aumann mig, Ó gud, fyrir þér játa; Óhlýdinn er eg þrátt vid þig, Þú agar samt í máta; Skal eg sekadur ekkert þá Álag tímanlegt borid fá, Og mig leidrétta láta.

3. Fadir, mig allan fel eg þér, Forsjón þín ad mér gæti; Hvort sem þú leingra lénar mér Líf, eda heli' eg mæti, Á þér einum skal allt mitt

traust, Afsjá mannanna' eg trúi laust, Þú hjálpar, huggar, kætir.

4. Eg þá trúaður út af dey, Erfð mín er viss á hæðum, Mitt andlát því eg óttast ei, Ellegar grafar-hræðu; Og þó eg ráfi' um dauðans dal, Drottinn, náð þinni' eg treysta skal; Þú ert hjá mér í mæðum.

5. Harmatölum skal hrinda frá, En heiður guði veita, Með þolinmæði honum hjá Hjálpar og náðar leita; Jafnan í nauðum hugsa hér, Hversu líknsamur drottinn er, Hann einn kann öllu að breyta.

---

## 13. Við kirkjugáng mæðra eptir barnburð.

---

### No. 324.

Lagið: Gæzku guðs vér prísum.

Lof dýrð um aldir alda, O guð, þér

sýngjum vér, Þigg lofgjørd þúsund-falda, Þú veikum miskun tér, Oss, þegar ángur sker, Í fødur-umsjón tekur, Og aldrei burtu rekur Þá, sem ad treysta þér.

2. Hættar þrautir, sem þjádu, Þær hvurfu, gleymdist hver, Og inndæl ord vid kvádu: Einn madur fæddur er, Arftøku von sem á Í dýrdar-ríki ædstu; O, von, án líka, stærstu, Hverfa burt hryggd øll má.

3. O vor gud, veit hver módir Vel børn upp ali' um heim, Avextir idju gódir Eilifd farsæli þeim, Upp þá risin af grøf Til gledi, gladvær segi: Gud, hér er eg og, þegin Af þér, hin góda gjøf.

---

## 14. Á fæðingardegi manns.

### No. 325.

Lagið: Guðs son kallar: komið til mín.

Fyrir mitt líf eg þakka þér, Á þessum degi' er gafst þú mér, Guð, þér eg gøfgun færi, Að þín náð til þess þóknun bar, Það eg af eingu skaptur var; Líf mitt sú náðin nærir.

2. Undarlega þú um mig bjóst, Við umsjón þína fram eg dróst Að augnabliki þessu; Gleði-dag margan gafst þú mér, Grátur og þjáning umbreytt er Í farsæld, frið og blessun.

3. Óverðugan meðkenni' eg mig Margfaldrar náðar lífs um stig, Ó þú allsherjar herra; Mig, jarðar duptið, minntist á Í mildi þinni eilífð frá, Svo farsæll feingi' eg vera.

4. Þú sást og heyrðir mæðu mín, Mín andvørp taldi forsjón þín, Fyr

en eg skapnað feingi; Minn deildan verð útmældir mér, Miklu fyr en eg beiddi hér, Þá eg var enn þá einginn.

5. Þú lézt mig fyrir þér finna náð; Frá eilífu þín vizku-dáð Synd alla sá þó mína. O elsku' og náð, þá aumum mér Allrar veraldar herra tér, O faðir, forsjón þína.

6. Að lífið mitt aðgættir þú, Að lífs og heill hér stend eg nú, Að lífs ánægju' eg smakka, Að undarlega' útleiddir mig, Og híngað til um gæfu-stig, Þér, faðir, allt eg þakka.

7. O guð, ef lífa leingur á, Leggðu mér til, það gagna má, Af þér eg vona þessa. Eg líf og sál afhendi þér, Æ herra, virztu líkna mér, Vernda mig bezt og blessa.

---

## 15. Ferdasálmar.

---

### No. 326.

Lagid: Fadir vor, sem á himnum ert.

O, þú guds barna geymarinn, Sem greidir inn- og út-gáng minn, I nafni þinu nú vil eg Nádþurfi byrja ferda-veg. O drottinn, bjód þú einglum þin, A leidinni þeir gæti min.

2. O drottinn, virztu ad mér gá; O drottinn, leid mig til og frá; Hønd þin mig verndi, hvar eg fer, Háskanum visi burt frá mér; O drottinn, skildu ei vid mig, Einka-førunaut kýs eg þig.

3. O drottinn, geym mitt megn og mál, Minn likams-krapt og veika sál, Húsid lika og heimkynnid, Holla vini, sem skilst eg vid, Gættu þeirra og gef mér þá Glada og heila aptur sjá.

4. O drottinn gódi, annast þú A-

formid minnar reisu nú; Taktu mig ad þér trútt og vel, Tilsjón þinni mig allan fel, Slysförum öllum varna vid, Vertu, minn gud, á alla hlid.

5. O drottinn, eign min æfinleg, Af þér lifi og hrærist eg; Fyrir mig Jesús útgaf önd, Af því leid mig vid sterka hönd; Einkum nær eg skal falla frá, Farsæla reisu gef mér þá.

---

### a) Vid húsfödurs lánga burtför.

## No. 327.

Lagid: Væri nú gud oss ekki hjá.

Þú þekkir, gud, vort áform allt, Og vorn fótstig þú greidir, Idn góda blessar einn ávallt, Allt stydur, verndar, leidir; Eg byrja ferd, en bid, ad þú Blessir mitt áform líka nú, Háskasemd allri eydir.

2. Gef heilsa, þol og heill frá þér Hjá mér á vegum búi, Svo hagsæld

finni' eg hvar eg fer, Og heim med gladværd snúi; Um vøtn og lønd mót voda-hag, Vertu minn skjøldur nótt og dag; Eg þinni tilsjón trúi.

3. Ástvini mína ei forlát, Minn ert og þeirra fadir, Heimkynni mínu haf á gát; Hvad sem mér úthlutadir, Heimafólk, eignir, ástand, líf, Almættis þinni fel eg hlíf, Gef aptur finnumst gladir.

4. Eg svo í fridi reisi rór, Ræki mitt kall med dádum, Og held til baka, hitti frór Hús mitt gladur í nádum, Og ásamt mínum eptir þad Eg þig prísa, og dáist ad Þinni vernd, þínum rádum.

---

b) **Vid húsfødurs apturkomu.**

No. 328.

Lagid: Fadir vor, sem á himnum ert.

Mitt hús enn stendur, þøkk sé þér,

Þú guð, sem geymdir, mitt hvað er;
Margur heimkominn hús sitt fann
Hrapað, velbyggt sem kvaddi hann,
En stormur, vatnsflóð, eldur braut,
Örsnaudur svo hann ráfa hlaut.

2. Þú heyrðir, drottinn, það eg bað, Þá eg og mínir skildumst að, Þú hefur varðveitt þá og mig, Þín náð oss fylgdi mildilig, Ferð mína hefur framað þú, Finn eg allt skaðlaust heima nú.

3. O guð, verndarinn, eg þig bið: Oss hér framvegis haltu við, Að með friðsemi, eins og ber, Umgáng-ast mættum glaðir vér, Og lifa, þar til æfin dvín, Í bæn og trú og von til þín.

4. Öll vor fótspor og allan hag Annist þín forsjón nótt og dag; Þín hönd oss leiði, herra kær, Hvar sem vér gaungum, nær og fjær, Og gef

síðast, að sælir vér Samfögnum uppi í dýrð hjá þér.

## 16. Við líka úthafningar.

### No. 329.

Lagið: Þann signaða dag vér sjáum nú einn.

Dagur svo lángur aldrei er, Að ei með kvøldi lendi, Dauðinn lífið dregur með sér Dapurt í burt úr hendi; Vér skulum út, en grøfin er gjør, Þar gefst ei annar endi.

2. Guð gefi það svo þjónum vér Í þessari verøld inni, Að guðs son með trúnni taki hver, Svo traustlega miskun finni; Þá heimurinn frá oss hallar sér, Hjálp guðs aldregi linni.

3. Nær førum vér í vort føðurland, Og úr fárinu skulum venda, Gef eg mína sálu guði í hønd, Í gleði himnaríkis senda. Guð faðir,

guðs son, guðs heilagur andi Gesi oss góðan lífs enda.

---

Lof sé gudi, vor lausn er gjørd, o. s. frv.
(Sjá No. 92., 2., 4. og 5. vers).

## No. 330.

Lagið: Fadir vor, sem á himnum ert.

Andlegan styrk mér auktu þá, O guð, nær verøld skilst eg frá, Svo gedrór mína gefi' eg ønd, Góði fadir, í þína hønd; Hørmum mínum í huggun snú, Og himninum fyrir mér uppljúk þú.

# Viðbætir.

## I. Lofgjørdar og Þakklætissálmar.

### No. 331. (1).

Lagid: Ris upp, min sál, ad nýju nú.

Eilífi gud, þín gæzku-gnótt Gjørvallra minna daga nótt Upplýsti nád einskærri, Svo leidin þraung Ei þókti laung, Þjáningum setud nærri.

2. Fyrir þá elsku, fadir vor, Færum þér vid hvert æfi-spor Þakkir í þessum heimi, En sídar meir, Þann aldrei deyr, Eilífdin prís þér geymi.

3. Þér einum felum alla oss; Þinn einka-son, er leid á kross, Vort dæmi, von, ágæti Sé, þar til vér Sønnum hjá þér, Sorg ad breytist í kæti.

## No. 332. (2).

Lagið: Í Babýlon við vötnin straung.

Þig lofi allur eingla her, Alheims verndarinn blíði, Þig lofi jarðar þjóðin hver, Þér allt, hvað skaptir, hlýði, Þig lofi allt, hvað lofa má, Er líf og tilveru' af þér nam fá; Um þitt alveldið víða Útbreiðist lof þitt alla tíð, Eilíf guðdómsins hátign blíð, Af túngum allra lýða.

---

## II. Endurlausn vegna Jesú.

---

## No. 333. (3).

Lagið: Guðs son kallar: komið til mín.

Jesús Kristur vor vinur er, Vinfeingi hans fulltreystum vér, Samvizku' er ógnun eyðir; Flýjum því glaðir fund hans á, Er frelsa náði oss kvölum frá, Og til lífs eilífs leiðir.

2. Af elsku til vor ofan frá Guðs einka son steig jörðu á, Og maður verða vildi; O þann fögnuð, sem fáum vér, Frelsari vor hann orðinn er, Prísum hans miklu mildi.

3. Guðs einka-son er vinur vor, Vér ef hans fetum dyggða-spor, Í huggun hryggðin breytist; Óttast ei þurfum deyð né dóm, Drottins ef þekkjumst náðarróm, Oss þá hans vingan veitist.

4. Vinur trúfastur vor er hann, Er vill oss hjálpa og líka kann, Ef hörmúng á vill stríða; Synd-þjáðir flýjum fljótt til hans, Fullkomna meina græðarans, Sem andar svipti' oss kvíða.

5. Oss yfirgefið aldrei fær, Undir hans vernd framgaungum vær, Ef hrösum, hann oss styður; Hver honum treystir, sæll er sá; Sífellt hans

gánga vegum á, Um aðstoð bljúg-
ur biður.

6. Vor ástvin, Jesú, þakkir þér
Þínir frelsuðu gjöldum vér, Sem von
oss veittir blíða, Þínum fagnaðar-
fundi ná, Fullsælum gleðjast drottni
hjá Í flokk útvaldra lýða.

## No. 334. (4).

Lagið: Heiðrum vér guð af huga' og sál.

O hvílík heill, að þekkjum þann,
Þjóða gjörvallra frelsarann, Jesúm,
sem lífið lét á kross Ljúfur til frelsis
öllum oss. O þá brennheitu elsku
hans, Ei vildi hann dauða syndarans,
En til farsældar leiddi lands.

2. Sælar má kalla þjóðir þær,
Þig sáu' og heyrðu, Jesú kær, Með-
an í heimi hafðir dvöl; Hvers þó
oss hér ei gefist völ, Þig munum glað-

ir síðar sjá, Samarfar þínir verða þá Í helgra bústað himnum á.

3. Sanna huggun og sælu von Sjálfur hefur oss veitt, guðs son, Endurlífgaðir að hjá þér Eilífrar gleði njótum vér. Sú eptirþreyða sæla' og hnoss Sífellt upplífgi hvern af oss, Þegar að kemur þraut og kross.

4. Til himins fórst á undan oss Eptir útstaðinn deyð á kross, Eins munum eptir ending lífs Endurvakna til betra lífs, Í þínu ríki' öðlast þá Æru og dýrð þér sjálfum hjá; Hvað þá við jafnast huggun má?

5. Á þig trúum og vonum vær, Oss veika styrk þú, Jesú kær, Þér svo að aldrei föllum frá, Freistingar þó oss leiti á; Þú heyrir æ vort harma-kvein, Hjálpar og græðir andar-mein; Sú er vor líkn og sælan ein.

---

## III. Sannur kristindómur.

---

### No. 335. (5).

Lagið: Sá frjáls við lögmál fæddur er.

Allt gott kemur frá einum þér, Alríkur manna faðir, Af þér hins bezta væntum vér, Í von loks deyjum glaðir.

2. Helgist þér æ vort hjarta' og mál, Svo hötum ræðu ljóta, Visdómsfull orð þín vora sál Veki til yfirbóta.

3. Andar-gagn vort og annara með Orðræður vorar stoði; Þolið og hógvært gef oss geð, Glæpa svo firrist voði.

4. Herra, þegar að þúngan kross Þú vilt oss bera láta, Víst hann að góðu verður oss; Von sú oss gjöri káta.

5. Ef að trúlyndir elskum þig, Andarmein kunna ei granda; Voði og neyð þó sýni sig, Senda munt náð þíns anda.

6. Hvað sem oss mætir heims um byggð, Hugglaðir vér því tökum; Mýk oss gjörvalla mæðu' og hryggð, Mæddir þá til þín kvökum.

7. Verði oss, faðir, vild þín á, Vantrú og efa forða, Oþolinmæði' oss flýi frá Fyrir krapt þinna orða.

8. Samvizku-ró og sálar-frið Sælum gef oss að halda, Einnig meðbræður vora við Varast tvídrægni kalda.

9. Svo sem að fjöldann synda þrátt Sjálfur oss fyrirgefur, Eins gef framvegis iðkum sátt Við alla, sem skyldan krefur.

10. Auðlegð ef fellur oss í skaut, Elskuríkt veit oss sinni, Að aumra léttum undir þraut Eptir tilætlun þinni.

11. Ef fáum neyð og örbyrgð reynt Eptir ráðstöfun þinni, Trú og þolgæði ljóst og leynt Lát oss votta hvert sinni.

12. Athafnir vorar allar hér Ætíð gef oss að vanda; Svo iðjum það, sem þóknast þér, Þinn send oss styrk til handa.

13. Hóf og iðju, sem hentar bezt, Hreinskilni' og dyggðir allar Oss kristnum gef að iðka mest, Uns dauð-inn héðan kallar.

14. Lát oss svo, drottinn, lifað fá Lastvara, meðan þreyjum, Að sæla vis þér sjálfum hjá Sé oss, þá héðan deyjum.

## No. 336. (6).

Lagið: Kom skapari heilagi andi.

Þú, sem hið góða elskar eitt, En þótt að veikum finnist hjá, Án þín eg megna ekki neitt, Allur minn kraptur þér er frá.

2. Breyskleik minn, drottinn, þekkir þú, Þín náð og styrkur efli mig; Á

þínum kærleik kroptug trú Kenna skal mér að elska þig.

3. Lát elsku þá minn hneigja hug, Að helga líf mitt einum þér; Þín línkind æ mér léni dug, Lastvörum hegða mér sem ber.

4. Gef þú mér skyn, að dyggð og dáð Dýrmætast hnoss í veröld er, Að sá, sem vandar allt sitt ráð, Drugg-ur sérhvern mótgáng ber.

5. Að fullgjörð dyggð ei finnast kann, Föstum grundvelli stofnuð á, Nema skír trú á skaparann Skíni guðrækni sinni hjá.

6. Þú, sem einn verkar veikum í, Að vilja og gjöra það, sem ber, Styrk þú minn veika þróttinn, því Frá þér minn allur kraptur er.

## No. 337. (7).

Lagið: Hver sem ljúfan guð lætur ráða.

Eilífi guð, vor allra faðir, Einn

ertu góður, mikill, vís; Af undrum þinnar gæzku glaðir Gjöldum vér þér af hjarta prís; Þig að dýrka mjög inndælt er, Um gæzku þína sýngjum vér.

2. Hver, sem ástgjafir þínar þekkir, Og þær rétt virða skyn á ber, Því skyldi hann þig elska ekki, Af elsku leiddur hlýðnast þér, Á gæzku þinni efalaust Æ grunda sína von og traust?

3. Að Jesúm Krist, þinn son, oss sendir, Sérlega krefur þökk af oss; Hann þig, sem föður, þekkja kenndi, Þoldi vor vegna deyð á kross, Lærdómi bæði' og lifnaði' með Ljós og farsæld útbreiða réð.

4. Fyrst guð oss þannig elskar alla, Og eflir heillir sérhvers manns, Látum oss, bræður, léttbært falla, Að líkjast dæmi skaparans; Ástsemi, dug og elsku með Ástundum dyggð og frómlynt geð.

5. Kærleiks guð, oss sem kallað hefur Krists ríkis til af þinni náð, Og öllum jafnan gott allt gefur, Æ, gef oss bæði vilja' og dáð, Að lífs til enda þjónum þér, Sem þínum börnum verðugt er.

## No. 338. (8).

Lagið: Allt eins og blómstrið eina.

Hjálpa mér, herra blíði, Af hjarta geðjast þér, Eg svo gegn öllu stríði, Orð þitt sem bannar mér; Verk ráð-vönd æ að iðja, Aðstoða virztu mig, Með þeim svo ber tilbiðja, Og bezt-an dýrka þig.

2. Gef, faðir, krapt eg kunni Kefja girnd vonda' í mér, Ráðvendni æ svo unni Og finni náð hjá þér; Af-vega lát ei leiða Löst mig né glæpa hér, Ei spott né ótta neyða, Ótrúr að reynast þér.

3. Bod þin mér blessud visi Braut rétta lífsins á, Hana mig feta fýsi, Farsæld eilífri ná; Styrk mig ad vilja vinna Verkin skyldu med trú, Og ædsta umbun finna, Er dyggdum heitir þú.

4. Gef þú mér gódfúst hjarta, Gagnast øllum sem bezt, Aumka þann, kvøl um kvartar, Kætast samheillum mest, Ljúfum svo Jesú líkist Lund kærleiksfullri med; Farsæld þins fridar-ríkis Fæ eg þá gladur séd.

5. Gef, ad eg rétt ígrundi, Gódur ad ert og vís, Audna mín allar stundir Af þér ad gjørvøll rís. Þó sorg umhverfis hljómi, Hardar ef raunir þjá, Í lífi, deyd og dómi, Drottinn, þig treysti' eg á.

## No. 339. (9).

Lagid: Kom skapari heilagi andi.

Drottinn, ástunda dyggdir mér Dag-

lega gef og boðorð þín; Þú til ens góða þróttinn lér, Það veri bezta huggun mín.

2. Viki eg þínum vegum frá, Virzt þú í náð að benda mér; Fyrirgef breyskum, faðir, þá, Framvegis gef eg hlýðnist þér.

3. Ást þín føðurleg ætíð mig Upp-ørva skal að stunda dáð; Vongóður kem eg þá fyrir þig, Þegar eg allt mitt vanda ráð.

4. Því ef eg dyggða þræði stig, Þolgóður freisting yfirvinn, Góð med-vitund þá gleður mig, Guð, hún er sælu-pantur minn.

## No. 340. (10).

Lagið: Adams barn, synd þín svo var stór.

O herra guð, þér heiður ber, Með hjartans gleði og lotning vér Til þín nú þánka rennum; Dásamlegur í øllu

ert, Allt hefur mjøg vel til vor gert, Þakklátir það meðkennum; Æ, lof, tilbeiðsla ást og dýrð, Eilífi faðir, sé þér skýrð Føðurnáð fyrir þína, Sem einka reyndist verndin vor, Velferðar til hvert greiddi spor, Því ber oss þøkk auðsýna.

2. Fyrir vort lífið þøkk sé þér, Þín lofsverð náðargjøf sem er, Og það af miskun þinni, Heldur því við og hjúkrar að, Herra, en einkum fyrir það Ber oss með bljúgu sinni Þér þakka blessað þitt hjálpráð, Að þú hefur af føður-náð Kristna menn þar til kallað, Þig réttan føður þekkja vorn, Þín verða farsæl óska-børn Nú og um eilífð alla.

3. O hvílík huggun er oss það, Eiga þvílíkan føður að, Voldugan, vísan, góðan; Fáfróðir, breyskir, veikir vér, Vinna fátt skynjum, sem oss

ber, Má oss því margt of bjóða; Svo er og varið vorum hag, Að víst er fjørtjón nótt sem dag, Samt þurfum sízt að kvíða, Ef, eins og hlýðnum børnum ber, Með breytni góðri stundum vér, Að þóknast þér og hlýða.

4. O faðir, láttu elsku þá, Sem øllum heimi virðist tjá, Upphvatning æ oss vera, Hreinskilni stunda hjartans mest, Og hegðun alla vanda bezt, I þinni augsýn, herra, Að vér framgaungum ætíð hér, Eins og ráðvøndum kristnum ber, Og stundum mest sem megum Þinni líking og þóknun ná, Þúsundføld náðar-gæði þá Vís vér í vonum eigum.

## IV. Trúrækni.

---

### No. 341. (11).

Lagið: Allir guðs þjónar, athugið.

Heilagur faðir himnum á, Höfundur trúarinnar, Þitt voldugt orð oss vísar á Veg sáluhjálparinnar, Lát oss trú rétta rækja hér, Í ríki þínu svo að vér Þig sælir fáum finna.

2. Vertu, Jesú, vort lífsins ljós, Leið oss á veginn sanna, Unaðsemd vor og æðsta hrós Æ sért, hjálparinn manna; Sá traustið á þig setur fast, Sízt mun um eilífð fortapast, Hreppir farsæld himinranna.

3. Vor trú sé byggð, sem vera ber, Vísdóms á orðum þínum, Til enda lífsins allir vér Hvort verðugan sýnum; En nær vér rösum, herra, hér, Hjálp oss, að ekki föllum vér, Né síðar sælu týnum.

4. Brákaðan sundur brjót ei reyr, Blys trúar endurnærðu, Iðrandi sálna andvørp heyr, Andans þeim huggun færðu; Gef, að þér aldrei føllum frá, Freisting er sækir megn oss á, Send þú líkn hjarta særðu.

5. O drottinn, sem að oss í hjá Uppbyrjað trúna hefur, Efl hana, svo að ødlumst, þá Oss dauði, grøf um- vefur, Endalok trúar, eilíft líf, Hvar, eptir heimsins mæðu' og kíf, Fagn- aðar gnótt þú gefur.

## No. 342. (12).

Lagið: Hver sem ljúfan guð lætur ráða.

Þín sjást, ó guð, um verøld víða Vísdóms, almættis, gæzku spor; Jørð, himinn, árin, ótt sem líða, Allt hrópar: mikill guð er vor; Hverful umbreyting innir bert, Obreytanlegur guð að sért.

2. Gjørvøll náttúran þannig þylur

Þér dýrðar=lofsaung ósjálfráð; Mín sála gædd með skynsemd skilur, Þitt skipar öllu vísdóms-ráð, Og með trú, sem þinn andi lér, Upp til þín, drottinn, lyptir sér.

3. Hvað er eg þess, að þori' eg senda Til þín, alvaldi, huga minn, Þú, sem ert, verður, varst án enda, Vera heilög og fullkomin? Þinn helgur andi hjarta í Hreinskilnu býr, eg treysti því.

4. O, hvað þú mönnum öllum hefur Auðsýnt föðurleg kærleiks=hót, Með anda þínum oss þú gefur Afhvarf til þín af hjartans rót. Það sonar=traust vér feingum fyrst Fyrir þinn son, vorn Jesúm Krist.

5. O, hvað veikan það hressir huga, að hefja klökkva sál til þín; Ekkert mótlæti mig kann buga, Meðan eg veit þú gætir mín; Allt skapað

birtir almátt þinn, Alstaðar eg þinn kærleik finn.

6. Nú sé eg gløggt þín guðdóms-merki, Gæzku, almætti, vísdóm þinn; Hvort eg er einn, í værð eða verki, Veit eg, að þú ert faðir minn. Faðir, í þína føðurhønd Fel eg øruggur líf og ønd.

7. Það er sú trú, sem hér í heimi Himininn opinn sýnir oss; Það traust, ó drottinn, gef eg geymi Guðrækni með sem bezta hnoss; Við enda lífs, mín vissa er trú, Við mér, sem faðir, tekur þú.

---

## V. Elska og traust til guðs.

---

### No. 343. (13).

Lagið: Sólin upprunnin er.

Hvað eru vinir, vøld, Vit, fjør og hreysti? Hvað lífsins heilla fjøld? Hann þeim lítt treysti, Vel sem að

veit: Veifast allt burt sem reykur Mótlætis myrk vid el; Mynd skugga' eg horfna tel, Pá ljós um leikur.

2. Hvi treystum veikir vér Volt á heims=gædi? Glys stundlegt ekkert er Anægju=sædi Ókomins lifs, Unadar-blóm sem gefur, Fyrst þad hér bøl opt býr, I beiskju lifi snýr, Grøf yndi grefur.

3. Vor, sem hér æfast á I reynslu-standi, Skilinn lifs skóla frá Skyn-samur andi Fyrir vist veit, Valt er gjørvallt i heimi, En ædri øruggt hnoss Anægju lifs ad oss Gud mild-ur geymir.

4. Sannfæring sifelld mann Sú á skal minna, Lifs yndi hér ad hann Hvikult mun finna, Honum ad er Hér ætlud stundar=vera, Hann þvi, nær sorg hér sá Samferdast gledi, má Rór bádar bera.

5. O drottinn, einum þér Ohult eg treysti; Gef aldrei grandi mér Glys heims né freisti; Brøgð véla vond Velferð ei raski minni; Legg mér æ likn i neyð, Létt hryggð, að sæll við deyð Eg føgnuð finni.

## No. 344. (14).

Lagið: Herra, þér skal heiður og lotning greiða.

Guð, sem allri gæfu ræður minni, Gef eg ætíð treysti forsjá þinni; Vilji þinn Æ veri minn, Og veit hvert sinni Unun í því finni

2. Allt þín speki, elska, máttur leiðir, Øllum miskun skepnum þinum greiðir; Hví skal klaga Hót um daga? Herrann lagar Gæfu lifs um leiðir.

3. Mitt frá eilifð skapað hlutfall hefur, Hvað sem býður þú, mig friði' umvefur; Lán og mæðu Mazt

þú bæði, Mér hjálpræði Guð í öllu gefur.

4. Líki þér svo, lát mér ekkert granda, Legg ánægju daga mér til handa; En ef vinna Velferð minni Vél, eg finni Hjá þér huggun anda.

5. Þín náð bauð, oss jarðar gleðji gæði, Gæzkan allt eins skóp oss lífs vankvæði; Sjálfs ef eigi Sök mig beygir, Sáttur þreyi' eg; Þú lér þolinmæði.

6. Missi' eg heill, sem mildin þín gaf blíða, Mótgáng þú ef vilt eg skuli líða, Þá eg beiði, Ur böli neyðar Bezt munt greiða, Bót ei láta bíða.

7. Mun brátt þrotið má ske fjörið æða; Mildi guð, þitt verði boð, því hræða Sé víst valin Viss mér talin — Sú von er alin — Hví má hel mig hræða?

## No. 345. (15).

Lagið: O drottinn allsvaldandi.

Einn dagur öðrum tjáir, Allir megum vér sanna það, Hver sem þess gætinn gáir, Og gjörvallri hyggur sköpun að: Mikill er Og mildur drottinn, Monnum tér Gæzku vottinn, Gæða hver Gnótt er þaðan sprottin.

2. Umbreytist allt í heimi, Óbreytanlegur hann þó er; Í öllu lífs andstreymi Ætíð honum því treysta ber. Náðargnótt Næga gefur, Nýjan þrótt Veitt oss hefur, Dag og nótt Drottinn náð umvefur.

3. Honum af hjarta treystum, Hann er vor einka-líkn í neyð, Oss sínum endurleystum Eins mun hann verða líf í deyð; Sízt oss má Sækja mæða, Sældir þá Dýrðar hæða Honum hjá Hljótum æðstu gæða.

4. Framvegis, faðir blíði, Full-

tíngi þinu treystum mest; Í lukku' og ángurs-stríði Oss þín miskunin líkni bezt; Um ekkert þá Annað hirðum, En þig sjá, Mest það virðum, Og himnum á Hjá þér búa' í kyrrðum.

5. Trúlyndum heitið hefur Hjálpráð oss mönnum öllum tjá, Farsældar gnóttir gefur, Guð vor, þitt orð ei bregðast má. Sæln þú Þínum geldur Þjóni', er trú Stöðugt heldur; Hugsan sú Huggun æðstu veldur.

## No. 346. (16).

Lagið: Hver sem ljúfan guð lætur ráða.

Trúfasti guð, eg til þín kalla, Titrandi birtist fyrir þér, Og bið um miskun æfi alla, Aldrei að gleyma viljir mér; Eg veit þú heyrir andvörp mín, Og sendir hjálp af gæzku þín.

2. Öll mín þegjandi andvörp þekkir, Og tár mín sér þú leyndum í, Mér

hjálpar bezt, nær aðrir ekki, Og hart umspennir neyðin því; Þegar mér veiklast von þú sér, Virzt þá huggun að senda mér.

3. Þó að eg eigi þekki tíðum Þína alvísu stjórn á mér, Athvarfs samt leita' í eymdum stríðum Einúngis skal, minn guð, hjá þér; Veikur lítt stand-ast við eg má, Vel lát mig stríða' og sigur fá.

4. Á þér trúnaðartraustið festa Tryggvi leiðtogi, veittu mér, Hvort sældin eða sorgin mesta Frá sjálfum þér að höndum ber. Dagfar mitt prýða dyggðum gef, Drottinn, á með-an hér eg tef.

5. Fagnandi þá eg fús meðkenni, Föðurást þína sældum í; Eins, þó mótlæti mig umspenni, Mun eg ró-legur taka því; Gef aldrei skiljist eg við þig; Æ góði faðir, bænheyr mig.

## No. 347. (17).

Lagið: Faðir vor, sem á himnum ert.

Á, guð, eg treysti einan þig, Ástríkur jafnan leiðir mig; Eg gleðst af föðurumsjón þín, Eg veit, í náð þú sér til mín, Önd minni rósemd eykur það, Angist og neyð þá þreyngir að.

2. Hver himna-drottinn ástvin á, Óhvíðinn lífs veg geingur sá; Ei sturlast hann, þó eymdin hörð Að honum kreppi hér á jörð; Senn veit hann reynslan úti er, Endast með henni neyðin hver.

3. Liðsemd veit mér, minn góði guð, Að geymi' og stundi vel þín boð, Að setja megi trú og traust Til þín hugglaður efalaust, Uns sælan himna fæ eg frið, Og fagna þína miskun við.

4. Forsjónar-vegi fæ eg þá, Faðir, þína með undrun sjá; Þú andar-gagn dýrt mattir mitt, Mikilst um aldur

nafnid þitt, Því vís og gódur æ þú ert, Athvarfid vort í raunum sért.

## No. 348. (18).

Lagid: Um daudann gef þú, drottinn, mér.

Allt, hvad tilveru af þér hlaut, Alheims verndarinn gódi, Örlætis þíns og nægta naut Af nádar dýrstum sjódi; Oss mönnunum þó allra mest Auglýsir gæzku merkin flest; Því er skylt, þökk hver bjódi.

2. Vort þú oss daglegt veitir braud, Visdóms og gæzku fadir, Adstodar bezt í allri naud, Á þig vér treystum gladir, Og þó hjálp frestir enn um hríd, Á þér gedfelldri munum tíd Frelsinu fagna hradir.

3. Mest er þó jafnan miskun þín, Menn þegar neydin særir, Huggun í sorgum, Hjálp í pín, Harmþrúngna gledi nærir; Þegar ad kemur kaldur

deyd, Kvida þurfum vér eingri neyd, Frelsi og lif hann færir.

4. Í lífi, deyd og dómsins tíd, Drottinn, oss nád þín gledur; Þér sé um aldir þøkkin blíd, Þér mann-kyn lofgjørd kvedur, Ad þegar hér-vist endast á, Í himna-dýrd þér sjálf-um hjá Sælu eilífri sedur.

## No. 349. (19).

Lagid: Heimili vort og húsin med.

Gud, þig ad elska, gódi minn, Gagn er mitt bædi og skylda, Aud heims mót því og upphefd finn Alls ekkert mega gilda; Sannarleg elskan sjálfur ert, Sérhver þín skipan vottar bert Miskunar-ged þitt milda.

2. En girndir tídum ginna mig, Og gjøra skynsemd blinda, Veraldar glys á villustig Vill tæla mig, og binda Hégómann vid; en hversu þá,

Heilagi guð, eg lita má Svívirðu minna synda?

3. Örvænta skal eg ekki þó, En þinnar náðar bíða, Flýja til hans, sem frið mér bjó, Fyrir mig deyð nam líða; Hann þá fullvissu veitti mér, Að væri' eg dýrmætur fyrir þér, Jesús, lausnarinn lýða.

4. Eg veit, að komstu, Jesú minn, Á jörð að drottins ráði; Matur og drykkur það var þinn, Að þíns föðurs vilja gáðir; Fús deyðir krossinn festur á; Fæ eg af þessu glaður sjá, Að heitt oss elska náðir.

5. Elsku guðs finn eg allt eins hér, Að son sinn gaf oss kæra, Elsku til hans því öllum ber Til enda lífs að næra. Að eilífu skal eg elska hann Útvöldum með í dýrðar-rann; Honum ber eilíf æra.

## VI. Nádvendni.

---

### No 350. (20).

Lagid: O fadir himneski' og eilifi gud.

Tíd og líf gegnum eg fagnandi fer, Frjáls skunda vegferd, sem ætlud er mér; Skerdir ei elli né áratal þar Audnu, sem hjartanu skeinkt var.

2. Medvitund rósøm ad réttvísi, dyggd Rækt þar æ finna og velja sér byggd; Frid minn og eilífan føgnud ei ná Forløg ad trufla né tíd má.

3. Þú, sæla rósemd í minni sál, mér Morgna, þá sól rodar, heilsa blítt fer, Erfidid blessar heill, ánægju med, Og svæfir þreyttan í nátt bed.

4. Himnanna guds til því hugur minn rís, Heit vinnur einlæg vid bænir og prís, Gæzkunnar bodord ad geyma; mér lid Gud bid eg senda og tilbid.

5. Sjái eg mædunnar son lída neyd,

Sorgunum hlaðinn og þjáðan, en greið Hjálp mín hann frelsar, þá inndæl hans er Auga og hjarta glöð þökk mér.

6. O, hversu inndæl minn á-nægja barm Inntekur, hugsi' eg: nú sefa' eg hans harm, Aður en hjálpa' og eptir mig finn Eins og frá sjálf-um mér numinn.

7. Huggar það mig við þá mæðu, eg sé, Mildastur faðir að lætur í té Skepnum, hvað hagar, hans vísdómur veit Vel öllu skipa um hvern reit.

8. Friðar-gjöf himnesk er fyllir mitt brjóst, Að fús er eg skyldum leynt gegna sem ljóst, Boðar mér sæl, að á baki við gröf Búin sé helgud-um lífgjöf.

9. Traust það og gjörvöll á guði von fest Góðri með samvizku' er stytt-an min bezt. Skylda, glatt samvizku

boðorð, þú ber Bjart ljósið efans i nótt mér.

10. Eg þángað fylgi, sem ávísar mér, Eingar því festar mér halda frá þér, Eingri mig nøgun sker umliðin tíð, Eingan af framtíð eg geig bíð.

11. Réttan þú leiðir mig ráð-vendnis-stig, Raus yfir hégómlegt dáranna', og mig Til manna fremd-ar og fagnaðar ber, Fyrir því heilsa' eg og lýt þér.

12. Mig þvingun leysir þú mann-legri frá, Mig huggar sakleysi lífs-ins stig á, Mig styrkir hugprýði fram-gáng að fá, Fullkomnun tignara lífs ná.

## No. 351. (21).

Lagið: Faðir vor, sem á himnum ert.

Herra, sem boðað hefur mér, Hei-lagt líferni' að geðjist þér, Mitt líf

þér helga, hjálpa þú, Helgunarkrapti mig útbú, Svo að ráðvendni ljóst og leynt Lýsi jafnan mitt dagfar hreint.

2. Ef þú mér, drottinn, leggur lið, Løst og ódyggð að skiljast við, Eg mun ástunda, eins og ber, Allt, sem eg veit að líkar þér, Og trúr, uns þrýtur æfin mín, Með alúð rækja boðorð þín.

3. Sá dyggða feta feril ann, Farsældar leið æ geingur hann; Að síður skeiki, eg því skal Aðgætinn vanda ráð og tal; Vor guð, leiðtogi vertu mér, Von-góður skal eg treysta þér.

4. Ólukka megnar eingin þá, Ánægju mér að ræna frá; Dauðann mun eg ei hræðast hót, Honum ørugur taka mót, Og hverju sem að høndum ber; Hjálp og náð þar til veittu mér.

---

## VII. Réttlæti. Góðsemd.

---

### No. 352. (22).

Lagið: Heimsins stýrir forsjón fasta.

Gef oss, faðir, tvíllaust trúa, Tíð að léntir fjør og stétt Oss á jørð að undir búa Eilífð, heill og sælu rétt, Lærdómsskóli líf að er, Leið til himins gaungum hér, Þar réttlæti og gæzku gleður Góðan dyggðar umbun meður.

2. Øll þín stjórnan hér í heimi Hátign þinni lýsir bert, Eingu mild að gæzkan gleymi, Guð, réttlátur faðir sért. Þín réttvísi' og gæzka góð Gefur boð og dæmið þjóð, Góðs og réttar øllum unna, Og sem bezt þér líkjast kunna.

3. Oss, hvað kjósum, øðrum veita Eins réttlátur Kristur bauð; Af því vernda eigum leita Annars sæmdir,

rétt og aud, Hefja' upp idn, en heidra dyggd, Hata øfund, róg og lygd; Hann, er eftir sérhvers sóma, Sjálfur ødlast væga dóma.

4. Dóma ber oss velja væga, Virda brædur hér á stord; Gódum heit um gæfu næga Gaf og miskun drottins ord. Sama fødur eigum ad; Allir ad sælu keppum stad; Allir marga bresti berum; Bágt er ad dylja: veikir erum.

5. Réttvís gud, lát rétt á jørdu Réttan leida menn á stig; Ei med brædra ofur hørdu Afelli þeir dæmi sig; Allir þurfum vægdar vér, Veit oss rétt, sem hverjum ber, Virda hér, ad sæld og sómi Sé oss vís ad efst-um dómi.

---

## VIII. Þolinmæði.

### No. 353. (23).

Lagið: Hver sem ljúfan guð lætur ráða.

Ef vér í þúngar raunir rötum, Ráðstöfun drottins tökum vel, Og þolinmæði aldrei glötum, Álitum vott um föðurþel, Að mildur typtar, oss því ann, Og til betrunar leiðir hann.

2. Þó mæðu finnum þúngt að bera, Þjáning ógæfu teljum vott, Hún til betrunar víst má vera Oss valið meðal hent og gott. Það traust, ef aðber þraut og kross, Í þolinmæði styrkir oss.

3. Óþolinmæði ollir meiri Armæðu, skapar mögl og kvein, Þeim, er við reynslu illa eirir, Afmældan skerf og sorga-mein; En þolinmóðum af þeim rís Æðri fullkomnun, huggun vís.

4. Samvizku þegar geymum góða, Gersemi dýrast jørðu á, Mótlæti ekkert mun ofbjóða, Menn bezt rósamir finna þá, Í orðu náttúru allt að fer, Eðli sambodið hennar er.

5. Fullvissan, vel um stund ef stríðum, Strax eilifð brosir glød oss við, Øllum burtfeykir ángurs hríðum, Ánægju blessar, værð og frið; Sem reyk hún heimsins reiknar glys, Rauna skammvinnan þúnga sis.

6. Oss Jesús kenndi ljúfur líða Lífs og deyjandi krossi á, Og vilja føðurs bezta bíða, Byljum uns létti sorga frá; Þeim, sem með honum hugrór leið, Heiður við sigur eptirbeið.

7. Hvað eru fánýt heimsins gæði? Hvað stundleg þjáning, bøl og hryggð? Allt sis að reikna eru bæði Mót æðri dýrð í sællra byggð; Þess vegna rór eg þigg og ber, Það faðir ástkær velur mér.

## No. 354. (24).

Lagið: Gæzku guðs vér prísum.

Vor guð á himna-hæðum, Heilagi faðir kær, Í hvers kyns hryggð og mæðum Hjálp þína reynum vær; Um vora æfitíð Ef þig elskum af hjarta, Á oss mun trúfost skarta, Guð vor, þín gæzka blíð.

2. Af elsku oss til bótar Agar þú, faðir, oss, Svo vörumst lesti ljóta, Leggur á raun og kross, Hjálp veitir hirting með; Því er skylt, þessu tækjum Með þökk, og jafnan rækjum Þér hlýðið, þolugt geð.

3. Ef lætur oss tilfalla Andstreymi, sorg og neyð, Þína send aðstoð alla Æfinnar skunda leið Trúrækni trausti með, Svo að þolgóðir þreyjum, Þar til burt héðan deyjum, Þitt prísum gæzku-geð.

4. Sízt munu heimsins hryggðir

Hér mega jafnast við Eilífar yndis-byggðir Og æðstan dýrðar-frið, Sem oss þinn sonur bjó, Viljugur þá hann þoldi Pjáning' á sálu og holdi, Og kvalinn á krossi dó.

5. Hans þolgeðs dýra dæmið, Dyggð og liferuið hreint, Oss fremur öllu sæmi, Og hvetji ljóst og leynt, Feta hans fótstig í; Vilji þinn á oss verði, Vor guð, þó neyð að herði, Og mótgángs skyggi ský.

6. Ef þolinmóðir þiggjum Það, sem að höndum ber, Og heilla einum byggjum Drugga von á þér, Sízt mun oss bregðast sú; Veit oss því vel að stríða, Og vilja þínum hlýða, Með þolugri þreyja trú.

## IX. Hreinlyndi.

### No. 355. (25).

Lagið: Túnga mín af hjarta hljóði.

Guð oss hér í sambúð setti, Svo vér gleðjumst bræðrum með, Undir hver með øðrum létti, Efli lán og hressi geð; Ástúð geymi Hér í heimi Hreinlynt þelið øllum téð.

2. Líkams sama limir erum, Lands innbúa samfélags; Því til heilla hraðir verum, Hver svo annars leiti hags, Ei með flærðum Eyðum værðum, Endurgjaldsins minnumst dags.

4. Þeim, í skøpun veit sér vera Veitta manna tignar stétt, Illa sómir innra bera Ulfa=skap og refa=prett; Kjassi ríkur, Kænn er svikur, Krists svikara líkist rétt.

4. Hver einn því af hjarta mæli Hreinan sannleik bræður við; Ei með

flærð eður ósund kæli; Elski dyggð, en stundi frið; Öðrum sóma Unni' og blóma, Eigin sæmda rati mið.

5. Hreinlynt, drottinn, hjá oss skapa Hjarta', og minna virztu á Manna varast virðing tapa, Vélum af sem leiða má. Sælir einir Hjarta hreinir Heilagt fá þitt auglit sjá.

---

## X. Blíðlyndi.

---

### No. 356. (26).

Lagið: Hvar mundi vera hjartað mitt.

Öll er þín ræða elska' og náð, Ast-riki guð, til mín, Býður hjálpræðis beztu ráð Oss blessuð gæzkan þín; Hýrust blíða um hvert eitt láð Af hátign þinni skín, Illa því sómir beiskjan bráð Bræðrum á milli sín.

2. Lát oss ástunda að líkjast þér, Ljúfmennska sé oss kær, Svo alúð,

blíðu og hógværð hér Hver öðrum tjáum vær; Ofuglcg svør og orðin þver Umgeingni þokist fjær, En hinn í þína ætt sig sver, Öllum sem góð-semð ljær.

3. Frelsarans dyggða-dæmi á Dag-lega festum sjón, Öllum sem gjörði elsku tjá, Eingum bauð styggðartón, Aldrei hóglyndis-blíðu brá, Þó brigzla heyrði són, Oveitta lét sér aldrei frá Aumingjans fara bón

4. Þvílíkt blíðlyndis-dæmi dýrt, Drottinn Jesú, eg bið, Láttu það á mér skína skýrt, Skaplyndis bæta sið; Vinsemð æ gjöri viðmót hýrt, Vel-unnan sérhvern við, Svo höndlað fá-um hnoss órýrt Hjá þér í dýrðar-frið.

## No. 357. (27).

Lagið: Einn herra eg bezt ætti.

O Jesú, oss sem hefur Afrekað

lausn og grið, Þín guðleg náð oss gefur Gleði og andar-frið, Sjálfan þig litillægðir, Og leiðst á krossi deyð, Við föðurinn oss friðþægðir, Fær því ei grandað neyð.

2. Auðsýna öllum náðir Ástriki og hógvært geð, Hlýðinn guðs vilja gáðir Gæzku og blíðlyndi með, Fjandmönnum friðar beiddir Föður þinn krossi á, Og vina eymd úrgreiddir, Á þegar nokkrum lá.

3. Blíðlyndis-dæmið dýra, Deyjandi' og lífs er þú Auðsýndir, oss lát stýra; Ástundan vor skal sú, Þinn dyggða feril feta, framast sem kunnum vér, Veit oss það vilja og geta, Vor guð, að líki þér.

---

## XI. Hófsemi.

### No. 358. (28).

Lagið: Hver sem ljúfan guð lætur ráða.

Um daglegt brauð þú drottinn biður, Dugir þér ei, þó veitist nóg, Olla því mun þinn óhófs-siður, Eyðir meiru en vinnur plóg; Sparseminni sá aldrei ann, Ásaka má ei gjafarann.

2. Láttu þér nægja það, sem þiggur, Þegið stunda þú nota rétt; Mun þá veitast, hvað mest áliggur, Meðal til geingis hóf er sett; En óhóf sendir örbyrgð þér, Opt þinni velferð skaðvænt er.

3. Oss fæði' og klæði látum lynda, Þó leggjum hug á sælli kjör; Auðlegð opt dró til óhófs-synda, En við sællífi spilltist fjör; Gjörum því mun á girnd og þörf, Geymd er oss heill við hóf og störf.

4. Ofþýngja hjørtun gef ei gjørum, Góđi fađir, um lífsins stund Óhófi međ, en framar førum Forsjállega međ þegiđ pund, Vellyst syndugri vísum frá, Verđugri gleđi lát oss ná.

---

## XII. Öfund.

---

### No. 359. (29).

Lagiđ: Guđs son kallar: komiđ til mín.

Guđ, sem fađir, oss gæfu ann, Gáfum, sæmd, láni skiptir hann, Eins og bezt hverjum hagar; Annara heill hver yfir sá Ofsjónum, vesall heita má, Eitruđ þann øfund nagar.

2. Viđ sig hann ađra samanber, Í sæmd og verđúng telur sér Ójøfnuđ einatt veittan; Ásakar vísdóm æđstan hátt, Auga Rángsnúnu lítur þrátt Sæmd, blessun bróđur skreyttan.

3. Øfunda dýr eins mundu mann Mørg þessu líkt, en eingla hann, Allt tignar ædri beiðast; Endanleg vera, sem ei sá Sinn gæfu-skamt bezt henta, má Af øfund illa leiðast.

4. Brennanda líkt við eld því er Øfund, þá menn hún kvelja fer, Anægju á burt flæmir; En villi-siðum býður byggð, Ur brjósti visar æru' og dyggð, Og manna-tign ósæmir.

5. Sín eigin svipa øfund er, Aðra hvað tignar, gleðja ber, Hún æ með harmi litur; Af heipt því nagast, hana sker, Hvað gott og loflegt orð af fer, En rósemd hvergi hlýtur.

6. Ogæfu fagna, olla kann Þeim, yfirburði hvers hún fann Frá heill-um eingla felldi; Yfir oss synd og deyð hún dró, Dyggðugum Jesú píslir bjó, Saklausan dauða seldi.

7. Hver sær útmálað illt það allt,

Ófund sem verkar þúsundfalt, Óðr-um til böls og baga? Óróa vekur, eymd og stríð Ánægju hrekur burt frá lýð Og lífsins eitrar daga.

8. Ó, hversu manna er hún stétt, Áfvörðun, skyldu gagnstæð rétt, Og því af öðrum kjósum. Hvort mun þá vizka, heiður, dyggð Í hnjóði falin, ófund, lygð, Af hverju oss þó hrósum?

9. Ó, hversu Jesú er hún ást Ólík, hvers dæmið bezt mun fást, Gott vann og meinin græddi; Hann bræðrum unna, hjálpa' í nauð, Hóg-værð óvinum votta bauð; Svo breytti, sem hann fræddi.

10. Ó, hversu drottins er hún ást Ólík, sem hvergi skepnum brást, Hún allan heiminn gleður; Ránglátum upp hans rennur sól, Réttlátum líkt, og sérhvert ból Regn frjóvsamt gæðum gleður.

11. Kenn oss, ó guđ, þitt geyma vel Gæzkuríkt bođ, hreint bræđra-þel Í ást og alúđ sýna, Og manna virđa æru' og stétt Ófund frásneyddum stunda rétt, Svo ođlumst þóknun þína.

---

## XIII. Jesú eptirbreytni.

### No. 360. (30).

Lagiđ: Hjartađ, þánkar, hugur, sinni.

Góđi Jesú, lát mig læra Ađ líkjast þér, sem bezt eg má, Vegsemd mín þađ er og æra, Ađstođ virzt mér breyskum tjá. Ef lokkar synda lyst-ing mig, Líta, Jesú, gef mér þig, Dæmi þitt á dyggđ mig hvetji, Dýrst-um þér svo fylgt eg geti.

2. Þú, hvern dýrka andar æđstu, Ofan til vor komst á jörđ, Leiđst þolgóđur læging stærstu, Lemstur, sár og böndin hörđ; Allt eins gef í auđ-mýkt hér Ástundi' eg ađ líkjast þér,

Hvort lukku-brest eda lán þú sendir,
Ljúft sé mér af þinni hendi.

3. Elska heitust upp þig hvatti, Erindi framkvæma þitt, Eptirlæti mesta mattir, Ad mannkyn yrdi' af syndum kvitt; Unn mér kall mitt rækja rétt Rádvondum í minni stétt; Gef mér þar af gledi hljóta, Ad gjøra ødrum mest til bóta.

4. Fyrir lif og ljós ad senda, Laun þú hrepptir spott og neyd, Trúr þó reyndist allt til enda, Er þú leidst hinn stránga deyd; Eins á krossi enn badst þú: Æ, þeim, fadir, forlát nú; Heimur illt fyrir gott þó gjaldi, Gef eg trú og sigri haldi.

5. Fødurs vild þig fúsu gedi Fólst, þá mæddi kvølin sterk, Hans á fund þú fórst med gledi, Fullkomnad vid lausnar-verk; Helstríd þá ad høndum ber, Herra, gef eg líkist þér, Svo

ávørt pínu ødlist þinnar, Æðstu gleði sálar minnar.

## No. 361. (31).

Lagið: Nú bið eg, guð, þú náðir mig.

Sæll er sá mann í heimi hér, Hylli drottins sem aflar sér, Elskar, tilbiðjur, heiðrar hann, Herra sinn, guð og skaparann, Grandvar að sinni gáir stétt, Gagnsemd meðbræðra stundar rétt; Lífsferli Jesú fylgir sá, Farsældar nýtur himnum á.

2. Sæll er sá, hóssemd heldur við, Hegðun stillta og góðan sið; Því að alls háttar óhóf kann Andlegum heillum svipta mann; Góðfúst og blítt sá lyndislag Í líferni vottar sérhvern dag; Rétta leið dyggða heldur hann, Hógværðar-skeið, sem Jesús rann.

3. Trú og þolgæði' að temja sér, Til æðri heilla vegur er; Ðþolinmæði

og óró því Eymdirnar fleiri steypir í. En sannleik elska og una við, Unna hreinskilni' og dyggða sið Af Jesú lífi læra má, Ljós sé það manna vegum á.

4. Kærleikans dyggð sá ætíð ann, Eptir farsældar gøtu rann; Hræsni hvergi né ágirnd á Né undirferli rasar sá; Eitri þúngaða øfund hann, Illgirni líka forðast kann; Að Jesú dæmi gjørir gott, Góðan mannelsku sýnir vott.

5. Alstríki faðir, efl hjá mér Allar dyggðir, sem líka þér; Lastanna stríða lokkun gegn, Léna mér nægan krapt og megn, Þann svo lífs feril feti' eg hér, Sem frelsarinn Jesús kenndi mér; Þá mun eg síðan finna og fá Fullsælu þreyða himnum á.

## No. 362. (32).

Lagid: Kristi, vér allir þøkkum þér.

Lausnari, dæmid láttu þitt Leida mig hverju sinni, Ad laga gjørvallt lífid mitt Lífs breytni eptir þinni; Líferni þitt og lífsins ord Lýsi mér ætíd hér á stord, Svo réttan feril finni.

2. Sá þín lidþurfi leita vann, Líku fann og ædstu mildi, Obænheyrdan lézt aldrei þann, Andvørp hans heyra vildir, En hversu tídum erum vér Olíkir, gódi Jesú, þér, Ad gjøra gott sem skyldi.

3. Fødurnum hlýdinn varstu vel, Vegsama nafn hans gádir, Og hverjum manni hjarta-þel Hógvært audsýna nádir; En hrokafullt vort hjarta er, A høndum oss nær lukkan ber, Vinir opt verda smádir.

4. Þú girntist fødur þínum bezt Þjónkun og hlýdni veita, Allt ad kross-

deyd, og øllum mest Elsku þú sýndir heita; En vér þín blessud bodord titt Brotid høfum og syndum hlýtt, Forsómad frelsis leita.

5. Óvina grimmust illska og slægd Ei vakti reidi þína, Blídur fyrir þeim badst um vægd, Er beisk þig særdi pína; En hjá oss tídum upptendrast Illgirni, reidi, hefnd og last, Menn þá oss mótgjørd sýna.

6. Þín dyggda-kenning klár og hrein, Krapt sinn auglýsti vída, Þitt heilagt líf i hverri grein Hjartans ástsemi blída; Eins gef oss vilja, afl og magn, Ad efla brædra sanna gagn, Og lifnadi lærdóm prýda.

7. Allir bidjum þig ó, Jesú, Adstod oss milda senda, Dyggd ad vardveita' og vora trú, Varfærnum lífs til enda; Vér i þín fótspor fetum þá, Fullsælum uns þér siálfum hjá Veitist ad lokum lenda.

## XIV. Útfararsálmur.

### No. 363. (33).

1.

Jam mœsta quiesce querela,
  Lacrymas suspendite, matres.
Nullus sua pignora plangat,
  Mors hæc reparatio vitæ est.

2.

Quidnam sibi saxa cavata?
  Quid pulchra volunt monumenta?
Res quod nisi creditur illis,
  Non mortua, sed data somno.

### Sami sálmur á íslenzku.

1.

Öll harma-kvein hætti að sinni,
Haldi náúngar tárunum inni.
  Ei ber sofnaðan ástvin að gráta,
  Lífs endurbót dauðann má játa.

2.

Hví skrautbúna legstaði lítum?
Leiðin á ristar minningar ýtum?
  Merkja þau, að mold þar umvefur
  Mann, sem ekki' er dauður, en sefur.

3.

Nam quod requiescere corpus
Vacuum sine mente videmus,
Spatium breve restat, ut alti
Repetant collegia sensus.

4.

Venient cito sæcula, quum jam
Socius calor ossa revisat,
Animataque sangvine vivo
Habitacula pristina gestet.

3.

Því, liggja þó litum nú auðan
Líkam, fjøri' og mannviti snauðan,
Æðri vit saman aptur hans leita,
Innan skamms honum skilníng að
veita.

4.

Hann glaður um skammt fær að finna,
Fornan yl vitja beinanna sinna;
Ummyndaða eldri mun þiggja
Endurlífgaða veru að byggja.

5.

Quæ pigra cadavera pridem
Tumulis putrefacta jacebant,
Volucres rapientur in auras
Animas comitata priores.

6.

Sic semina sicca virescunt
Jam mortua jamque sepulta,
Quæ, reddita cespite ab imo,
Veteres meditantur aristas.

5.

Líkamir, þeim legstaðir skýla,
Liðnir, þúngfærir, rotnir, sem hvíla,
Fyrri sálum fylgð munu veita,
Flughraðir í hæðir upp leita.

6.

Svo dauð, grafin, fölnuð í foldu,
Fræforn endurlifnuð úr moldu,
Fagurmynduð grös fram koma sjá-
um,
Fyrri seilast af skúfsteingum háum.

7.

Nunc suscipe, terra, fovendum,
Gremioque hunc concipe molli.
Hominis tibi membra sequestro,
Generosa et fragmina credo.

8.

Animæ fuit hic domus olim,
Factoris ab ore creatæ,
Fervens habitavit in illis
Sapientia principe Christo.

7.

Jörð, tak nú við líkama líðnum,
Legg hann hér í skaut, vafinn friðnum.
Limi manns hér til vöktunar vel eg,
Hans veglegar leifarnar fel eg.

8.

Hann var sálar herbergi forðum,
Hver mynduð var drottins að orðum;
Í þeim báðum guðleg hér gisti
Greindin, lént af höfundi Kristi.

9.

Tu depositum tege corpus;
Non immemor ille requiret
Sua munera fictor et auctor,
Propriique ænigmata vultus.

10.

Venient cito tempora justa,
Quum spem deus impleat omnem.
Reddas patefacta, necesse est,
Qualem tibi trado figuram.

9.

Hyl, jørð, geymdu látinn líkama;
Lán heimta mun ógleyminn sama,
Og sér skilaða skaparinn bjóða
Skugga-sjá sinnar ímyndar góða.

10.

Fljótt líður til fagnaðar-tíða,
Fyllir guð þegar alla von lýða.
Opin þá mynd aptur skalt greiða,
Sem andvana hér gjørum leiða.

# Registur

yfir sálmana eptir stafrófsrød, med nøfnum flestra skáldanna hjá skammstøfudum[1].



[1]) Athugandi vid þetta sálmaregistur er, ad nøfn skáldanna eru hjer skammstøfud út undan hverjum sálmi, þar sem þau med vissu urdu til greind; en vid gamla sálma, er høfundar þeirra þóttu óljósir, stendur einúngis* aptan vid, og þar sem þeim vid sálma-valid til bókarinnar er breytt, er skammstafad nafn þess, er hvad mest ad þvi vann, aptan vid, eda tveggja, ef tveir unnu ad þvi.

## Skammstafanir

við sálmaröðina merkja nøfn fylgjandi skálda, sem sálmana hafa upprunalega kveðið, útlagt eða lagað, nefnilega:

A. J. tákn. Arnór prófast Jónsson.
D. Sch. — Davíð Scheving, stúdent.
E. J. — Einar prest Jónsson.
E. S. — Einar prófast Sigurðsson.
G. P. — Grím prófast Pálsson.
Grönd. — assessor Benidikt Grøndal.
G. Sn. — Gunnlaug prest Snorrason.
G. T. — Guðmund prest Torfason.
G. V. — Geir biskup Vídalín.
H. J. — Hallgrím Jónsson, djákna.
H. P. — Hallgrím prest Pétursson.
H. R. — Hálfdán prest Rafnsson.
J. Esp. — Jón sýslumann Espólín.
J. H. — Jón prest Hjaltalín.
J. J. — Jón prest Jónsson, til Grundar og Møðruvalla.
J. O. — Jón prófast Ormsson
J. Þ. — Jón prest Þorláksson.
Kr. J. — Kristján prófast Jóhannsson.

M. St. tákn. Dr. Magnús Stephensen.
O. E. — Odd biskup Einarsson.
Ó. I. — Olaf prest Indridason.
Ó. S. — Olaf prófast Sigurdarson.
S. E. — Sæmund prest Einarsson.
S. J. — Sigurd prest Jónsson.
St. J. — Stein biskup Jónsson.
St. Ó. — Stefán prófast Olafsson.
Svb. E. — Sveinbjørn Egilsson rektor.
Þ. B. — Þorvald prófast Bødvarsson.
Þ. J. — Þórarin prest Jónsson.
Þ. St. — Þorvard prest Stefánsson.
Þ. Svb. — Þorstein prest Sveinbjarnarson.

# Registur

yfir løgin í sálmabókinni eptir bragarhátt-
um og kvedskaparstudlum þeirra.

---

11. Fadir á himnahæd.
4j. 6. 6. 7. 7.

12. Fadir vor, sem á himnum ert.
6j. 8. 8. 8. 8. 8. 8.

13. Far heimur, far sæll.
7d. 5. 11. 11. 11. 11. 5. 5.

14. Frelsarinn er oss fæddur nú.
5j. 8. 8. 8. 8. 4.

15. Gef þinni kristni gódan frid.
5j. tr. 8̆. 7̆. 8̆. 7̆. 8̄.

16. Gæzku guds vér prisum.
8j. 7. 6.:| 6. 7. 7. 6.

17. Gæzkuríkasti grædari minn.
10j. tr. 8̆. 8̆. 7̆.:| 2̄. 2̄. 1̄2̄. 8̄.

18. Gjørvøll kristnin skal gledjast nú.
7j. 8. 7.:| 8. 8. 7.

19. Gled þig, guds sonar brúd.
6j. 6. 6. 7. 7. 7. 7.

20. Greinir Jesús um græna tréd.
4j. 8. 8. 8. 8.

21. Gudi lof skal ønd min inna.
12j. 7. 8.:| 7. 6. 7. 6. 7. 6. 7. 6.

22. Gud miskuni nú øllum oss.
9j. 8. 7.:| 8. 7. 8. 7. 7.

36. Hver sem ad reisir hæga byggd.
7 j. 8. 7.:| 8. 8. 7.

37. I dag eitt blessad barnid er.
10 j. 8. 7.:| 8. 8. 7. 8. 8. 7.

38. I dag þá hátid høldum vér.
8 j. 8. 7.:| 8. 8. 7. 8.

39. Jesú Kristi, vér þøkkum hér.
14 j. 8. 7.:| 8. 8. 8. 8.:| 8. 8.

40. Jesú Kristi, þig kalla' eg á.
9 j. tr. 8̆. 7̆.:| 8̆. 7̆. 4̄. 6̆. 7̆.

41. Jesús Kristur ad Jórdan kom.
9 j. 8. 7.:| 8. 7. 8. 7. 7.

42. Jesús Kristur á krossi var.
5 j. 8. 8. 7. 8. 7.

43. Jesús Kristur er vor frelsari.
4 j. 9. 9. 8. 8.

44. Jesús, sem ad oss frelsadi.
8 j. 8. 7.:| 8. 7. 8. 7.

45. Jesú, þinar opnu undir.
8 tr. 8. 7.:| 7. 7. 8. 8.

46. Jesú, þin minning mjøg sæt er.
4 j. 8. 8. 8. 8.

47. I Jesú nafni upp stá.
8 tr. 7. 8. 8. 7. 8. 7. 8. 7.

48. Kær Jesú Kristi.

12 j. tr. 5. 5.:| 6. 5. 6. 5. 7. 7. 7. 5.

49. Kom andi heilagi.
4 j. 6. 5. 6. 5.

50. Kom hér min sál og kynntu þér.
7 j. 8. 6.:| 8. 8. 6.

51. Kom, skapari heilagi andi.
4 j. 8. 8. 8. 8.

52. Konúng David sem kenndi.
8 j. 7. 6.:| 6. 7. 7. 6.

53. Kristi, vér allir þøkkum þér.
7 j. 8. 7.:| 8. 8. 7.

54. Krists er koma fyrir høndum.
8 j. 7. 6.:| 7. 6. 7. 6.

55. Kristur reis upp frá daudum.
5 j. 7. 7. 8. 8. 4.

56. Lángar mig i lifs høll.
7 tr. 6. 6. 6. 6. 6. 6. 5.

57. Losid gud, losid hann hver sem kann.
10 tr. 9. 9. 12. 12. 8. 8. 8. 7. 12. 12.*

58. Lofi gud i hans helgidóm.
7 j. 8. 7.:| 8. 7. 7.

59. Má eg ólukku' ei móti stá.
11 j. 8. 4. 7.:| 4. 4. 4. 4. 7.

60. Margt er manna bølid.
9 tr. 6. 6. 5.:| 7. 8. 6.

61. Mildi Jesú sem manndóm tókst.
7 j. 8. 7.:| 8. 8. 7.

62. Minnstu, ó madur, á minn deyd.
4 j. 8. 8. 8. 8.

63. Mitt hjarta, þvi svo hryggist þú.
5 j. 8. 8. 6. 8. 8.

64. Náttúran öll og edli manns.
8 j. 8. 7.:| 8. 7. 8. 7.

65. Nú bid eg, gud, þú nádir mig.
8 j. 8. 8.:| 8. 8. 8. 8.

66. Nú bidjum vér heilagan anda.
7 j. tr. $\breve{8}.\ \breve{10}.\ \bar{6}.\ \bar{6}.\ \bar{6}.\ \bar{6}.\ \bar{5}.$
upprunalega.
5, 9. 9. 11. 10. 4.

67. Nú látum oss líkamann grafa.
4 j. 8. 8. 8. 8.

68. O drottinn allsvaldandi.
7 j. tr. $\breve{7}.\ \breve{8}.$:| $\breve{7}.\ \breve{7}.\ \bar{9}.$*

69. O fadir minn, eg þrællinn þinn.
8 j. 8. 7.:| 8. 7. 8. 7.*

70. O fadir himneski og eilifi gud.
4 d. 10. 10. 10. 8.

71. Ofan af himnum hér kom eg.
4 j. 8. 8. 8. 8.

72. O gud, vor fadir, sem i himnariki ert.
12 j. 12. 8. 7.:| 8. 7. 8. 7. 8. 7.

73. Oss lát þinn anda styrkja.
7 j. 7. 6.:| 8. 7. 6.

74. Ovinnanleg borg er vor gud.
9 j. 8. 7.:| 6. 6. 6. 6. 7.

75. O þú gøfuglega þrenning.
13 j. tr. $\bar{8}$.:| $\breve{9}$. $\breve{7}$.:| $\bar{9}$. $\bar{3}$. $\overline{10}$.:| $\overline{12}$.

76. Ris upp, min sál, ad nýju nú.
5 j. 8. 8. 7. 8. 7.

77. Ris upp min sál og bregd nú blundi.
sjá No. 33.

78. Sá frjáls vid løgmál fæddur er.
4 j. 8. 7. 8. 7.

79. Sá ljósi dagur lidinn er.
5 j. tr. $\breve{8}$. $\breve{6}$. $\breve{8}$. $\breve{6}$. $\bar{8}$.

80. Sá vitnisburdurinn valdi.
7 j. 7. 6.:| 7. 7. 6.

81. Skapari stjarna, herra hreinn.
4 j. 8. 8. 8. 8.

82. Sólin upprunnin er.
8 j. 6. 5.:| 11. 6. 6. 5.

83. Svo elskadi gud auman heim.
4 j. 8. 8. 8. 8.

84. Syrgjum vér ei sáluga bræður.
4 an. 9. 9. 9. 9.

85. Sælir eru, þeim sjálfur guð.
8 j. 8. 7.:| 8. 7. 8. 7.

86. Sæll dagur sá, er sé eg nú upp renna.
6 j. 11. 11. 10. 11. 11. 4.

87. Sæti Jesú, sjá oss hér.
6 tr. 7. 8.:| 8. 8.

88. Til þín, heilagi herra guð.
7 j. 8. 7.:| 8. 8. 7.

89. Túnga mín af hjarta hljóði.
6 tr. 8. 7. 8. 7. 8. 7.

90. Um dauðann gef þú drottinn mér.
7 j. 8. 7.:| 8. 8. 7.

91. Upp á fjallið Jesús vendi.
6 tr. 8. 7. 8. 7. 8. 7.*

92. Upphef eg augun mín.
8 j. 6. 6. 6. 6.:|

93. Upp, uppstatt í nafni Jesú.
6 j. 8. 10.:| 10. 10.

94. Vér trúum allir á einn guð.
˘ – – – – – – – ˘ ˘
10 j. tr. 8. 8. 8. 8. 8. 8. 8. 8. 8. 8.

95. Væri nú guð oss ekki hjá.
7 j. 8. 7.:| 8. 8. 7.

96. Þann heilaga kross vor herra bar.
4 j. 8. 8. 9. 9.

97. Þann signada dag vér sjáum nú einn.
6 j. 8. 7. 8. 7. 8. 7.

98. Þér þakkir gjørum.
$\breve{5}$. $\breve{5}$. $\bar{6}$. $\bar{6}$. $\breve{5}$. $\breve{5}$. $\breve{5}$.
7 j. tr. 5. 5. 6. 6. 5. 5. 5.

99. Þökk sé þér góð gjørð.
7 sapph. 5. 6. 5. 6. 5. 6. 5.

100. Öldúngar Júða annars dags.
5 j. 8. 8. 8. 4. 8.

---

## Skammstafanir í þessu registri.

j.=jambiskt. tr.=trochæiskt. j. tr.=jambiskt trochæiskt. d. = dactyliskt. an.=anapæstiskt. sapph.=sapphiskt.

Þar sem bragarhátturinn er j. tr. er það táknað með ⌣ yfir hinum jambisku og — yfir hinum trochæisku hendingum, t. d. í No. 40 eru allar hendingarnar jambiskar, nema hin 7., sem á að vera trochæiskt.

* þýðir, að þeir bragarhættir, sem hún stendur við, án efa eiga að vera svo sem hér er sýnt, þó þeir séu ekki svo hafðir nú á tímum.

## Prentvillur:

Bls. 26[17] sarsældar fyrir farsældar
— 79[3] linda fyrir lynda
— 131[7] jørd. J fyrir jørd J
— 133 er fyrirsøgnin fyrir bladsíd-unni raung, og á ad vera: Jesú upprisa.
— 145[8] Halleljúja fyrir Hallelúja
— 433[13] hver fyrir Hver
— 464[9] sorgad-sløgum fyrir sorgar-sløgum, í fáeinum bókum.



